JJESU Christi Nafn. Vier bidium þig eñ fremur, gief þad Ar sem kiemur, sie þier til Æru eñ oss til Gagns.

JJESU Christi Nafn. Vier bidium þig eñ fremur, gief þad Ar sem kiemur, sie þier til Æru eñ oss til Gagns.

## Epter Blessan.







Hvar med Løgmaale leyster af, leingur kañ oss ei saka, Kvittan þessa Christur gaf, kom þad a sig ad taka.

Fyrer oss Guds Son eingieteñ, wthellte Bloode sijnu, þar med leyste hañ Lijdeñ siñ, fra Løgmaals Oke og Pijnu.

Þeim Son Guds veiter Sigur hañ, sa er vid Løgmaal kvittur, fyrer þvi JESUS heiter hañ, Hiaalp og Lausnare riettur.

Þo faa þeir ecke Frelse þad, sem framar i Glæpum liggia, lijka sem hvad vær hefdunst ad hañs Naad mune ei styggia.

Drotteñ seiger: Þiñ Gud eg er, ættu þvi froomur ad vera, Myskun og Naad eg veite þier, Vilia miñ skalltu giøra.

O Gud veit þu oss Vitsku þa, vorn Hug umskiere þiñ Ande, ad giarnañ holldum oss i fra, Illsku og Synda Grande.

For-hwdar Lyst oss forda miøg, fra oss vier hana giefum, af þiñe Naad a allañ Veg, epter Villd þiñe lifum.

Suñudageñ mille Atta Dags og Þrettanda, Allur Saungur fyrer og epter Predikun, sem a Añañ Dag, fyrer utañ Suñudaga Credo, Vier trwum aller a eirn Gud, Skapara Himens, etc. Epter Blessan heñañ Psalm, med Ton, Guds Son kallar komed, etc

ÞA Herodes þad heyra vañ, ad hofdu Vitringar gabbad hañ, fullur med Foss og Bræde, sende hañ wt med Sverd i Stad, Svein-Bornum veita Heliar-Bad, geystur af Grimdar Æde.

J Bethlehem þar Barn var fædt, Borneñ hafa þeim Dauda mætt, Tvævetur og oll hin yngre, epter þeim Tijma a var sett, af Vitringunum hafde friett, þesse var Neydeñ þijngre.

So fylltest þad sem fyrr var spaad, og fordum Spaamañ hafde tiaad, heyrast mun Kall a Hædum, reigeñ Graatur og Raddar-Hliod, Rachel sijn grætur Borneñ good, Huggast ei Harms af Mædum.

Epter Herodis illañ Deyd, Eingell Guds kiende Joseph Leid, wt af Egyptalande, i Draume baud hañ hallde heim, i Heliu være þeir, Sveine þeim, villde verda ad Grande

Joseph took Svein og Mariu Mey, med sier a Leid, og tafde ei, foor heim til Juda Jardar, Archelaus sa Rijkiumried, Rie tvijs Joseph hañs hræddest Gied, Reide og Hefnder hardar.

Vogar þvi ei ad vitia heim, vitrade Gud i Svefne þeim, i Galilea ad gista, raade þvi Bygd i Nazareth, Nadugañ Svein þar fostrast liet, so var og sagt med Fyrsta.

Af Spaamoñunum er þad tiaad, adur til forna so var spaad, so skule Sveiñ sa heita, Nazarenus vid Nafned bætt, sem nog er lioost og harla sætt, þvi Lausn vill Lijdum veita.

J Utlegd gafst þiñ einka Son, Eilijfe Gud, sem Vesslañ Þioon, til Fedur Lands oss ad færa. Ovina Hrædslu frels oss fra, fyrer oss þa til Heliar sla; Þier sie Lof, Eilijf Æra.

Þañ

## Pañ Þrettanda Dag i Joolum, skal siingia þeñañ Psalm

Pro Introitu. Med þeim Ton, J Dag eitt blessad Barned er.

ÞA Barned JESUS i Bethlehem, bored var i Heimeñ, Herodes a Dogum þeim, hiellt Juda Kongdoomeñ, Vitringar i Austre þa, yfred fagra Stiornu sia, þetta Teikn so þijda, Kongur eirn sem øllum maa, er nu fæddur Judum hia, þeim øll Lond eiga ad hlijda.

Tignar Gaafur tooku nu, tofdu ecke leinge, honum ad jaata holla Trw, HErrans Raad svo feinge, i Jerusalem sooktu þa, sogdu: Hvar er Kongur sa, nu er fæddur Judum? Stiornu hañs vier høfum sied, hier komum þvi Foorner med, ad Hlijdne honum biodum.

Ad Herodes Otta sloo, og øllu Borgar-Lide, Heiptar Raad i Briooste bioo, Barn ad svipta Fride, Kyrkiu-Raad og Kieñe-Meñ, kallar til siin alla señ, so med Svikum spurde, þa Christur fædest hier i Heim, sem heiteñ er til Lausnar þeim, i hvorre Borg þad yrde?

Aller svara a eina Lund, i Bethlehem Juda, seigia honum i samre Stund, so Spaadoomeñ hlioода: Bethlehem þu Juda Jord, best ert þu af Borgum verd, a Gydinga Lande, eirn sa Herra af þier skal, utkoma, sem Jsrael, riett verdur Raadande.

Vitringa i Leyne liet, lijka til siin koma, af þeim nam sem gloggvast gat, Gang og Stiornu Tijma, baud þeim fared i Bethlehem, bijded ei, ad Sveine þeim, med allre Lyst ad leita, þa Barn þad fiñed, byrted mier, braadlega so komum vier, Virding þvi ad veita.

Ferdast so sem sagt var þeim, soñum Konge ad þiena, Stiarna su i Austur Heim, aadur høfdu siena, a þeim Veige undañ foor, allmiøg var su Glede stoor, þa kom þeim i Siñe, so gaf Stadar Stiarnañ biort, stood yfer þvi Hwse þvert, sem blessad Barn var iñe.

J þvi Hwse ungañ Svein, og hañs Moodur fiña, þeirra Trw var helg og hrein, Heims

ims Faatækt ei sijña, fram̃ fyrer Barned fiellu þar, foorna Gaafur Veglegar, Gull, Myrru, Reykelse, Medalgaangara Mañ og Gud, miukt baadu ad Heidnum Lijd, veitte Frid og Frelse.

J Draume var þeim Andsvarad, añañ Veg heim snwa, Herodes þa heyrde þad, Her-Meñ liet wt bwa, um̃ alla Borgena Bethlehem, og Bygd fylgiande Stadnum þeim, saklaus Svein-Born deydde, tvævetur og yngre oll, epter Tijd, sem Synda Præll, af Vitringunum veidde.

Joseph veittest Vitran trw, veik þvi fyrer wr Lande, med JEsum og Mariu Frw, mætte ongvu Grande, hia Egyptskum um̃ Areñ faa, allt til þess Herodes doo, dvelst af DRottens Raadum, añad Siñ aavijsa liet, aptur foor i Nazareth, og biuggu þar i Naadum.

O JEsu þitt er Orded oss, andleg Leidar-Stiarna, Christne þijna þetta Lioos, þiggia laattu giarna, so ad hun til þijn snue sier, sig med Hiarta giefe þier, Ovinum ei hlijde, Astverk þijn ad eignunst vier, og i þa Dijrd sem eilijf er, forum vier i Fride.

Kyrie, Gloria, Seqventian, og allur Saungur so sem a Jooladageñ, fyrer utañ Præfatiuna, sem Alleinasta er a siaalfre Stoor-Haatijdeñe.

## Fyrsta Suñudag epter Þrettanda, Messu Upphaf,

Kyrie, Gloria, Haleluia, Seqventian, Credo. Vier trwum aller a eirn Gud, Skapara Himens, etc. fyrer og epter Predikun, a medañ Sacramentum wtskiptest, allt so sem añañ Dag.

Eñ hvar ecke eru Communicantes, þa siingest þesse Psalmur.

 Milde



Millde JEsu sem Mañdoom tookst, i Mariu Jomfrwr Kvide, Þu saast
Þar med Heill og Hiælpræde jookst, hvørium sem a þig tryde,



vora Eymd og Andar Tion, øllum var bweñ Skøm og Smæn, og sa eylijfe Daude.

Yfer oss virdtest aumka þig, ei kuñer þad leingur lijda, ad Diøfull kiæme oss under sig, eirn villder fyrer oss strijda. Af Himnum komst i Heim til vor, hoosst oss þvi Lausn og Fridur stoor, fyrer þiñ dijrstañ Dauda.

Og þu hefur oss øllum sagt, A þig skylldum vier treysta, Offur þitt Hlijdne Ast og Magt, af Syndum hefur oss leysta. Eflaust þvi setium a þig Trw, allt þad fyrer oss lofader þu, alldrei kañ oss þad bresta.

Vor Brooder kiær þu ordeñ ert, ætijd villt hiæ oss byggia, Vernd og Adstod oss veiter bert, vier vilium Hiælp þijna þiggia. Þad er oss Gagn og Glede stoor, Guds Son ordeñ er Brooder vor, hvad mæ oss sijdañ hryggia.

Heidrum og lofum HErrañ vorn, hañ eirn oss Endurleyste, vier erum med þier blessud Born, Brooder vor JEsu Christe. Gledie oss jafnañ Gæfa sw, Gude þøckum hañs Ast og Trw, Lijknsamañ sig Auglijste.

Epter Blessan. Sijnged Gude sæta Dijrd, ut supra.

Aññ

Añañ Suñudag epter Prettanda, allur Saungur fyrer og epter Predikun, so sem fyrerfarande Suñudag, fyrer utañ Exitum. Epter Blessan, med Ton, Heimile vort og Hwseñ med, etc.

HEidrad sie JEsu hæleitt Verk, og hönum Lofstijr tiedur, sem giörde liooñ siñ Guddooms Styrk, Gudlegum Tæknum medur, Uppbyriande pad i Cana, Almætte sitt ad læta sia, sijna Sveina og Moodur.

Hugsvolun stoor, er hryggre Lund, Happ sem i Cana skiede, HErrans pa kiemur Hiælpar Stund, Hormungeñ snijst i Glede, hia þeim sem hafa Gud fyrer Giest, Giæfusamleg Umbreiting siest, til Pocknunar þeirra Glede.

Hier af lære eg ad Hioona Stiett, Heidarleg er af Gude, Moñum til Heilags Sooma sett, i Syndlausum Fognude, ad Ektast og þyggia Brwdkaups Bod, Blessunar eru Dæmeñ good, leyfd er oss grandvor Glede.

Sætlega fagnar Sæleñ mijn, i sijnum Hiartans Uñusta, hvort sem hun dreckur Vatn eda Vijn, vil eg þar Trw a festa, fyrst hun Guds Syne festnud er, til Farsælldar allt mun snuast mier, i þijna Næd læt mig þyrsta.

Vill JESUS ei sem Veralldar Meñ, Vijned i fyrstu giefa, steiper helldur a Steinkiereñ, Stwr og Vatnenu dausa, Hiortum kolldum til Hreinsunar, hvort ed umsnijst til Velferdar, þeim sem Polgooder lifa.

Satan giefur þad sæta Vijn, sijnum Bornum med fyrsta, eñ epter a kiemur eilijf Pijn, Angur og Bol med Sijdsta, eñ DRottens Foolk sem Sorg hier saup, sijdar medtekur Glede Staup, og Atlæted allra besta.

Avi eg Brotleg Brwdur er, Bodum þijnum reis moote, audfeingeñ eru Andsvor mier, i Eymdum þo Fulltings leite, sæte JEsu ei seig vid mig, Syndare, hvad hef eg med þig? Hiælp þijn mier Huggun veite.

Bæte miñ Hag þijn blessud Naad, Brwdgumeñ JEsu Christe, so Mariu þiñar Moodur Naad, mier sie skrifud i Brioste, ad ætijd giøre eg, Þienare þiñ, þad sem þu skipar Drotteñ miñ, og yfer allt þier treyste.

Snw mijnu DNotteñ Vatne i Vijn, Vondskuñe i Riettlæte, i Himneska Heilsu Holldsins Pijn, Hrygd i Gudlega Kiæte, epter Stundlega Eymd og Prar, uñ þu oss þijna Dijrd ad sia, i Blessudu Brwdkaups Sæte.

## Þridia Suñudag epter Þrettanda, allur Saungur fyrer og epter Predikun sem fyrerfaranda Suñudag, fyrer utañ Exitum.

Epter Blessan, Siinged Gude sæta Dijrd, etc.

Og med þessum Hætte, skal siingia sijdañ, allt til Kyndel-Messu.

### A Kyndel Messu, Messu Upphaf.



Med Hiarta og Tungu, hvør Mañ sijnge, haatt Lof Gude søñuin,
Sinn Eigeñ Son, sem er allra Von, Sende oss aumuin Møñum.



Fegnud þeñañ, Foolk liet kiena, Frelsaren Lijda, ei villde bijda, hañ liet



ſier ſooma, hier ad koma, vor Gud.

Flockur Einglaña, Fögnud ſañañ, foor bodande a Jordu, Chriſts af Burde, kæter urdu, Kyne Maña Velgiörder, frekar tieduſt, Fridur og Glede, Fagur Soome, af DRottne komeñ, þeim er ſier valde, og Vine talde, Vor Gud.

Gyrntuſt ſkijrer, Guds Meñ dijrer, þañ Glede Dag ad ſiaa, ad Son þiñ kiære, Chriſtur være, komeñ hier Jordu a, Spaamaña allra, Ord ad fylla, ſem þeirra fyrer, Muñ þu mællter, þad þu villder, vera oſs milldur, Vor Gud.

J Moodur Kvide, Johañes gaade, jafnſkiott nærre vera, Lifande Maña, Lauſnarañ ſaña, þiñ liwfa Son vorn HErra, hædſtu Naad, og hier med Glede, hafa aller, ſem þig aakalla, þa þeir heyra, med Hugſkots Eyra, Vorn Gud.

O! þa Glede, þier Gud tiede, þu hin gooda Eliſabeth, af þijnum Burde, þa þu ſpurder, þad Gud hafde aaſett. Simeon gladdeſt, i Gude, og ſaddeſt, af Saalar Kiæte, ſa Madureñ mæte, hoof ad prijſa, med helgre Vijſu, Vorn Gud.

Laat nu Þioon þiñ, liufe HErra miñ, hiedañ i Fride fara, epter Orde þijnu, med Augum mijnum, eg leit þañ Frelſara, ſem hefur ad ſoñu, Hiaalp ollum Moñum, fyrer-bwed, fra Dauda ſnwed, Lioos Heidingia, Heidur Gydinga, Vor Gud.

Spaakona Aña, ein fieck ſañañ, Andar Fögnud og Glede, af Naadarſomu, Sonarins Komu, og Sælu þeirre oſs tiede, þa Hollde klæddeſt, og hijngad fæddeſt, Herrañ ſañe, Hiaalpareñ Maña, Soniñ hreina, ſagde þig eina, Vors Guds.

Gude ædstum, a Himne hædstum, hönum sie Lof og Æra, fyrer sijna Millde, sein hann villde, sialfur oss til færa, fyrer sitt Ord, af hvoriu er giörd, Velferd öll, og Andar Heill. Hann er sem huggar, Hiortun-gloggvast, Vor Gud.

Kyrie, Gloria, Haleluia, Seqventian, Credo, fyrer og epter Predikun, Sub Communione, allt samann so sem annan Dag Joola.

Enn sieu ecke Communicantes, þa sijngest þesse Psalmur.



Natturann öll og Edle Manns, er spillt i Adams Falle, An Hialpar Erfdum vier Syndar Illsku hanns, erum þvi tijnder aller.



Christs, sem Auma vijst, af þessum Voda keypter, þar i Adam, oss öllum



kom, Guds Reide yfer oss steypte.

Ormurenn

Ormureñ hefur Efu giñt, af Guds Veige ad falla, Ordum Guds hefur hun ei siñt, hier af kom yfer oss alla, eilijfur Deyd, so noog var Neyd, Raad Guds ad senda villde, þa Lyknar Von, siñ sæta Son, sem Lijf oss veita skyllde.

Sem nu añarleg Adams Volld, alla Fordæmda giora, so komunst vier fyrer Christi Skulld, i Kiærleik Guds vors HErra, og sem øll Mañkynd, i Adams Synd, erfde eilijfañ Dauda, so hefur Gud, fyrer Christi Deyd, frelsad oss fra þeim Voda.

Vor Gud gaf Son siñ øllum oss, þa yfer oss var hañs Bræde, hañ er daæñ og hieck a Kross, hafeñ i Himna Hæder, fyrer þad til siin, fra Daudans Piin, frelsar oss ef vier trwum, a Frelsarañ, þeim Fadereñ añ, fra Daudans Ogn oss snwum.

Hañ er vor Vegur, Hlid og Lioos, hreirn Sañleikur og Lijfed, Guds Raad og Ord sem øllum oss, af Fødurnum er giefed, og a þad Traust, Efunarlaust, aller meigum vier voga, oss helldur hañ, so eingeñ kañ, wr hañs Hondum ad draga.

Sa Mañ fra Gude falleñ er, fiñur ei Heill nie Glede, af Moñum Traust sem ætlar sier, eñ ei af sialfum Gude, hvor adra Von, eñ a Guds Son, hefur i sijnum Huga, Satan mun hañ, hiñ sama Mañ sigra og yferbuga.

Hvor a Gud trwer og vonar vijst, verdur stødugur standa, Bygd hefur sa a Biarge reyst, þo bere honum til Handa, Mæda og Neyd, Meñ hafa þad sied, mun sa þo alldrei falla, sem hefur traust, a HErranum Christ, hañ frelsar Trwada alla.

Hier bid eg nu af Hiartans Gruñ, HErrañ ei fra mier take, sitt liwfa Ord af mijnum Muñ, ad mig ei Syndeñ sake, sem bijr i mier, best treyste eg þier, bregdst þu i øngvum Voda, hvor sem vid þig, kañ hallda sig, hrædast þarf sa ei Dauda.

Þitt klaara Ord oss kieñer riett, kuñum þvi ei villt fara, hvor sem þad fær i Hiartad sett, Hlijtur strax auglioost vera, med Giæsku Haatt, sig byrter bratt, Blessud sw Guds Gaasa, Guds Ande kiær, er øllum nær, sem a honum Von hafa.

Epter Blessan þeñañ Psalm.



Hiedañ i burt med Fride eg fer, feigeñ og gladur i Gude, Huggad



nu vel mitt Hiartad er, og horfeñ allur Kvijde, svo sem Gud sialfur



fyrer-hiet mier, Hvijldar Svefn miñ er Daude.

Guds Son JESUS eirn giorer þad, Grædareñ Goode og Trauste, hvorn nu mijn Augu hafa sied, Hug miñ hañ vel upplijste, so ad eg veit i Dauda og allre Neyd, er hañ mijn Heill, Lijf og Hreyste.

Pañ hefur oss fyrer sett, þijn Naad og Myskun gooda, og til hañs Rijkis allre Heims Stiett, HErra þu lætur biooda, fyrer sæt Ord þijn sem nu lioost og riett, so vijda um̃ Heimeñ hliooda.

Hañ er blessad Lioos, Heill og Skiool, Heideña allra Maña, upplijsande þa, so ad lære vel, Lijfsins Veigeñ ad kaña, af þessum fær allt Foolked Israel, Fognud, Prijs og Sælu saña.

Allt

Allt fra Kyndel Messu og til Nijuvikna Føstu, Messu Upphaf, Naatturañ|oll og Edle Mañs. Kyrie, Gloria, Haleluia, Credo, Epter Predikun, sem Dominica Prima Adventus. Eñ sieu ecke Communicantes, þa skal i Staðiñ fyrer Offertorium, Sijngia þeñañ Psalm.



Aller Guds Pioonar athuged, ad hañs Hws vel Forstanded, Sijnged Guds Lof og Prediked, og hañs Pioonustu vanded.



Med Dygd og Trw uñ Dag og Natt, DRottens Ord vel a allann



Haatt, byrted, breided uñ Landed.

J Helgedoom, Hiarta og Sioon, og Hen- on, uñ Velferd allra Stietta, Offur JEsu dur skulud upprietta, aakalled Gud i ydar Bo- og Astverk med, Endurlausn og Naad Pre- diked

diked, so allt Foolk þacke þetta.

Boded Guds Søfnud, Blessan þa, Bøt Synda og Riettlæte, Lijf eilijft Gud þig læte fáa, Lausnareñ JEsus sæte, fyrer sijns Gudspialls Sañleiks Ord, sa sem skapade Himen og Jord, Mein þitt og Mootgaang bæte.

Fodur Syne og Anda sie, Ædst Dijrd um̃ Jord og Himen, eins sem hun var ad Upphafe, æn Enda verde frameñ. Kieñ oss ad hallda Christeñ Sid, kvittast og skiliast Synder vid, sæ þad vill, sijnge Amen.

epter Blessan.



Myskuna oss O HErra Gud, gief Frid um̃ vora Daga, Læt oss lifa



epter Orde þijnu, svipt fra oss Hallæris Pijnu, þvi þu ert vor Vernd-



are alleina. Gud giefe vorum Konge og allre Valldstioorn, Frid og

gooda



gooda Farsælld, ad vier med þeim øllum, goodañ og roolegañ Lifnad lifa



mættum, i allre Gudrækne og Sidseme, A - men.



Fyrsta og añañ Suñudag i Nyu-Vikna Føstu, sem fyr seiger, fraa Kyndel Messu.



Suñudageñ i Føstu Jñgaang, Messu Upphaf.



JEsus Christur ad Jordan kom, af Johañe ad skijrast. Eina
Af Vilia Guds og vijsum Doom, Verk þad framkvæmde dijrast.



Hiaalpar Laug iñsette þa, ad afmaa vorar Synder, og Andar Kvøl ad frelsa



oſs fra, fyrer þitt Blood og Under, Nijtt Liif høfum vier þar funded.

Heyre aller og huxe vel, hvad ſiaalfur Gud Skijrn kallar, og hvad eirn Christeñ Trwa ſkal, ad fordaſt Villur allar. Gud vill og bijdur Vatn ſie þad, Vatn ſkal þo eitt ei vera, Guds Ord teingiaſt þar eirneñ ad, og Andans Gaafañ dijra, ſo vill hañ ſiaalfur ſkijra.

Pad hefur Gud oſs auglioost giørt, i Myndum og ſo Ordum, Fodurſins Rauſt þar opeñbert, aller vid Jordan heyrdu, ſagde, miñ ſæte Son þad er, ſem mitt Hiarta wtkiøre, hañ vil eg aller heidre hier, og hønum giarnañ heyre, og epter hañs Vilia giøre.

Son Guds i ſoñum Mañdoome, ſiaalfur var þar og ſtaddur, Heilagur Ande ofañ ſtie, i Dufu Lijking klæddur, ſo alldrei ſkule efaſt neirn, ad nær vier ſkijrder, yrdum; Priaar Guds Perſoonur gaafu Skijrn, giarnañ og hier a Jordu, Heimile hiaa oſs giørdu.

Hoodyr Poſtulum Guds Son baud, gaanged Heims Piood ad fræda, ad hun ſie øll i Syndum daud, ſig ſkule med Ydran græda, hvør ſem Trwer og tekur Skijrn, Tignar Eilijfrar nijtur, ſa Mañ nefneſt Guds Nijfædt Barn, Naad hañs þeim alldrei þrijtur, Arf Himnarijkis hlijtur.

Hvør ſem ei trwer ſoddañ Naad, ſa deyr i Syndum ſijnum, og fellur i Fordæmdra Stad, fær þar eilijfa Pijnu, øll Helge hañs og eigeñ Verk, faa ei hiaalpad Saaluñe, Arfſynden þeſſum er oſſterk, Alleñ var hun þar iñe, hun leyſer ei Lauſn hañ ſiñe.

Einſamallt Vatned Auguñ ſiaa, eins og þa Meñ þvi auſa, Trweñ i Anda þecker þa, hañ Krapt Bloodſins fleckłauſa, hvi lijſt heñe ſw Laugeñ raud, Litud med Christi Bloode, ſem Andar Skada af Adams Naud, og allt vort Synda Wde, af oſs hvær og græder.

Haleluja

HALELUIA Um̃ alla Lannga Føstu.



Ha le lu ja. DRotteñ Gud, Giør ei vid oss epter Syndum



vor - um, og ei giallð þu oss ep - ter Illskum vor - - um.



DRotteñ Gud vor, minstu ec - ke a Illskur vorar gam - lar, Helldur



aptur hverfe snarlega til vor, Myskunsemder þijn - ar, þviad vier er-



um miøg Fatæker og Aumer. Hiealpa þu oss Gud Fader og Laus-



nare



nare vor, Og saker Dyrdar þijns Nafns, Drotteñ frelsa oss,



og Lijknsamur siertu yfer Syndum vo - - rum, Sa - ker Nafns



þij - - - ns. Ha le lu ja.

Sieu ecke Communicantes, Pa sie strax epter, Heidrum Gud Fødur, etc. Sungeñ Epterfylgiande Psalmur, Hvør og sijngiast maa um̃ Føstu Tijmañ, Edur og Stundum pro Exitu.



Giørvoll Christneñ skal glediast nu, og Gude Lofsaung fœra, Ad siaalfur So ad i Ast og sañre Trw, Sijngia kyñum og lœra.

Gud



Gud oss sijnde hier, sætustu Naad og Daasemder, gaf til þess Gialldeð dijra.

J Diøfuls Fiøtrum eg fangeñ laa, Faar Daudans vijst eg skyllde, Dag og Natt mig særde Syndeñ þa, sw miñe Fæding fylgde, Æ! jafnañ vox mijn Synda Sekt, Sigrade Lifnad miñ so frekt, til allrar Jllsku tælde.

Ogylld voru mijn Verkeñ froom, vanst þeim ei mier ad stoda, Sialfræðed flijr Guðs dijrañ Doom, Dædlaus til alls hins Goða. Hugvijls fieck mier sw Hrelling lioot, hia mier var Daude eñ eingeñ Boot, og vijs Helv:jtis Vode.

Eilijfañ Gud angrade þa, Eymdeñ mijn morg wr Maata, hañ miñtest sijna Myskun a, mier villde hiælpa laata, sitt Føðurlegt mier byrte Briooft, med blijdre Naad eñ ongvum P:ooft, hañ kostade dijrt miñ Bata.

Mællte vid kiæra Soneñ siñ, sie ieg Maal Naad ad giefa, far nu til Sonur mæte miñ, Mañkyne aumu ad hlijfa, Leys þad af sarre Synda-Kvøl, sialfañ Daudañ þu slaa i Hel, laat þa so med þier lifa.

Guds Son i Heim vitiade vor, Vilia sijns Føðurs fyllde, fædde hañ Meya Mooder klar, miñ Brooder verda villde, gieck hier med aumañ Holldsins Hatt, og hulde miog siñ Guddooms Mætt, ad Satan sigra skyllde.

Mier sagde hañ, þier hallt vid mig, heite eg þier goodum Vilia, eg gief mig sialfañ fram fyrer þig, til Frelsis þier læt mig kvelia, þvi eg er þiñ, og þu ert miñ, og þar eg er, skallt vera med mier, Diøfull skal oss ei skilia.

Mijnu Bloode wthellar hañ, hier med Lijfe mig svipter, þier til hins besta eg þetta vañ, þijn Trw hupe þar epter, sialfur Daudeñ sigradur var, Synd þijna mitt Meinleise bar, so

so ad Andar Hvijld þu hrepter.

A Himna aptur til Fodursins fer, fra þessa Lijfsins Hætte, ad eg Myskun wtveige þier, og Anda þañ senda vera mætte, sem hugge þig i hvorskins Kvol, So i hreirnre Trw mig þecker vel, og a Leid Sañleiks þijn giæte.

Bod mijn og Verk þau bijd eg þier, i Breitne og Kieñing ad sijna, Guds Lof og Dijrd ad efler hier, og auker so Christne mijna, Setningum Maña siaa þu vid, sem saurga þeñañ Hiaalpar Sid, þeim Skilmaala skallt ei tijna.

## A medañ Sacramentum utdeilist, siingest so sem fyrsta Suñudag i Adventu.

Epter Blessan þeñañ Psalm, med Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

SO elskade Gud aumañ Heim, ad einka Son siñ gaf hañ þeim, ad aller sem trwa a hañ eirn, eilijft Lijf hafe, ei tapest neirn.

JEsus Christur vor HErra kiær, kom Heimenum til Myskunar, sijnum Postulum sialfur hañ, sagde. Hiaalprædis Lærdoom þañ.

Nema hvor eirn endurfædist, af Vatne og Guds Anda vijst, i Guds Rijke kañ ecke saa, iñ ad ganga, og þad ad siaa.

Holldlegt er allt af Hollde fædt, Hiaalpslaust, Bolvad, ef ei er bætt, hvad Andeñ fæder, Andlegt er. Endurnijung sw Riettlæter.

Pvi fared wt um allañ Heim, til allra Piooda, Kieñed þeim, Fridar Lærdoom og Fognud þañ, Fullnadar Lausn eg ollum vañ,

Hvorier sem þiggia þesse Raad, þeim skulud veita Skijrnar Raad, J Nafne Fodurs, og Sonar, og Anda Guds, sem allt helgar.

Eins sem eg hefe ydur sett, allt kieñed þeim ad hallda riett, i Trw, Kiærleika og Christnum Sid, Kvol og Hormung ei skielfest vid.

Hoolpeñ skal vera Hvor og Eirn, sem hefur Trw og helga Skijrn, hvor ei hefur rietta Trw og Traust, Tapadur verdur Endalaust.

Siaa, eg vil ydur vera hiaa, Boda og Diofle frelsa fraa, allt þar til Verolld endast

at, Eilijft Lijf skulud þier þa faa. Vor HErra JEsu vardveit þu, veika Christne i riettre Trw, Leys oss fra allre Andar Neyd, i Himna Frid og Fögnud leid.

## Fyrsta Suñudag i Føstu, og alla Suñudaga uñ Føstu, Messu Upphaf.



Af diwpre Hrygd aakalla eg þig, O Gud hlijd Roddu miñe, Ef Synder Þijn Naadug Eyru opne sig, ad eg Bænheyrast kyñe.



og Athæfe illt, aalijta og tilreikna villt, Hvør stendst fyrer Reide þiñe?

Ast og Naad duger ein hia þier, ad forlaata Syndena, ei gyllder par hvad giørum vier, Goodverk þo kyñum sijna, hia þier eingeñ sier hroosa kañ, hrædast verdur þig sierhvør Mañ, og Myskun þiggia þijna.

A Gud alleina eg vona vil, Verdleik mijnum fra snwa, mitt Hiarta ODrotteñ hyllast skal, hañs Naad og Giæsku trwa, hvøgd heilog Ord hañs hietu mier, Heill mijn og Blessan þad eflaust er, ad þeirre Von vil eg bwa.

Þo Dvøl su færest fram a Natt, fra hvi til Morguns sijdañ, mitt Hiarta a Guds Ast og Maatt, efast skal ei nie kvijda, sañur Jsrael so giører, sem af Andanum fæddur er, Sijns Guds vill giarnañ bijda.

Þo morg og stoor sie Mañleg Synd, myklu stærre er Naadeñ, Endalaus er Guds Hialpar

aalpar Hond, hvorsu stoor sem er Skaden, sa Hyrder eirn afleyser vel, af ollum Syndum Jsrael, þad er oll Christna Pioodeñ.
Fodur Syne og Anda sie, ædst Dijrd um Jerd og Himen, eins sem hun var ad Upphafe, aan Enda verde frameñ, kieñ ofs ad hallda christeñ Sid, kvittast og skiliast Synder vid, sa þad vill, sijnge Amen.

## Allur Saungur fyrer og epter Predikun, sem Suñudageñ i Føstu-Jñgaang,

A medañ Sacramentum er wtdeildt, skal sijngia, O Guds Lamb, etc. Edur, JEsus Christur er vor Frelsare, Epter Blessan þeñañ Psalm.















Eingeñ finst meire Ast eñ sw, af Gude høfum vier feinged, Synder þær oss ængra nu, af Bodum hañs høfum geinged. Avallt oss þad Ogna skal, ad bærum hañs Reide þwnga, eilijf þvi hlaut ad koma Kvol, yfer gamla Meñ og unga. Eñ Guds var Ast og Goodvilld stoor, giørde oss Myskun veita, siñ Son hijngad sende til vor, ad Sæalum vorum ad leita. JEsu Christe, vier þockum þier, Vier lofum þig, Vier heidrum þig.

A þetta ad gledia alla oss, og ævallt skulum Gud lofa, añars gyrnest hañ ei eñ þess, fyrer allt sitt Laan ad hafa, sijdañ fordunst Synder vier, Son Guds þvi liet sig pijna, Gudlegt Lijferne holldum hier, hvør odrum Elsku ad sijna, þeim oss moodga, giørum þeim gott, Gud vid oss þañ Veg giørde, ef kallast vilium vier christed Foolk, Kiærleikuriñ hallden verde. JEsu Christe, vier þockum þier, Vier lofum þig, Vier Heidrum þig.

## Añañ Suñudag i Føstu, Allur Saungur fyrer og epter Predikun, sem Fyrerfarande Suñudag, fyrer utañ Exitum.

Epter Blessan mæ syngia þeñañ Psalm, Ton, O ! þu ægiæta, Edla Nafned JEsus.

EIn Canversk Kvinna, kom þar sem var JESUS, særd Sorgar-Linna, so mæler, O! JESU, Myskuna mier þu, Mogur Davids JESU, Dotter mijn kvad digg Frw, er Diofulseten JESU, siindu ockur Naad nu Naudhiaalparen JESU, ad hratt verde heil sw, hugga mig svo JESU.

Hæglega heyrde, hvad hun kallar JESUS, en øngvu Orde, ansar henne JESUS, hanns Sveinar svara: siaa til hennar JESU, laattu Fliood fara, fyrst hun kallar JESU, til Israels Skara, er eg sendur, kvad JESUS, vid vondu vara, og vera þeirra JESUS.

Neyd Konu knwde, hun komst a Fund vid JESUM, Tilbad og trwde, og talar svo vid JESUM, O! HErra heyr mig, hiaalpa þu mier JESU, biarga þu, eg bid þig, Barne mijnu JESU, Ohijran liet siaa sig, vid sagda Kvinnu JESUS, og Afsvor þannen aumlig, aptur greidde JESUS:

Hæfer ei Hundum, heilagt sagde JESUS, Braud fra Barnkyndum, bijtt sie þeim, kvad JESUS, Vijf seiger vel satt: vijst er þad minn JESU, þo tijna þeir hratt, þad veitstu minn JESU, Mola þann af Dwk datt, Drottna þeirra, JESU, allt er þetta eins fatt, ockar a mille JESU.

O! Dotter mæt mijn, mællte þa so JESUS, Trw miøg so merk þijn, mykel er, kvad JESUS, verde þui Vijf þier, sem villtu, sagde JESUS, under eins þad Ord tier, Almaattugur JESUS, hennar Dotter heil er, hiaalpa nam so JESUS, hann sem ollum Lykn lier, Lofadur sie JESUS.

Su Dotter Saal mijn, siwk er lijka JESU, þui hef eg Þorf þijn, og þinnar Lijknar JESU, O! HErra hiaalp mier, Hunde þijnum JESU, þo illa hafe eg þient þier, þad forlaat þu JESU, Verdugur þess ei er, ad anser þu mier JESU, Utskwfa þo ei mier, fra Augsyn þinne JESU.

Brot veit eg mijn morg, moote þier O! JESU, Hund-Tijk þui er org, i Augsyn þinne JESU, þo mig giører þu slaa, þad

er maklegt O! JESU, eñ Pogn þijn er þung þa, Prauter stanga JESU, liggiande laangt fra, lwdra eg til þijn JESU, sañlega munt mier tia, Myskun þijna JESU.

Myskunar Mergd þijn, mig tilhvetur JESU, og so lijka Eymd mijn, ad akalla þig JESU, viijst er þo veik Trw, i Vidlogunum JESU, utañ veite Afl sw, ædsta Hetiañ JESUS, Affvør og Pogn þu, þreyt ei leinge JESU, verde þier sem villt þu, vid mig seigdu JESU.

Jeg þraie þangad, þu sem ert miñ JESU, so feinge eg faangad, Fulltijng þitt O! JESU, þu læknar Lijf Mañs, Lijffins Brauded JESU, Myskunar Molans, mier uñ þu, O! JESU, sem fellur burt af Bord-Krans, Barna þiña JESU, nu sem fæ eg neytt hañs, næger mier þad JESU.

Pa eg fæ þig sia, i þijnu Hwse JESU, Mola ecke þarf þa, þar ad tijna JESU, Eilijf og øll Hægd, er hia þier miñ JESU, og Sadningar noog Nægd, af Nægvist þiñe JESU, Synd kvitt og Sorg lægd, sæll er eg þa JESU, þitt Lof og þijn Frægd, þverre alldrei JESU.

Pañ 3. 4. 5. Suñudag i Føstu, allur Saungur fyrer og epter Predikun, sem fyrsta Suñudag i Føstu.

## A Bodunar Dag Mariæ, Messu Upphaf.



Gud hañ Eingel siñ Gabriel, Af Himnum sialfur sende, eirnre Jomfrw J Nazareth, So Borgeñ hiet, A Galilea Lande.



jaatud var su, Joseph Davids Ættmañe, su Meyañ helg med Sañe, hiet Ma-



ria, af Millde haa, Guds Bodskap bar, ad hweñ var, Blessun Mañkyne a



Jørdu, være su Naad, ei Verølld tiaad, aller Fordæmder yrdu.

Til heñar iñ, gieck Eingilliñ, og Naadar Kvediu lijste, Heil Maria, af Millde haa, med þier er HErrañ hædste, þu Jomfrw hrein, ber Blessan ein, øllum Kveñmoñum meire, hrædest þa Ord þau heyrer, og hurade, hvør Kvedia sie, Eingelleñ saa, ansade þaa, ad hun ei skielfast skyllde, fra Gude eg þier, med Fognud fer, fanst þu hañs Naad og Millde.

Siaa, Avøxt þier, i Lijfe ber, eirn Son aattu ad fæda, JEsus nefnest, þad Barned best, Bølvan Mañkyns mun græda: Dijrstur hañ er, i Heime hier, Hædsta Guds Son skal heita, hønum vill DRotteñ veita, Dijrd Kongs Rijkes og Davids Sess, allt Jacobs Kyn, eirn HErra siñ, hañ skal um Eilijfd hallda, hañs Tignar Stoll, og Stioorneñ øll, stendur um Allder Allda.

Mey

Mey Maria, ansade þa, aungvañ Kall-Mañ eg kieñe, hvorneñ mun þad, mier koma ad? Eingill so svarar heñe: Heilagur Ande, er komande, og yfer þier mun byggia, a þig mun eirneñ skyggia, Guds Krapt-ur klaar, af Himne haar, Mañ-Vit ei kañ, um Atburd þañ, añars nie leingra, leita. Sa þu fæder, Sañhelgur er, Son hæd-sta Guds skal heita.

Guds Millde merk, og Volldug Verk, vid þau ættu þier hallda, þess eins eg giet, Elisabeth, Ast-Kviña þier nüeg skylda, olld-rud er hun, eñ þo gat Son, er nu a Maan-ud siötta, olijkt þo þætte þetta, Guds Ord hægt allt, þu hyggia skallt. Mey Maria, so mællte þa, siaa, DROttens Ambætt eina: Verde mier nu, sem sagder þu. So skilst Eingell ved hana.

Kyrie, Gloria. so sem fyrsta Suñudag i Adventu. Epter Blessan, Millde JEsu sem Mañdoom tookst, sem fyrsta Suñudag epter Prettanda.

Suñudageñ Palmarum, Messu Upphaf, Af diupre Hrygd æskalla eg þig, ut supra. Haleluja, og allur Saungur so sem fyrerfarande Suñudag, nema epter Blessan þeñañ Psalm, med þeim Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, Maa og siingia under þessum Mootum.



Pa JEsus til Jerusalem, a einum Asna rijdur heim, med og moot hønum



Foolked fer, fram a Leid Klæde og Blooma ber,

Hosaña

Hoſañaglader ſijngia hædſt, Syne Davids ſie Virding ſtædſt, Sigur og Bleſſan ſie þeim ſtoor, ſem i Guds Nafne kiemur til vor.

J Hædum Dijrd og Himnum Frid, hropade þetta Fylgdar Lid, i hañs Komu biſadeſt Borg, byrteſt Kieñing og Tæækneñ morg.

Sitt Hws byrte hañ Bæna Stad, Byrge Ræningia orded kvad, Kaup-Meñ og Voru wr Kyrkiu ſloo, Krepta og Blinda læknar þo.

Sveina og Barna Saung um̃ hañ, ſææ Phariſæum Oþeckañ, þeim anſar: Ef ad þegdu þeir, þa mundu hroopa Steinarner.

A þeñañ Dag allt þetta bar, þad ſeigia liooſt oſs Ritningar, Zions Dotter a Oſnu ſææ, Audmiwkañ Kong ſiñ koma þææ.

Epter Fognud og Hefdar Hæætt, hoofſt þijn Læging og Pijna bræætt, Kongur ſigrande Kvøl og allt, Chriſtnum til Lofs þier jafnañ hallt.

## A Skijrdag, Meſſu Upphaf.



Oſs lææt þiñ Anda ſtyrkia, þu Edla Skapare miñ, Fagnande mier þad
Veit mier med Vitſku ad yrkia, og virda Heidureñ þiñ.



byria ber, uñ bleſſud Ord þijn ad ſijngia, HErra þar til hiaalpa mier.

Eilijfleg

Eilijfleg Ord þijn blijfa, Esajas so, i siñe Book skijrt ried skrifa, skal Verolld þriota þo, og oll Skiepna af Gude giord, eydast og umbreytt verda, Gud bregdur ei sijn Ord.

Jardum a Jordu sendañ, JEsum Guds Fodurs Ord, med stoorum Dasemdum syndañ, selldañ fyrer lijted Verd, af Juda sijnum eigeñ Svein, og i Dauda forraded, Lamb Guds med Lijte ei nein.

Paaska Lamb æta þar iñe, eins sem Guds Logmaal baud, ad hefdu þeir hañ i Miñe, i Hendur took sier Braud, mællte: Lijkame miñ þad er, mun sa fyrer ydur giefast, fra Synd so ad frelsest þier.

Baud þeim sijnu Bloode rauda, ad bergja Vijne i, og miñast so sijns Dauda: Sancte Paall lijser þvi, sa verdugur þyggur þetta Braud, og þeñañ Kaleik DRottens, alldrei sier Andar Nauð.

Hañ þvode þeirra Fætur, þeirre Nott somu a, sa Lærdoomur var sætur, sialfur þeim kiende þa, elsked hvor añañ allañ Tijd, og mijner Læresveinar, þeckest af þessum Sid.

J Grasgarde sijdañ, Guds Son þrisvar bad, Juda vill Bræde bijda, Bundu hañ i þeim Stad. Fyrer Doomarañ fluttur var, fleyngdur og krijndur Þyrne, til Dauda dæmdur þar.

Helgastañ hatt uppfesta, Hofdingia Lijfs a Kross. Hañ sagde sig miog þyrsta, sañlega epter oss, ad bæta allt vort Andar-Tioon. Af morgum miog var hæddur, Eilijfur sialfs Guds Son.

Nidur sitt Hofud hneigde, hañ siñ Anda uppgaf, sem Johañes þad sagde, svo var Krosse tekeñ af, i Grof hafa hañs Lijkama lagt, Uppreis a þridia Deige, sem hafde hañ fyrer sagt.

Um tuttugu Dagana tveña, talade Christur þeim, Ord sijn og baud ad kieña, ollum Pioodum um Heim. Hvor Trw og Skijrn hier teked fær, Tign Eilijfs Lijfs skal erfa, þad veite Christur kiær.

Lucas i Letur sette, Lausnarans Himna Ferd, er þo med Orde og Allmætte, æ tijd hia siñe Hiord, lijka sem oss lofade hañ,

 Holld

Holld, Heimur og Helvijte, Hindra þad ecke kañ.

Huggarañ hañ oss sende, Heilagañ Anda siñ, Sañleikañ sem oss klende, Saalum gaf Fognudiñ, aller skulum aakalla hañ, oss nun sa sijst forlaata, alldrei þad bregdast kañ.

Fyrer Yfervallde eigum, aller ad bidia Gud, af þvi þo þiggia meigum Þijnsl og Raunginde med, ad Gud uñe þeim Myskunar, fyrer JEsum Christ vorn HErra, Nu og til Eilijfdar.

A medañ Sacramentum wtdeilist, JEsu þijn Miñing miøg, etc. Pro Exitu. JEsu Christe vier þøckum þier, Edur þesse Psalmur epter Ritualnum.



Tunga mijn af Hiarta hlioode, uñ helgasta Lijkama hañ, og krøpt-



ugasta Christi Blooded, sem Kvittun øllum Heime vañ, Kongur hædste



Lijdeñ leyste, Lijfs Avøxtur giørdest hañ.

Oss

Ofs var giefeñ, ofs var fæddur, af hreinustu Jomfrw sa, medañ i Heime hier var staddur, Hiælpar Veigeñ leidde aa, Æfe sijna, so liet dvijna, sierhvor Skiepna undrast maa.

Noott seinustu sat ad Borde, Siælfur Christur Brædrum med, mynduga þa Maaltijd giorde, ad mætte fylla Logmaaled, med Hondum hreinum, Læresveinum, sig til Fædu giefa ried.

Holld i Braude, Blood i Vijne, baud ad være Christur kiær, þo þad ei fyrer Skilning skijne, Skynsemd Mañs þvi ecke nær, Trw alleina, Hiartad hreina, hier nooglega stadfest fær.

Helgedoom so hafañ aller, heidra sku'um allañ Tijd, gamlar Logmaals Foorner falle, fylgium DRottens nijum Sid. Trw añ mæta, best mun bæta, Mañvits Skort hiaa Christnum Lijd.

Soñum Gude Son gietanda, og Syne gietnum fyrer Upphaf, og Huggaranum helgum Anda, hvor þeim baadum kiemur af, Æ skal sijngia, Sierhvor Tunga, saña Dijrd, Heidur og Lof.

## Epter Blessan þeñañ Psalm, ef vill.



Vor HErra JEsus visse þad, var þa hañs Tijma komed ad, vid Verolld skilia skyllde.
Til Bords hia Læresveinum sat, med sijnum Paaska Lambed aat, a þvi sijdasta Kvollde.



Sagde þeim mig nu laangar miøg, med ydur þess ad neyte eg, fyrr eñ Pijsl aa mig



take, upp fraa þessu ei eta vil, af Paaska Lambe þaangad til, ad kömed er Guds Rijke.

A þeirre Naatt sem svikeñ var, Son Guds fyrer þeim Huxan bar, fraa Trw ad fielle eige, Eitt Testament þeim iñsette, J Hønd took sier Braud, þackade, Braut þad, gaf þeim og seiger: Taked, Eted, þad er mitt Holld, A Krossens Trie fyrer ydar Giølld, wtgiefed aa ad vera, aller sem trwed ad eg er, ydar Lausnare, þad skulud þier, J mijna Miñing giøra.

Eins þa Kvølldmaaltijd endud var, Ostyrk um þeim til Huggunar, sitt Sacrament fullgiørde, ad hønum alldrei hverfe fraa, hañ took Kaleik og þackar þa, gaf þeim hañ og so segde: Drecked af þessum aller þier, Nijtt Testament mijns Bloods þad er, sem wthellest fyrer ydur, til Syndalausnar og Saattar Heim, So opt þier drecked af Kaleik þeim, miñest þier mijn þar medur.

Lijka sem Gud a eirnre Naatt, øllum Frumburd i hverre Att, um Egyptaland eydde, Forsugum Konge Pharao, fleygde nidur i rauda Sioo, og allt hañs Her-Lid deydde. Hañ sette Paaska Haatijd þa, hañs Stoormerke ad miñast a, øll Piood ad þacka fyñe, af Prældooms Hwse hefur leidt, HErra, þeim Lausn wr Voda veitt, a þurrum Siaafar Gruñe,

So hefur Christur fyrer sitt Blood, i Skijrneñe af siñe Piood, dreckt øllum Andar Voda, Handskrift Samvitsku særande, med sier feste a Krossens Trie, vañ Synd, Vijte og Dauda, so æ miñunst þad aller vier, ad Paaska Lamb vort hañ ordeñ er. Eitt Sacrament iñsette, hvar oss i Braude Holld sitt sær, hañs Blood i Vijne dreckum vær, af DRottens Orda Almætte.

Hvør þad Braud etur, sem hañ gaf, og

HErr-

HErrans Kaleik dreckur af, Christs Dauda skal kuñgiora, ad JEsus Guds Son gallt a Kross, og giørde noog til Lausnar oss, a sier bætte Synd vora, so Gud er oss Naadugur nu, nær vier høfum a þessu Trw, og vid Skijrn vora blijfum, elskuleg Guds Børn erum þa, Arf Himnarijkis eigum fær, med Fride og Føgnud Eilijfum.

Hvor Mañ proofe sig siælfur vel, Sacramentum þa þiggia skal, svo hañ sitt Hiarta þecke, hvort hañ Trw rietta hafe vijst, og hreina Elsku, so hañ sijdst, Ofaatt og Vantrw flecke, svo Dooms Afelle ei ete sier, af þvi hañ ecke adgreiner, Lijkama sijns Lausnara. Allra Synda þvi ydrast a, og alvarlega hverfa fra, sijdañ Guds Vilia giøra.

Hier med skulum sem blijdeñ Børn, Himneskañ Gud og Fødur vorn, af øllum Hug ækalla, fyrer JEsum Christum Soneñ siñ, sem a Krosse er lijflæatiñ, leid noog fyrer oss alla. Med Heilags Anda Hiælp og Naad, hañ styrker vora Trw, so ad, lifum epter hañs Orde, i Elsku, Samlynde og Sid, sijdañ giefe oss eilijfañ Frid, vid Andar Voda forde.

A Føstudageñ Lææanga, tekst undañ allur fyrre Partur Messuñar, og þar i Staden skal sijngia þeñañ Psalm, hvørn og sijngia mææ med þeim Nootum, Giørvøll Christneñ skal glediast nu, etc.



Eilijfur Gud og Fader kiær, æn Upphafs alls og Enda. Ad hafer þu fyrer
A þig alleina trwum vær, sem heiløg Skrift oss kiende.

 þiñ



þiñ hædsta Krapt, Himen og Jord af øngvu skapt, og Skiepnur allra Handa.

Eg trwe og so a JEsum Christ, hañ er Guds Son alleina, af heilögum gieteñ Anda viist, i Jomfrwr Lijfe hreina, Maria hiet sw Meyañ klaar, milldur af hvørre fæddur var, sa mæte Lækner Meina.

J Bethlehem fædde siñ blijda Son, hañs blessud Maria Mooder, su er vor hædsta Hiaalpar Von, það hañ vor ordeñ er Brooder. Þar fyrer trwe nu hvør fyrer Sañ, að JEsus sie bæde Gud og Mañ, sw Trw til Lijfsins leider.

J Gydinga Lande hañ gieck uñ krijng, Guds Födurs Vilia að kieña, með Jardteikn, Ord og Amiñing, eylijfañ Gud sig sañar. Lausnareñ ædur eñ leid hañ Pijn, Lazarum vakte af Dauda sijn. Saar ried Svik Judas siña.

Þegar nu Guds hiñ sañe Son, sig gaf i Pijnuna saaru, giorde hañ sijna blessadur Bæn, með bloodugum Sveita Taarum. J Alldengarde var epter það, af Gydingum gripeñ þegar i Stað. Postular fra hönum fooru.

Fyrer vora Skulld (vier trwum þvi) villde hañ reyrast með Böndum, so vier yrdum af Syndum frij, og saarum Ovina Höndum, af eilijfum Dauda og Andar Pijn, sem Adams fyrer Synda Mein, yfer oss alla dunde.

Fyrst var hañ leiddur fyrer Annam Prest, og fieck þar margt að lijda. Fyrer Caipham hañ kom þvi næst, Kvalarar ei villdu bijda, með Högg og allskins Háð og Spott, Hrækeñ og dreigeñ þa alla Nott. Saart neitar Petur sijdañ.

Astundan Juda aarla Dags, ein var sú fyrer öllu, JEsum þeir leida aller strax, iñ i Pilati Höllu. Fals Vitne mörg og furdu lio-

ot/

ot, færdu Judar honum a moot, þeir kvadu hañ Kong sig kalla.

Aform þeirra vel under stood, og þeckte Domsins HErra, hañ sa þa þyrste i saklaust Blood, saar Ofund kuñe ei þverra. Draap-Sök ongva Doomareñ fañ, þo dæmde samt til-Hwdlaats hañ, Christ, so ei yrde af Verra.

Pioonar Pilati þessu næst, þeir komu samañ ad Bragde, Coronu af Þyrnum kynia fast, þeir keyrdu ad JEsu Hofde, med Hrækum, Slögum og hvörskins Spie, hædande hañ, og fiellu a Knie, Lijttum Kongs Nafn til lögdu.

Yfer Beniar hañs og bloodugt Holld, þeir breiddu Purpurañ rauda, Særdañ miög fyrer vor Synda Giolld, so liet Pilatus wtleida, til Gydinga, eñ þeir giördu braatt, med grimmum Hlioodum ad hroopa haatt, Kvel hañ med Krossens Dauda.

Aptur a moot þeim ansar hañ, eg kañ ei añad ad fiña, eñ JEsus sie eirn Saklaus Mañ, Þvi skyllde eg hañ þa pijna? Kolludu Judar af Kappe sijn, Keysarans ertu ecke Vin, ef lætur þu honum i lina.

Þegar hañ heyrde þesse Ord, þad Keysarans Reide feinge, Dooms Riettlæted datt fyrer Bord, so dugde Vidvorun eingeñ, fyrer Keysarans Reide hañ Kvijdañ bar, um Christum ei huxade par, sem vijda hefur tilgeinged.

Hendur i Vatne hreinsar hañ, hvar med sitt Sakleyse tiade, eñ dæmde ei sijdur til Dauda hañ, sem Dygdarlauser umbadu, og kvadst Saklaus i Dreyra hañs. Þeir æptu a moot: þess sama Mañs, sieum vier seker i Bloode.

Þeir hofdu hañ wt a Hausa-Stad, hañ hlaut siñ Kross ad bera, margt af Foolkenu flycktest þar ad, og fieck Medaumkan saara. Þu Zions Dotter Syrg ei mig, Sonu helldur þijna og þig, fyrer tilkomanda Faare.

J Kvalastadeñ þa komeñ var, a Krossen JEsum festu, millum tveggia Mordingia þar, Meinlausañ hañ uppreistu. O! Fader þeim nu

nu forlæt þad, fyrer Ovinum so a Krosse bad, Myskun Guds ad þeir ei mistu.

Fuller af Gabbe fiellu a Knie, Flærræder a allar Lunder, Pa beyska Pijnu og þunglegt Spie, þriær heilar leid hañ' Stunder. Sijdañ Fodur signudum gaf, Sælena, Lijkamanum af, og so doo fyrer vorar Synder.

Hætt a Krosse Herrañ hieck, Heiptar Meñ þetta skoda, hañs Sijdu Spioot i giegnum gieck, so grim var Juda Bræde, Falureñ hvaß i Hiarta stood, hier wtrañ med Vatne Blood, þad giorvoll Mein vor græder.

Joseph Yferbodarañ bad, beint mætte JEsum jarda, Nicodemus kom og þar ad, og dijr mæt Smyrsl ei sparde, Christum tooku þeir Krosse af, og komu honum i nija Gref, J Josephs Jurta Garde.

HErrañ foor a Heliar Laut, Helvijte og Diesul ad viña, marde hañs Hösud og i Mola braut, hañs Magt og Vallded stiña, og hefur med sijnum harda Deyd, fræ Helvijte freist og allre Neyd, þa honum af Hiarta uña.

Pañ Pridia Dag um Ottu-Stund, uppreis Christur fra Daudum, med sætum Sigre a alla Lund, Sialfur oß leyste af Naudum, Lausnareñ driwgum liet sig siæ, af Lærefveinum sem epter æ, wtsendust med hañs Bodum.

HErrañ Christur til Himna foor, þa hofdu þeir Dagar Enda, og so hijngad ofañ til vor, wtsende hañ Helga Anda, svo er nu JEsus Gud og Mañ, jafnañ fyrer oß bidur hañ, til Fodursins hægre Handar.

J Aññad Siñ er hañs aptur Von, ad dæma þa Lijfs og Daudu, goodum bestu giefur hañ Laun, ad glediast i Himna Fride. Omilldor munu hañ eirneñ siæ, og Eilijflega honum skiliast fra, hrakter i Helvijtis Voda.

A Heilagañ Anda er og mijn Trw, eiñ virdest hañ mier ad ræda, hañ mun mitt Hiartad hreinsa nu, og hiælpsamlegana næda, so ad eg Ottest DRotteñ Gud, og alvarlega hañs ræke Bod, mijnum Naunga til Gooda.

Aññad Gagn eirneñ giorer oß hier, sa goode Heilag-

Heilage Ande, i hvørskins Neyd sem ad Hondum ber, hañ trwe eg hiaa oss stande, hañ hiaalpar ad søñu og huggar þa, sem hañ af Hiarta kalla a, i allskins Neyd og Vanda.

Heilaga Christne hier trwe eg, i Heime jafnañ vera, og sañra Guds Barna Samfielag, sem Krossen med Christo bera, øll hafa þau eina Trw og Von, a JEsum Christ Guds kiæra Son, hañ er þeirra Gud og Herra.

Eg veit og trwe vijst fyrer Sañ, ad vor Himneskur Fader, Syndernar oss uppgiefur hañ, af Giæsku siñe og Naadum, alleina fyrer Christi Pijnu og Deyd, oss frelsar hañ fra Helvijtis Neyd, þvi kañ oss eckert skada.

Eg mun Daudanum eflaust fra, a Effsta Deige rijsa, og Oforgeingelegur verda þa, Ord Guds sem gløgt auglijsa. Fyrer Guds hiñ mikla Maatt þad skier, ad Meñ aller i Heime hier, Endurlifna ad vijsu.

Pad er mijn Von og Tail-laus Trw, til Christs mijns kiæra Broodurs, ad mier giefe hañ andlega Roo, og eilijft Saalar Foodur, Glede um Allder Allda og Frid, epter þeñañ Stundlega Deyd, veiter oss Guds Son Goodur:

Sijdañ, Nu bidium vier heilagañ Anda, etc. Ad honum Endudum sie lesen Passian, med stuttre Utskijringu. Epter Predikun.



JEsus Christur a Krosse var, kvaldest allur hañs Lijkame saar, med hiñe



mestu Pijnu, Sio Ord vor DRotteñ sagde þar, haf þaug i Hiarta þijnu.

Fyrsta sijner hans sæta Raad, sin Fodur kroptuglega bad, um Heill Ovina sina: Minn Fader fyrergief þeimþad, þeir vita ei hvad þeir vina.

Annad Hans mykla Myskun er, minnast þad jafnann skylldum vier, Ræningia so ried svara: An Efa skalltu i Dag med mier, i mijnu Rijke vera.

Pridia Merker hans milldu Trw, Mundadarlausre seiger nu: Sia, þar er Son þinn Kvinna, Johannes Mooder þijn er sw, henne skallt Umsioon inna.

Fioorda Ord hans skallt festa i Hug, Frelsarenn dijrt ad keypte þig, þvi sagde hann sig Þyrsta, hann gyrnteſt Heill Mannkynsins miøg, Holld hans saart Naglar nijsta.

Fimta Sijner þier Synda Maatt, Son Guds kallar a Krosse haatt: Gud, þvi villtu mig Forlaata? Hardlega kvelst allt Hollded mitt, yfred miøg wr Maata.

Siøtta Ord Christs er einka sætt, alla Synduga fær þad kiætt, hvørium i Hug þad kiæme: Uppfyllt er allt og øll Synd bætt, med minne Kvøl i Heime.

Seinasta, þier Fader fel eg i Hond, framstijgande nu mijna Aund. Eg bid þig minn Lausnare, Heilags Anda mier Huggun send, þa blijt eg af Heime ad fara.

Hvør sem Christs Pijnu Heidrar a Jord, og hugsar opt þau Sio JEsu Ord, hønum vill DRottenn blijfa, hier med Frid, enn i Himna Dijrd, aan Enda lætur lifa!

**Strax þar epter fylger Aminningenn til þeirra sem til Guds Bords gaanga, og allt annad, so sem a Skijrdag. A medann Sacramentum wtdeilist, skal siungis, O Guds Lamb Saklausa, a Krossenum Lijflaated.**

## Epter Blessan þennann Psalm

Þann



Pañ heilaga Kroſs vor Herra bar, a Hollde hañs voru daudleg Saar,



Fyrer oſs alla hañ Fullnad giørde, vier urdum ei keypter med ødru Verde.

Christi Mooder Maria, og Meñ helger eru Gude hiaa. Pad er ei ſkied fyrer adra Forþienan, eñ fyrer Christi Dauda alleina.

Þvi hlijded kiæru Christner Meñ, hvad kieñer oſs øllum Ritningeñ, þeir ſem Viſt a Himnum hlioota, HErrans Pijnu þeir verda ad nioota.

Pañ helga Anda hædſtañ Tulk, hier bid eg fræda Christed Foolk, vijſe hañ oſs a Veigeñ ſaña, fra Villu-Lærdoome vondra Maña.

Einaſta Gude ſie Æra og Dijrd, er ſiñ Son ſende hijngad a Jørd, hañ ſtijre og ſtioorne oſs øllum ſamañ, ſo vier hañ Ottunſt og Elſkum, Amen.

A Paaſka Dageñ ſkal fyrſt ſijngia þeñañ Himna. med Lag, Fagnadar Kieñing Kviñum ſær. Edur med þeſſum Nootum.



Allfagurt Lioos oſs byrteſt braatt, Bygd Himnaña Lof ſijngur kaatt, af



Føgnude gladdest Heimur haatt, Helvijte griet, þad miste Maatt,

Blessada Kongs Almaattur ad, Abl Daudans braut og eydde þad, Frægur Helvijte Footum trad, frelsade Lijd wr Kvala-Stad.

Christur i Stein-Proo lagdur laa, Lid Hermaña þar vakte hiaa, þañ Sigur dijrstañ seigia maa, Son Mariu reis Dauda fraa.

Daudans Harmur er horfeñ vijst, hin mesta Hrigd i Glede snijst, skijnande Eingill fruñbar fyrst, fra Daudum upprisen JEsum Christ.

Einum Meistara uñu best, Ast-Meñ hañs Dauda Harma mest, grim̃er Heidingiar giordu vest, Guds Son høfdu a Krossen fest.

Nu dijrkum aller DRotteñ þañ, af Dauda reis og Sigureñ vañ, med Fødur og Anda helgum hañ, hefur þad Valld, ei endast kañ.

## Par næst þeñañ Lofsaung fyrer Messu Upphaf.



Endurlausnareñ vor JEsu Christ, er Daudañ sigrade vijst, Uppreis

af Dauda, ei maa Synd oss skada, Hale lu ja.

Saa er aan Synda Fæddur var, fyrer oss Guds Reide bar, Frid hefur oss feinged, og Fodurs Naad umgeinged, Haleluja.

Synd, Dauda, Dioful, Lijf og Naad, lagde Gud allt a hañs Naad, hañ frelsar alla, þa sem hañ aakalla, Haleluja.

KYRIE.



Kyrie Gud Fader Myskuna þu oss. Christe, þu ert vort Lijf og Uppris[a],



Myskuna þu oss. Kyrie Heilagur Ande, hiaalpa oss vor Huggare,



Myskuna þu oss.

Gloria, Dijrd Heidur sie Gude. Svo sem a Joola Dageñ.

HALELUIA.



Hale - - luja. Haleluja, ætlega sijngium vier, med

 saññe



ſañre Aſt ſvo ſem Riettchriſtnum ber, Til Guds Trwader Hiortun hefied



hier, hvor af Naad og Giæſku ſiñe oſs vardveiter, af Myſkun og mykellre



Millde, Mañkyn fra Daudanum leyſa villde, Til Glede og Huggunar,



er hañ oſs Uppriſenn. Hale . . luja.

SEQVENTIAN.




Paaſka Lamb vier heilagt høfum, Herrañ hañ vier Chriſtner lofum.

Lamb Guds Saudum Sigur vañ, saklus Christur Frid oss fañ, sættande Syndugt Lid, siñ Fødur vid. Undarlegt þad Einvijg var, sem aattu Lijf og Daude þar, skaalfur Lijfs Drotteñ do, dijrstur lifer þo. Christur reis upp fra, etc.

Upp tel oss Maria, allt hvad a Leid fieckst ad siaa. Lifanda Jesu eg Legstad fañ, leit eg i Dijrd uppriseñ Lausnarañ. Einglana hef eg heyrt og sied, Høfuddwk hñs



og Lijnløk med, Christur vor Bon uppriseñ er, undañ sijnum i Galilæam fer-

Christur reis upp fra etc.



Meir trwum vier Mariu einnre, Meinlausre og hreinnre, helldur



eñ Falsfullum, Flock Juda øllum. Eklaust Christum aller bodum, uppriseñ



Christur reis upp fra, etc.

fra Daudum, Sigrareñ sæte, Sonur Guds vor giæte. Sigrareñ



sæte, Sonur Guds vor giæte, Haleluja.

Credo,

CREDO, Vier trwum aller a eirn Gud, Fodur Almattugañ, so sem a Jooladageñ. Fyrer og epter Predikun sie sunged þrisvar, Christur reis upp fra Daudum, etc.



Christur reis upp fra Daudum, leyste hañ allañ Heimeñ af Naudum, þvi



skulum vier aller glader vera, Lofa og Dijrka vorn Lausnara, Haleluja.



Sigrareñ sæte, Sonur Guds vor giæte, Haleluja.

PRÆFATIAN uppbyriast so sem a Jooladageñ.



Sañlega er þad tilheyrelegt og Riettvijst, skylldugt og miøg hiaalpsamlegt. Ad

Ad vier Drotteñ alla Tijma, hæleitlega heidrum og lofum þig, eñ þo einkañ-
lega a þeſſum Deige, A hvørium vort Paaſka Lamb Chriſtur er fyrer oſs
Foornfærdur. Þvi hañ er þad ſañarlega Paaſka Lamb, ſem burt-took allar
Heimſins Synder. Sa ſem fyrer ſiñ Dauda hefur vorn Dauda ſigrad, og
Lijfed fyrer ſijna Upprisu endurnijad. Og þar fyrer med Einglunum og Høfud
Einglunum, med Thronunum og Maktarvølldunum. Sømuleidis æſamt







SANCTUS, Heilagur, Heilagur. Sem a Jooladageñ.
Epter Blessan skal syngia þeñañ Psalm.







Saa Fyrra Dag leid saara Pijn, Haleluja, Haleluja, Saklaus fyrer allt Mañkyn, Haleluja, Haleluja.

Þier hrædðu Kviñur fared fram, Haleluja, Haleluja, fliootlega i Galilæam, Haleluja, Haleluja.



Lærs

Læreſveinum þad ſeige þier, Haleluja, Haleluja, ſa Kongur Dijrdar Uppriſeñ er, Haleluja, Haleluja.

A Paaſka Glede ſætt Lof ſie, Haleluja, Haleluja, ſunged DRottne af Chriſtneñe, Haleluja, Haleluja.

Heilagre Preñing hædſtu Dijrd, Haleluja, Haleluja, af Hiarta ſeigium, og Packargiord, Haleluja, Haleluja.

A Añañ Dag i Paaſkum, allur Saungur fyrer og epter Predikun ſem a Paaſka Dageñ, eñ a medañ Foolked geingur til Guds Bords, ſkal ſijngia. Pier ſie Lof og Dijrd, ſem añañ Dag Joola, eñ ſieu ecke Communicantes, þa ſkal ſijngia fyrer Offertorium, þeñañ Pſalm.



Guds Son i grimu Daudans Bond, gieſeñ fyrer Synder Maña, Fyrer þad Uppreis nu liooſt med Lijfe og Aund, Lijfed gaf oſs þad ſanna.



ſkulum vier Foodureñ nu, fagnande loſa af Aſt og Trw, og ſyngia Haleluja, Haleluja.

Daudañ



Uppa Fialled JEsus vende, eirneñ Læresveinar hañs, setteſt nidur og ſijdañ kiende.



ſia þar-nærre Fiolda Mañs, Moꝛle ſætu af Muñe rende, mællte þeſſe Ord til Sañs.

Sæler eru vijſt og verda, Volader Meñ ad JEſus tier, Andlega ſem alldrei ſkierda, Æru og Trygd i Heime hier, vid Lijknar Kroſſeñ Hug ſin herda, Himnarijked þeirra er.

Sæler eru þeir hier ſyrgia og graata, ſañlega ſkulu þeir Huggun faa, og ſo þeir i Pridia Maata, er þijda Hoogværd ſtunda aa, Jordena vil eg þa erfa laata, og ollum Heillum þar med naa.

Sæler eru þeir ſem Þorſta lijda, þar med Sullt ſyrer Riettlæted, ſañlega ſkulu þeir Sadning bijda, ſæta Huggun faa þar med, og Myſkunſamer ad miſſa Kvijda, þvi Myſkun ſkal þeim verda tied.

Sæler eru med Hiarta hreinu, þvi Himna Guds þeir Auglit ſiaa, Fridſamer ſo allt ad einu, aller Guds Born kalla þa, og þeir ſyrer O-riett mæta Meinum, munu Arf i Guds Rijke faa.

Sæler erud þier ſem Offſookn alla, af illum Moñum lijded hier, med A-Lygar þeir yfer falla, og aktaſt fleſt til Styggdar mier, fagned Launum Himna Hallar, hrøktuſt ſo Spaamenerner.

Apert Trwar Ydran ſaña, JEſus gieſe og Hoogværd mier, gagnhreint Pel til Guds og Maña, ad giæte Fridarens leitad hier, og Guds Barna Umbun kaña, erfa Lijf med ſialſum þier.

O þañ

Þañ 22. 23. og 24. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf.










Ok mitt er sætt, og Byrde liett, epterfylg mier so munt þu riett, hiaa Helvijte sneida. Hiaalpa skal þier mijn Hiaastod merk, hlioota muntu af mijnum Stirk, Arf Guds eilijfra Giæda.

Allt þad sem giorda eg ydur og leid, uñ Æfe mijna fyrr og sijd, a ydur vil eg skilia. Ahyggiu, Verk og ydart Maal, allt riett og gott þad vera skal, ef geingur Guds ad Vilia.

Hiaalpræde kijs og Heimur faa, hatar þo alla Mædu þa, sem Børn Guds hlioota ad bera, þad tekst þo ei a añañ Haatt, a þad ven þig sem mest þu maatt, vilier þu hoolpeñ vera.

Øll Skiepna vel þvi Vitne ber, uñ Votneñ, Lopt og Jord sem er, vid Kvol ei kañ sier forda. J Guds Nafne sa ei vill þad, med sijdasta mun i Kvala-Stad, sitia med Hugraun harda.

Heill

Heill, Ungur,Værn i Dag er Mañ, a Morgun siwkur og saar er hañ, Framlideñ fliott vier reynum. Lijka sem Bloome værn uñ Voll, Veralldar Prijde þrijtur øll, og eydest i Svip einum.

Hollded kvijder vid Kvøl og Deyd, þa komeñ er Mañ i sijdustu Neyd, þa fyrst byr- ia froomer verda. Eirn stūndar hitt, eñ añ- ar þad, alla Lijfdaga þangad ad, uñ sijna Saal ei hyrda.

Pa Lijfed ecke leingur fæst, Leyner sier ei A-sokun stærst, þa vill sig Gude giefa. Hvort þa Gudlega hitter Naad, sem hefur Dvirdt og jafnañ smaad? þad horfer hellst til Efa.

Rijkum Fiarmagn ei forda kañ, frelsar ei Hreyste Jngismañ, fra sijnum Fognud þeir hnijga. Po Verolld veittest einum øll, Aud- ur heñar, Silfur og Gull, i Daudans Da- ns maa stijga.

Lærda verndar ei Vitska sijn, Vols, Ma- kt og Sæla Heimsins dvijn. aller hliootum ad deya. Saa Gude vill ei ganga a Hønd, þa giefed er Lijf og Andar Stund, i eilijfre Eymd mun þreya.

Heyred og merked Børneñ blijd, sem bun- dud Trw vid sañañ Gud, ydur skal Kvøl ei ergia, hreinum Guds Ordum hallded traust, Hugga þau ydur Efalaust, æ vill Gud ydur biarga.

Alldreige launed illu illt, ydar Lijf sie saklaust og stillt, ei læted ydur upperta. Einstijg þañ ganged hier uñ Heim, Hefnd og Dijrd alla giefed þeim, sem Verolld hardt mun hyrta.

Hefdud þier alla Holldsins Villo, Sælu, Virdingar, Goß og Snylld, allskiostt yrdud þo kallder. Hyrting sender þvi HErra Gud, Holld ydar typtar Krosse med, ad seirne Sæ- lu hallded.

Pike Heims Mootlæte þrongt og strangt, þeink Vijtis Baal mune heitt og langt, hvort vitlaus Verolld reñur. Med Lijfe og Saal þar liggur i Kvøl, sem liñer hvorke nie er a Dv- ol, eñ þo alldrei uppbreñur.

Pier munud epter þessa Tijd, þiggia med Gude Sælu og Frid, hvort jafnañ Huga snwed. Mañs Twnga eingeñ mæla kañ,

Mætt, Dijrd og Fognud Eilijfañ, sem Gud hefur ydur bwed.

Hvad Gud milldaste HErra vor, hiet og i sijnu Nafne soor, oss Christnum ollum samañ, enn Efa helldur oll sijn Heit. Oss hiælpe hañ i Eingla Sveit, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Epter Blessan.



Lofed Gud i hañs Helgedoom, hañs Christner Meñ a Jordu, Med Undrum Sijnged Lof, Pock, Dijrd, Sæmd og Noom, so Ord hañs vijdfræg yrdu.



þeim, uñ allañ Heim, hañs Makt og Heidre lijse, Hætign vors Guds þeir prijse

Ad Hiartans Son siñ HErrañ Christ, hefur fyrer oss giefed, þar af feingum vier Fodurs Ast, fyrer hañs Dauda Lijfed, Samvitskañ hrein, vid Synda Mein, sig af Gudls Ynde gledur, ABBA O Fader! bidur.

Bodad er nu þad blessad Ord, berlega ollum Moñum, fra Upphafe, og ytst uñ Jord, sþult Mañkyne soñu, hvad andad fær, Guds Gæfur þær, gofge, þacke mest leinge, og Halleluja sijnge.

Gud Fodur og hañs einka Son, ætijd lofum og þockum, Helgañ Anda sem veiter Von, i Villu ad ei sockvum, fyrer Orded hreint, hañ lioost og leint, helldur og hlijfer Freistne, samt allre siñe christne.

Pañ

## Pañ 25. 26. 27. Suñudag epter Trinitatis, Messu Upphaf, med Ton, Hædste Gud HErra millde, etc.

VAkned upp Christner aller, og siaed Syndum vid, af Hiartans Root ækalled, eilijfañ Fodur Gud, ellegar Hefnd hañs mætum, hañ hverfur oss i fra: Utañ Syndum aflaatum, Jdrunst og Lifnad bætum, mestu Kvol munum sia.

Sitt Ord DRotteñ oss sende, sw Raad var milldelig, þo er a oss sw Blindne, i Synd hvor eikur sig. Eingeñ Umvondun batar, utañ Gud hefne hart, hañs Pioona Heimur hatar, heilagre Kieñing glatar, eitthvad vill verda snart.

Odulld er allra Sioonum, Jllska sem rijker nu, hia Bændum, Pegnum, Pioonum, þeir þiggia ei Raadeñ trw, hvad vardar oss um Klerka (anfa nu Sierlaater:) þeir vekia Villu sterka, vora Þorfsskulum verka? kieñe þeir sialfum sier.

Fra Heims Upphafe Herra, hatade Synder miog, grim komu Giolldeñ þeirra, geingur nu sama Veg. Ef Synder so ei þraum, sem sagt er Ninive fra, Heiptar Hyrting þa siaum, Hefnd og Straff vier faaum, sem þeir i Sodoma.

Gydinga Prioostsku þiaade, þa forgiefens var kient, hofnudu HErrans Raade, hvad Gud þeim hafde sendt, fyrer Spaameñ og Skrift frooda, Johañem, JEsum mest, sijdañ hañs Sveina gooda, Sañleiks Ord liet þeim biooda, Ætt Juda afmaad siest.

Under Tyrkians Ogn vier stondum, ei vesit nær komed sie, Drep-Soott i ollum Londum, Aurbyrgd og Hallære, af hvorium Adstod þiggium? Eilijfe Fader kiær, utañ þitt Lof uppbyggium, Jdrunst og Synd afleggium, Grimlega glotunst vær.

Eingeñ i Blindleik bijde, betre nu hvor sitt Raad, so Hirting Guds hia lijde, sem hofum

forþienad. Vel meigum Plagu vita: Vond Guds sem geingur nu, ei villdum fyrr ælijta Ast Guds nie giarnañ nijta, þvi kom oss Piæning sw.

Raadleggia ydur læted, Loftu ad skilia vid, af riettre Jdran græted, ill Verk og vondañ Sid. Heilagre Um̃boot heited, hyllest Gud hier i fra, mest ad hañs Orde leited, epter þvi giarnañ breited, hañ vill oss vera hiæ.

Heill og Naad hañ oss giefur, hlijdna ef fær oss sied, i eilijft Lijf oss upphefur, øllum Guds Bornum med. Pvi er skylldt til vor tækium, Trygd Guds og Myskun hañs, þa Naad alldrei Orækium, epter heñe hellst sækium, Hotum Synder til Sans.

JEsum Christ Son siñ blijda, sende Gud øllum oss, liet hañ fyrer oss lijda, Last, Heipt og Kvol a Kross, so Naad oss øllum sijndest, i Dauda Lijf sitt gaf, fyrer oss auma pijndest, æn þess, Mañkyn allt tijndest, hañ hiælpe oss Symdum af.

So Añars Heims ei deyed, ækalled JEsum Christ, hañs Naad þier erfa eiged, epter Veralldar Vist. læanga Mædu hier lijded, leited þvi DRottne ad, Ord hañs elsked og prijded, øllum hañs Vilia hlijded, Guds Naad oss giefe þad.

## Epter Blessan.

Christs er Koma fyrer Hondum, kiñum þess syn - ia sijst, J nedre Tarknum i øllum Londum, allvijda verd - ur lijst.

Lopt



Lopt mun lijda, Lwdrar hœtt siingia þa, med Eingla Fylking frijda,



fegursta Sky. e a.

Þa mun Rœnglœtum reynast, Reyde Guds þwng og strijd, med Helvijskum Loga launast, liner ei Kvala Tijd, J eilijfañ Elld þeir rata, alldrei þo Daudañ fœ, gnijsta Toñum og grœta, Grimd su ei seigiast mœ.

Guds einka Son wtvallde, er sendur ad leysa oss, Fullnad fyrer mig holde, festur a hardañ Kross, A þig eg skal mig reida, wtgafst fyrer mig þitt Blood, dyrfer þad mig vid Dauda, Diosul og Heliar Glood.

Fagnadar Liooseд frijda, fridande hrygg-va Lund, frels mig af Faare og Kvijda, fyrer þijns Sonar Und, þa vil eg gladur af gœnga, Guds Naad mier efle Trw, Arf þijnum mig epter lœngar, i þessum Heime nu.



A Suñudøgum allra sijdast, epter Exitum, þa Foolk fellur fram, mœ siingia þetta Vers, sem Veniulegt er allvijda i þessu Lande.

 Frid



Frid veittu voru Lande, Vollduge Fader fyrr og sijd. Pa lijdur
Yfermoñum øllu Grande, og Undergiefnum forda Lijd.



ad Lijfsins Enda, og liñer Heimsins Stund, gief oß þiñ Guddooms Anda,



ad gledie vora Lund, Fader og Sonureñ sæte, og Sañleiks Andeñ best,



hañ geyme vor og giæte, þa geingur a moote mest.

Maa og syngia þetta Psalm-Vers ef vill, Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Sal, etc.

Vors

VOrs HErra JEsu Verndeñ blijd, vere med oss a hvorre Tijd, Gud hugge þa sem Hrygdeñ slær, hvort þeir eru Fiær eda Nær, Christnena efle og auke vid, Yfervolldunum sende Grid, hañ giefe oss ollum Himna-Frid.

Ender Grallarans Ared uñ kring.

* * * * * * * *



## II. Saungur og Embættisgiørd a Bæna og Samkomu-Døgum, þar þeir eru halldner.

Messu Upphaf.



Nu bid eg Gud þu næder mig, Nægd Myskunar eg beide þig,
Afplaana oll mijn Illsku Hoot, eg veit mijn Brot so mørg og lioot,



Illsku mijna þu af mier þvo, og allar Synder lijka svo, þvi eg medkieñe

mijna



mijna Synd, J mijnum Huga hun er ei leynd.

Moot þier einum i mørgum Last, miøg eg braut, og syndgadest fast. Øll er þijn Ræda ørugt Raad, so aller bidie þig um̃ Naad. Þvi Edle vort er allt i Synd, ellegar være ei Naaden reynd. Þu sigrar þa sem soddañ Trw, setia ecke i Hiartad nu.

Siaa, hier gieteñ i Synd eg var, sem mig hijngad mijn Mooder bar, allañ Sañleika elskar þu, og leynd þijn Raad mier sijnder nu, þu hefur sied hvørneñ eg er, halldeñ i Synda Gyrndum hier, aadur vissa eg ecke þad, fyrr eñ þijn Vitska mier kom ad.

Dreif a mig siaalfur DRotteñ miñ, dijrlegu Ysope og Myskun þijn, snart kant þu mig af Syndum þvo, so eg verde hvijtare Snioo. Þetta Ysop er þijns Sonar Blood, þad hreinsar oss af Synda Mood. Laattu mig heyra þijn lysting Ord, so gledieſt þau Bein sem hrygg voru giørd.

Siaa þu ecke til Synda mijn, sliett og afmaa Illsku og Pijn. Skapa mitt Hiarta skiært og hreint, med skijrum Anda lioost og leynt. Utskwfa mier ei fra Asiaan þijn, eñ Anda helgum hallt til mijn, gief mier aptur Glede og Raad, gladañ Anda og stødugt Raad.

Vantrwudum eg vijsa vil, a Veg þiñ, þier ad snwast til. Frels mig HErra miñ Hiaalprædis Gud, af hættre Blood Skulld og allre Neyd. Mijnar Varer miñ Gud upplaat, so Muñnreñ løse þig med Gaat. Ef þu villder vort Offur faa, eg skyllde þad fram̃ laata þa.

Audmiwka Aund aktar Gud mest, og aangrad Hiarta hañ lijdur best. Zion veit þu Gud Sæmd og Naad, so Jerusalem byggest med Daad, þad er þijn Christne Kiær og hrein, kallande þig ad bæta Mein. Þesshaattar Forn ad þu villt faa, a þijnn Altare laata siaa.

Heidur sie Gude Himnum aa, hañ vill oss sijna Myskun tiaa. Þar fyrer ætijd þøckum vær, ad þijn Giæska hun er oss nær. Guds einka Son vort eilijft Traust, jafnañ vier losum med Hiarta og Raust, Anda heiløgum ætijd med, um̃ allar Allder Dijrd sie tied, Amen.

Þar næst þetta Kyrie.



Kyrie, e-leison, Christe e-leison. Ky-ri-e e-leison.

Par næst sie sungen̄ þesse Fader Vor, sem Epterfylger.



O Gud vor Fader sem i Himerijke ert, hæatt yfer oss i Anda mest, villt Helgasta Nafn þitt hia oss verde open̄bert, heidrad og lofad allra best, a



þvi tilbeden̄ verda. Þitt Naadarrijke kome hier, kien̄ oss i þvi ad lifa, Himne og a Jordu.



og hvad sem ecke þocknast þier, þar fra vilier oss blijfa. Svo Æfeu̅lega



ødlunst vier, J þijnu Rijke ad blijfa.

Vollð=

Vollduge Gud, þiñ Vilie verde Jørdu aa, vel jafnañ og a allañ Veg, eins og i Himnarijke. Þvi þar kañ eingeñ standast, eda koma maa, utañ þiñ Vilia ydske miøg, og life so hier lijke. Vort Daglegt Braud oss veit þu nu, vora Saal med ad næra, Fridar Ord þitt er Fæda su, fegna laat oss þad læra, hvar med þu oss a helga Trw, og Hiaalpar Veg villt færa.

Forlaat oss vora myklu Skulld og marga Synd, moodgum vier þar med jafnañ þig, þær virdstu af oss ad taka. So sem vier fyrergiefum þeim af goodre Lund, sem giørdu oss moot og syndu miøg, ei vilium þa aasaka. Iñ i Freistne oss ecke leid, a raangañ Veg so vijke. Helldur frels oss af allre Neyd, Aund vora so ei svijke. Upplijs og helga oss þiñ Lijd, ad erfum vier þitt Rijke!

Hier epter skal syngia, Nu bidium vier Heilagañ Anda. Epter Predikun skulu tvo edur þriu Ungmeñe syngia Litaniuna, og skulu Prestarner hallda Foolkenu, ad svara þar til.

## LITANIAN I MOODUR-MAALE.

Fyrste Kor. Añar Kor.



| Fyrste Kor. | Añar Kor. |
| --- | --- |
| Kyrie eleison. | Gud Fader Myskuna þu oss |
| Christe eleison. | Christe Guds Son Myskuna þu oss. |
| Kyrie eleison. | Gud heilagur Ande M. þu oss. |

Gud



Gud Fader i Himerijke. Myskuna þu oss.
Sonur Guds og Lausnare Heimsins. Myskuna þu oss.
DRotten Gud heilagur Ande sañur Huggare. Myskuna þu oss.



Vert oss Lijknsamur. Þyrm þu oss DRotten Gud.
Vert oss Lijknsamur. Hialpa oss DRotten Gud.



Af øllum Syndum, Frelsa oss DRotten Gud.
Fra allre Villu. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra øllu Illu, Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Drepsoottum og Hallæris Tijd. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Fiandans Flærd og Listum. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Orustum og Bloods Uthellingu. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Upphlaupum og Tvijdrægne. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Hagle og Ovedrattu. Frelsa oss DRotten Gud.
Fra Bradum og Ovijsum Dauda og Fordæmingu. Frelsa oss DRotten Gud.

P fyrer



Fyrer þijna helgu Holldgan og Hijngadburd. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
Fyrer þiñ Blooduga Sveita. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
Fyrer þijna Beyſku Pijnu og Dauda. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
Fyrer þijna Helgu Jardan. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
Fyrer þijna Helgu Upprisu og Uppstigning. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
Fyrer Tilkomu Heilags Anda Huggarans. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
A vorum Siidasta Tijma. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.
A Ytsta og Straanga Doome. Hiaalpa oss DRotteñ Gud.



Vier Aumer og Synduger bidium þig. Bænheyr þu oss DRotteñ Gud.
Stijr og stioorna þiñe Heilagre Almeñelegre Christelegre Kyrkiu. Bænheyr þu oss DRotteñ Gud.
Laat alla Biskupa, Sooknar-Presta, og Guds Ords Pienara, halldast i helgum Lifnade, og Hiaalpsamlegre Kieñingu. Bænheyr þu oss DRotteñ Gud.
Hept þu alla Vandræda Meñ, og hindra alla Villu. Bænheyr þu oss DRotteñ Gud.
Leid þa alla a rietta Gotu sem Viller fara. Bænheyr þu oss DRotteñ Gud.

Gief

Gief oss Makt ad Foottroda Diøfuleñ med þiñe Kieñingu. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Trwlynda Verkmeñ send þu i þiñ Vijngard. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief þeim øllum þiñ Anda og Krapt sem hlijda þijnu Orde. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Styrk þa alla sem eru Ottaslegner. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief øllum Christnum Kongum og Høfdingium Frid og Samþycke. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief Vorum Naaduga Herra og Konge N. N. jafnañ Frid og farsællega Rijkisstioornan. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief øllu Kongsins Raade i Danmørk og Norege, med vorum Løgmøñum hier a Lande, sem stijra eiga Veralldlegum Riette, þijna Hlijfd og Blessan. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief øllum Almwganum Frid, Naad og Myskun. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Hiaalpa øllum þeim sem eru i Naudum og Haaska stadder. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Haf Umhyggiu fyrer þeim sem eru Hiaalparlauser. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Vertu Myskunsamur øllum Christnum Møñum. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Fyrergief øllum vorum Ovinum, og laat þa snwast fra øllu Vondu. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

Gief Avoxt a Jordena og vardveit hana under þiñe Blessan. — Bænheyr þu oss O Drotteñ Gud.

O HErra Gud Bænheyr þu oss Naadar-
samlega. Bænheyr þu oss DRottenn Gud.
O JESUS Christus Guds Sonur. Bænheyr þu oss DRottenn Gud.



O þu Guds Lamb, sem burttookst Heimsins Synder. Myskuna þu ollum oss.
O þu Guds Lamb, sem burttookst Heimsins Synder. Myskuna þu ollum oss.
O þu Guds Lamb, sem burttookst Heimsins Synder. Gief oss ollum þinn Frid.



Kyrie e- lei- son Gud Fader Myskuna þu ollum oss.

Sijdann fellur Prestuренn a Knie fyrer Altarenu, og siingur þesse Vers.



Vier hofum syndgast med vorum Forfedrum.
O DRottenn gior ei vid oss epter vorum Syndum.

Diaakneнn og Folked svarar.

Vier hofum hast oss Raunglega i ollum vorum Frammferdum.
Og ei gialld þu oss epter vorum Misgiordum.



O DRottenn heyr þu vora Bæn. Og laat vort Akall koma til þijn.

Þar epter pronuncerar Presturenn þessar Collectur fyrer Altarenu, Eina edur allar Priar, Seigiande: Vier vilium bidia.

HEyr þu Almattuge Gud og eilijfe Fader, sem jafnan ert Milldur og Myskunsamur, af þiñe Guddoomlegre Natturu, til þess ad fyrergiefa Synderner, Virdstu til þijn ad taka vorar audmiwkar Bæner, So ad vier Aumer og Fatæker, sem bundner erum med margfolldum Synda Bondum, mættum snarlega leysast af þeim, Sierdeilis fyrer þijna Millde og Myskunseme, Amen.

## Bæn fyrer Kongenum og Raadenu.

O Þu Allra Mektugaste og Eilijfe Gud, sem sañarlega Stioornar og Stijrer, Veiter og Giefur alla Hlute a Himne og Jordu. Lijt þu Myskunsamlega yfer Vorn Naadugasta Herra Kongeñ, Kong. N. N. Med ollu Hañs Rijkis Raade. Og alla þa sem eiga ad stioorna og stijra Londum og Rijkium, Borgum og Lands-Bygdum, og laat þa alla Riettelega stijra sijnum Almwga hier i Heime, So þeir meige epter Daudañ odlast ad vera med þier i Hiñerijke Eilijflega, Amen.

## Bæn uñ Frid.

ALmattuge Gud og Eilijfe Fader, sem ad ert Bruñur og Uppspretta alls Andlegs og Tijmañlegs Fridar, og allrar Hiartans Hvijldar og Stillingar. Vier bidium þig audmiwklega, ad þu fyrer þijna Giæsku, Goodgyrnd og Mylldе, virdest ad giefa oss þañ sana Frid, hvorn Verolldeñ maa ei giefa. So vier mættum lifa epter þijnum Bodum, i Sañleikßins Otta og Frelse, fyrer allra vorra Ovina Skielfingu og Voda, fyrer þiñ Elskulegañ Son JEsum Christum vorn HErra, Amen.

Sijdañ snijr Presturenn sier til Foolksins og sijngur Blessunar Ordeñ.

## Um̃ Laangaføstu maa siingia þessa Psalma epter Blessan, til Skiptis.



Miñstu O Madur a miñ Deyd, Miñstu a mijna saaru Neyd, Miñstu



þad eg hefe eirn fyrer þig, i Daudañ giefed siaalfañ mig.

Pad laattu þier nu vera kient, ad þetta hafer þu ei forþient. Af Elsku hefe eg þier allt þad veitt, eñ ecke fyrer þitt Verked neitt.

Þvi laattu þad uppvekia þig, ad þu komer fram̃ fyrer mig, med Angre og Jdran Hiarta þijns, so ad þu niooter Dauda mijns.

Ad Saal þijn verde af Syndum hrein, og saurug-legre Lasta-Grein, fyrer þañ Dreyra i dapre Pijn, sem dunde wt af Saarum mijn.

Eñ hvøriu giegner Heimskañ su, ad huxa faaer um̃ þetta nu? margur er saa Madureñ þar, um̃ mijna Pijnu ei huxar par.

Hvørneñ hañ kuñe hellst ad faa, Hiaalp Andar siñ-ar, og leysast fraa, eilijfum Dauda og Andar Pijn, og Reide Guds fyrer Synder sijn.

Eñ fagna og gledst mijn saatæk Hiørd, fyrer miñ Dauda hoolpeñ giørd, sem hefur allt þitt Traust aa mier, ad vijsu vil eg hiaalpa þier.

J mijnum Dauda er þitt Lijf, þijn Hiaalp, þitt Traust, þijn einka Hlijf, mitt heilagt Blood þier hiaalpar mest, og hreinsar þijnar Synder best.

Lof og Heidur sie Lausnareñ þier, fyrer Lijkn og Myskun, þu veitter mier, fyrer þiñ Dauda og Drey-ra Foss, O DRotteñ hiaalpa øllum oss.

Añar Exitus, med sama Lag.

Synduge Madur sia þitt Raad, seiger vors HErra JEsu Maad, giæt þess i Reide Guds þu ert, glatadur sær þo ei vid þvi giort.

Eg var Liwfur ad leysa þig, Lijknargiarnan þier finda eg mig, kuñug var mier þijn Kvøl og Sekt, kostade mig þijn Borgun frekt.

Eg var hlijdeñ til Dauda allt, Illsku þiñar og Synda gallt, hvra þvi vel ad hlijder mier, HErra þiñ alldrei afrækter.

Eg leid Mædu, og Heimsins Haad, hefur mig þiña vegna þiaad, so feinger Raad og Fridar Giøf, Frelsara þijnum sijnger Lof.

Eg var sleigeñ og særdur miøg, so heill þu yrder fyrer mig, og allar Synder varest vel, verder kvittur vid Eymd og Kvøl.

Eg var Bølvadur birtur hier, Blessan eilijf so veitest þier, og Ord mitt hefde i þier Stad, alla Hlnte sier helgar þad.

Eg var bundeñ og hraktur hier, hiaalpade eg so wr Villu þier, ad a mier stande øll þijn Trw, Asioonu mijna so siaaer þu.

Eg var hrakeñ og Hwdstryktur, Med Haadung klæddur og krijndur, negldur a Krosseñ, Rakeñ þo, og hryggelega a honum doo.

Eg gaf þar wt mitt meinlaust Blood, med þvi veittest þier Kvittun good, so leiste eg af þier Synda Bañ, Satan, Synd, Dauda eg yfer vañ.

Synd, Daude, Kvøl af Adam er, eñ Lijf og Naadeñ kom af mier, Eva gieck Leid sem giegnde vest, giørde eg mijns Fødurs Vilia best.

Andskotanum Rwm Eva gaf, undañ skyldu Trie at hun af, eg hieck wthaneñ a Krossens Trie, Edik og Gall þar smackade.

Sem Adam spilltur allur var, um̃ allt mitt Lijf voru Under og Saar, allar Synder sem Adam braut, a mijnu Hollde eg borga hlaut.

Bæt þig Madur og ydrast nu, iñflij til mijn med hreinnre Trw, so verder þu kvittur Synder vid, Saal þijn og eilijfañ fær þa Frid.

## I Stadeñ Litaniu maa og brwka þeñañ Saung, einkum a llt Kyrkium þar lijtell Sofnudur er, hvar lijka maa sijngiast Choralijter, af tveimur Ungmeñum i Kordyrum edur fyrer Altaris Gradu.




Tak fra oss sæte Herra Synder vorar og Misgiørder, so ad vier mættum



med riettre Trw, og hreinu Hiarta, fyrer þitt Auglite koma

Tvø Ungmeñe.



Lyknsamur, Lyknsamur, Lyknsamur, siertu goode HErra þijnu Foolke, sem þu med



þijnu dijrmæta Bloode leyster O Christe, og vert oss ecke Æfeñlega Reidur.

Øñur Tvø Ungmeñe



Bænheyr oss, Bænheyr oss, Bænheyr oss, O HErra Gud vor Fader
Bænheyr oss, Bænheyr oss, Bænheyr oss, Heyr vora Bæn O Christe
Bænheyr oss, Bænheyr oss, Bænheyr oss, Heyr vora Bæn O Helge

Myskun-



Koreñ svarar.



Myskunsamaste, Hiælpa oss, og vert oss Lijknsamur.
Heimsins Frelsare. Bid fyrer oss, þiñ kiæra Fødur.
Ande Huggare. Upplijs oss, og vert oss Lijknsamur.

Presturen og Koreñ til samans, af Ezechiel. 33. Cap.



So sañarlega sem eg life (seiger Drotteñ) vil eg ecke Syndugs Mañs



Dauda, helldur ad hañ snwe sier, og Eilijflega life med mier.

Hier epter Sijngur Presturen Versen med Bænunum og Blessaneñe, sem fyrr er sagt. Epter Blessan, Myskuna oss O HErra Gud, edur, Gief þiñe Christne goodañ Frid. Eñ uñ Langa-Fostu, þa tvo tilgiørdu Exitus, til Skiptis, ut supra.



Packargiørd fyrer lideñ Vetur, og Bænar Foorn uppa komande Sumar.

O HErra



O HErra Gud eg þacka þier, þu hefur hlijft og stioornad mier, a nu Haaska og Slijsum varnad vid, veitt Blessan og þitt Eingla Lid, mier og



um̄lidnum Vetre, DRotteñ, DRotteñ, Eg kañ eige wt ad seigia mijnu Adsetre.



Astar Anda, Myskunar þiñar mier til Handa.

Samt hef eg syndgad miked misg, moote þier Haatign Guddoomleg, miñ Gud minstu þess eige, Laat yfergnæfa Giæskn þijn, giørdu eñ framar vel til m:n, hvad eg efa alldreige. DRotteñ, DRotteñ, mijn hefur giætt, og Meineñ bætt, þijn Myskun rijka, um̄ mier hun filge a epter lijka.

Missered er nu um̄lided, eñ hid Naalæga tekur vid, þvi bid eg HErra hijre, ad mig leide þijn Hiaalpar Hønd, hættulaust yfer Mein og Grønd, og Athøfn allre stijre. DRotteñ, DRotteñ, Ande þiñ, ad Aundu miñe alltijd giæte, eñ Lijkameñ Eingla Lidsemd mæte.

Iñgaang bæde og Utgaang miñ, Aform og Hegdan sierhvørt Siñ, Blessa þu Gud miñ goode, mier og miñe so stioorna Stiett, ad stunde eg hana vel og riett, i þiñar Forsiaar Floode. DRotteñ, DRo-tteñ,

tteñ; leid þu mig, um̃ Lucku-Stig, fra Lasta Voda, virdstu mig alltijd i ollu stoda.

Allt hvad eg giøre og giøra læt, Gud miñ Blessadur ad þvi giæt, so farnest farsællega, Reisur mijnar og Rauda-hag, Rædu og Tilstand Nott og Dag, aññast þu alla vega. DRotteñ, DRotteñ, lát ei granda, Illañ Anda, Arfleifd þiñe. Sijndu mier Myskun og Saalu miñe.

Leid þu mig Gud þañ vissa Veg, sem vijsa Ord þijn Guddoomleg, um̃ alla Æfe mijna. Geim mijn i sañre Gudrækne, Gief þu eg so iñlæstur sie, i eilijfa Elsku þijna. DRotteñ, DRotteñ, Leifdu mier, ad lifa hia þier, og lijka deya, og eilijfa Lofgiørd um̃ Allder seigia, Amen.

## Packargiord fyrer lided Sumar, og Bænar Foorn uppa komande Vetur, med sama Lag.

O Gud Heilagur Heilagur, Heilagur Gud og DRotteñ vor, Blessadur um̃ Allder Allda. Pier offra eg nu Packlæte, þier offra eg nu Bæneñe, þier vil eg gott Lof giallda. Gud miñ, Gud miñ, skyllt er mier, ad þacka þier, og þig ad prijsa. Upp upp mijn Harpa og Audleg Vijsa.

Lof sie þier Astar Elskañ mijn, Eilijfe Gud, fyrer Myskun þijn, og veitta Velgiørd alla, sem nu um̃lidna Sumar-Tijd, sijnt hefur þu mier, Heilleñ blijd, og lietst mier allt vel falla. Gud miñ, Gud miñ, mig hefur leidt, og Meinum eydt, þijn Milldeñ rijka, Bevarad mig og blessad lijka.

Pu upplaukst þijnum Astar Bruñ, oped setter Naudar Afgruñ, miñ DRotteñ mier til Handa, þadañ kom mier oll Porfeñ mijn, þvi prijsa eg nu Giæsku þijn, og vil þier Vegsemd vanda. Gud miñ, Gud miñ, Allt hvad er i Aunum mier, þier einum uñe: Lof þitt sie jafnañ i mijnum Muñe.

Eñ hvad eg hefe opt og þraatt, areitad þig a margañ Haatt, med Syndum, Haatign hijra, hygg þu ei ad þvi Herra kiær, hylia laattu og afmaa þær, Rauda Blood DRotteñs dijra. Gud miñ, Gud miñ, Vid eg eñ, mig berer seũ, a Brioostum þijnum, hafande Gaat a Høgum mijnum.

Allañ mig DRotteñ Offra eg þier, a nu komande Vetre hier, og alla Æfe mijna, Geym mijn vid Verkum glæpugum, geym mijn vid ollum Ofiørum, geym mijn fyrer Giæsku þijna. Gud miñ, Gud miñ, hvar eg er, og hvørt eg fer, og hvad eg giøre, skil alldrei vid mig Hyrder hijre.

Allt þad sem ecke þocknast þier, þad virdstu taka i burt fra mier, Vilia þijns vel so giæte, Eñ þad sem þier er þægelegt, og þienar til þiñar Dijrdar frekt, Gief mier þad Gud miñ sæte. Gud miñ, Gud miñ, Oll mijn Verk og Vegnan sterk, sem Maal og Miñe, Farsælest i þier wte og iñe.

O HErra

O HErra tak þad allt fra mier, Er mier kañ snwa burt fra þier, so ockur eingeñ skilie, O DRotteñ gief mier aptur þad, er mier kañ þier ad snwa ad, er þad mijn Osk og Vilie. Gud miñ, Gud miñ, tak mig mier, og mig gief þier, miñ HErra hijre: eilijft Lof sie þier DEotteñ dijre, Amen.

## Bænar Offur, og Packlætis Offur uppa Missera skipte. Bænar Offur i Iñgaungu Sumars, Ton, A eirn Gud vil eg trwa.

NU skal eñ i Guds Trauste, Iñgaanga nyañ Arsins Hrijng, Lijfsins Hertogeñ hrauste, hafdu Gæt a oss allt um kriing. Ferska Blessan, Ferskt Sumar, færa lattu oss nu, Satans Arcaser aumar, allar forhindra þu, lat nija Naadar-Straumma, nijkomna friosga Tijd, Virdst oss vernda og geyma, Vesælañ Islands Lijd.

Upphef þu Augun bæde, yfer þijn eigeñ Handa-Verk, giefdu oss Føt og Fæde, framleide oss þijn Hønden sterk, lat vel i voru Lande, Vijngard þiñ Bloomgast hier, sañre Christne safnande, sialfum til Dijrdar þier, klæd oss Kyrtle Riettlætis, Krijn Ared Frioossemе, Utfossande Agiætis, yfer oss Naad þijn sie.

Gylline Frideñ gooda, giefdu oss eñ i Lande hier, af Jordu Gras og Grooda, Gagn Sioafarens og Heilsn Kior, Blessan og Audlegd alla, Andar og Lijkamans, oss lattu eñ til falla, Abmum þessa Lands, sijdañ i Naadum nioota, Næringar Lijfs og Ands, þa skal ei Pocken þrioota, Paagu vors Daglegs Brauds.

Kongsins Tign stødug stande, stid þu DRotteñ hans Rijkis Raad, Frids og Frioosgunar Ande, Forsorge þetta Jsalaad, Kyrkiu-Valld Christeñdomiñ, Kieñing, Trw, Lijf og Fior, lifande Lijfsins Lioomeñ, lat þad stioornast i þier, Jñgaang og Utgaang Maña, oll Verk og Ferdalag, Bw og Byader Mañaña, Blessa þu Nott og Dag.

Alla Lands Yfer-HErra, Jñlæstu þiñe stioornar Hønd, Eign og Embætte þeirra, og allar Saaler um Christeñ Lønd. Eyland þetta um-mwre, Almaattug Hønd þijn sterk, oss so hier eingeñ giøre, Ahlaup nie Skiemdar Verk, lat þitt Velldis-Bod vera, vorn Skiolld a alla Hlid, þa mun alls eingeñ þora, oss spretta Fiingre vid.

J Stioorn og Umsioa vorre, Ytre og Jñre Fridur sie, Ytre i Høndlun hvørre, hiñ i Samvitsku Roosеme, eñ sa Eilijfe Fridur, oss giefest Himnum a, Jñlæster i hañs Ydur, aller verdum vier þa, Heill vor, Vernd, Lijf og Veria, vertu i Lande hier, so skal Sumared byria, sañur DRotteñ i þier, Amen.

Pack-

# Packlætis Offur, i Utgaungu Sumars, med sama Lag.

LOf sie þier DRotteñ dijre, Daga og Allda Stioorneñ Trw, Hꜳsumar Tijmeñ hijre, hañ er kliꜳdur a Enda nu, O hvad mørg Edla Giæde, oss veitte Nꜳdeñ þijn, einkum þad andlegt Sæde, Orded þitt sem hreint skijn, klꜳr Trw med Kyrd og Fride, Christeñdooms Medøl øll, Uñsioon af Eingla Lide, eñ eingeñ stoor Slisa-Føll.

Med miøg margfølldum Giædum, Myskun þijn Krynde Sumarid, Feitleike af Himna Hædum, hefur Jørdena ꜳdroped, Land og Sioor Gagn og Grooda, giefed hefur oss nu, Ahlaupe illra Þiooda, oss hefur fordad þu, Yfer og Under Stietter, Asꜳ þijn millda Hand, i þijna Uñsioon setter, Almeñelegt Tilstand.

Þier giørum Packer færa, þijde Fader af Hug og Trw, Lof þitt efleſt og Æra, vid allt þad sem oss veitter þu, Eñ hvad a hvørium Deige, høfum styggt Vellde þitt, miñ Gud miñstu þess eige, Misverkeñ øll gief kvitt, lꜳt oss ei Glæpa giallda, Giæsku streymande Foss, helldur virdstu frañhallda, Hiꜳlp og Nꜳd samt vid oss.

Lof sie þier Fadereñ frijde, fyrer þiñ Son sem doo a Kross, Blessande Land og Lijde, Læsing Atviñu upplaukst oss, fyrer Lijf og Lucku alla, Lꜳn, Heilsu, Vernd og Fie, er þu lierst oss til falla, Æsenleg Dijrd þier sie. So skal Sumarid enda, Syn oss þig Nꜳdugañ, og virdst oss Vetureñ senda, Vægañ og Farsælañ, Amen.

# Bænar Offur i Iñgaungu Vetrar, med sama Lag.

KOmeñ er kalldur Vetur, komdu til med oss DRotteñ miñ, Lijf vort Eign og Adsetur, Añastu Maña Skapariñ, Ofride, Illum Dauda, Olucku Lopt-Flugum, Ovina illum Voda, Jüra Mañs Sturlunum, Hwngre, Strijde, Hallære, Hardindum Dyrre Tijd, forda oss Fadereñ kiære, fylge oss Stioorn þijn blijd.

Giefdu oss goodañ Vetur, giefdu oss Hagslæd Vedrasøll, giefdu oss gott Adsetur, giefdu oss Parsa Medøl øll, añastu Eckiur allar, añastu Føburlaussañ, añast þa ꜳ þig kalla, añastu Vanfærañ, uñ oss þitt Ord ad læra, uñ oss ad fordast Last, uñ oss i þier ad vera, uñ oss ad Leidriettast.

Blessa þu Bygder Maña, Blessud Velfelle lꜳt oss sꜳ, Blessada Brauded saña, Blessun Guds Orda uñ oss nꜳ, Blessa vor Brioost og Siñe, Blessa vor Verk og Mꜳl, Blessa vor Bæia Kyñe, Blessa þu Lijf og Sꜳl, Blessa þiñ Barna Skara,

Blessadu Meñ og Hws, Blessa oss og bevara, Blessade Gud JEsus.

Hersveit af Tignar Troone, Trwlega laattu giæta vor, sem oss ad øllu þioone, so alldrei gaungum nein Slisa Spor, Jñre og Ytre Fridur, Eining i hvørre Stiett, halldest oss eirneñ vidur, og allskonar Høndlan riett, geym oss vid Glæpa Føllum, Grande Faare og Neyd, sijdañ wr Eymdum øllum, i eilijft Sumar Jñleid.

# Packlætis Offur i Utgaungu Vetrar, med sama Lag.

VEtur er eñ a Enda, eilijft Lof sie þier Fader kiær, þu lietst oss Luclu henda, og lagder þad til, sem þurstum vær, þu hefur allt vort Efne, añast vid Faare og Naud, verndad i Vøku og Svefne, veitande Daglegt Braud, varnad Voda og Føllum, Vedrum og Hwngurs Pijn, afstijrt Stoor Slisum øllum, og stodad vel Børneñ þijn.

Eingeñ kañ yfervega, alla Blessan sem veitter þu, Andlega og Stundlega, a þessum lidna Vetre nu, Lijf, Heilsa, Heill og Hagur, Hræring, Andleg good Kiør, Framñraas og Fridar Dagur, Farsællt oss i þier, þu geymder oss vid Grande, gafst oss þitt Eingla Lid, yfer oss varst vakande, og verndader alla Hlid.

Packlætis Offrid þijda, Þygdu nu af oss aptur a moot, fyrer Ast og Astaa blijda, øll Velserle og Naadar Hoot, einkum fyrer Son þiñ sæta, sendañ til Lausnar oss, þu lietst hañ borga og bæta, Broteñ vor øll a Kross, i hønum allt hid Gooda, oss veitter DRottenn þu, þier giørum Packer biooda, þad er vort Offur nu.

Hvør kañ ad tiaa og tijna, Tegunder þiñar Velgiørdar, eda med Ordum sijna, alla Gnoott þiñar Myskunar? Auga þitt ad oss gaade, Eyra þitt heyrde oss, Hondeñ þijn hiaalpa naade, Hiartad gaf Astar Koss, O þu vor Hiaalpar Hella, Hyrder og Geymare, hier og um Eilijfd alla, æfenlegt Lof þier sie, Amen.

## Apeini almeñelega Føstu og Bæna Deige, sem epter Kongl. Majest. Havloslegu Skickun, halldast a Arlega þañ Fioorda Føstudag epter Paaska.

## Messu Upphaf, Konung David sem kiende, edur þesse Psalmur.

Avi,



Avi, Avi, mig auman̄ Man̄, Þan̄ hædsta Gud i Himna Ran̄, hættlega
Ad eg ei, þar vid Nei, seigia kan̄.



mög eg stigde han̄, mijn hroopleg Synd mier hratt i Ban̄, mier hratt i Ban̄.

O Gud min̄, Gud min̄, mig angrar þad, ad eg þijn Bod, og blessud Naad, beint yfertrad, Heimsins Vilia hylltest ad, hvad er forþient nema Vijtis Bad? Eilijfur DRotten̄ aumka þu þad, aumka þu þad.

Gief Naad, gief til Naad, Grædare min̄, so giete sig bætt, og braatt vid riett, Prællen̄ þin̄. Hell þu mier i Hiartad in̄, heilogum Anda i hvørt eitt Sin̄. Dyrdlegur heyr mig DRotten̄ min̄, DRotten̄ min̄.

Eja, Eja, eg þar mig gled, af þvi nu, ad min Trw, hun fær sied, fyrer Saal mijna er sett i Ved, Sonarens Pijna og Daude med, riettlega ber eg þvi Roosamt Gied, Roosamt Gied.

Eg fin̄, Eg fin̄ i Heime hier, Huggun þa, sem høndla maa, ei neirn af mier, Lijknar Brun̄ur og Lijfsins Kier, leyst hefur mig til Handa sier, Þijde JEsu, þad þacka eg þier, þad þacka eg þier.

Lausnare min̄, Lausnare min̄, þu leidst a Trie, langa Neyd, og saaran̄ Deyd fyrer Synda Ve. Lof þitt alldrei ligge i Hlie, laate þad hvør Twnga i Tie, um̄ allar Allder Æ svo sie, Æ svo sie.

## Þar næst Kyrie-eleison, Christe-eleison, Kyrie-eleison.

Sijdan̄ snijr Presturen̄ sier fram̄, seigiande: DRotten̄ sie med ydur, etc. Collectan̄ epter Gudspialla Bookeñe, O! Naaduge Gud, Myskunsame kiære Fader, etc. Pistillen̄ Esajæ 55. Leited DRottens medan̄ han̄ er ad fin̄a, etc. A mille Pistels og Gudspialls þeñan̄ Psalm.



Fader vor sem a Himnum ert, oss hefur øllum boded hert, Brædrum ad vera



og bidia þig, Bæn vor þvi er þier þægelig. Hiaalp, so bidium af Hiartans



Root, Hiuglaust ei tale Tungañ fliot.

Helgest þitt Nafn O HErra kiær, hrein Ord þijn gief ad høfum vær, og heilaglega lifum hier, lijka sem þijnu Nafne ber, vid Fals-Kieñingu oss vernda þu, vieludu Foolke aptur snw.

Til vor kome nu Rijke þitt, og halldest sijdañ æfeñligt, sa helge Ande sie oss hiaa, sijnar Gaafur laate oss faa, brioot Diøfulls Valld og Heipt i Heim, hlijf þiñe Christne fyrer þeim.

Verde a Iørdu Vilie þiñ, eins sem a Himne hvørt eitt Siñ, Hiaalp oss i Neyd ad hafa Þol, Hlijdnum ad vera i Sælld og Kvøl, Hollds og Bloods Gyrnder hept og brioot, hvør þijnum Vilia giøra a moot.

Gief oss i Dag vort Daglegt Brand, DRotteñ bæt alla Lijfsins Nauд, Hlijf oss ætijd vid Ofride, Upphlaupum, Soott og Hallære, so ad vier høfum vænañ Frid, Vijl og Agyrne skiliunst vid.

Forlaat oss vora Søk og Synd, so hun ei hrygge vora Lund, sem giarnañ þeim tilgiefum vier, giørdu oss moot og stygdu hier, laat oss vid alla lwfa siaast,

lifa

lifa i Samlynde og Ast.

Ei leid þu oss i Freistne iñ, þa oss asæker Ovinureñ, a Vinstre og a Hægre Hlid, hañs Svik ad standast veit oss Lid, med Heilags Anda Hiaastod mest, og hreinne Trw viddwner best.

Fra ollu Illu oss frelsa þu, Faarleger Tijmar eru nu, leys þu oss fra eilijfum Deyd, og hugga oss i sijdustu Neyd, gief oss þa hæga Hvijldar Stund, Hond þijn take vid vorre Aund.

Amen, so verde, wtþijdest, ætijd styrk oss i Trwñe mest, so ad alldrege efum vier, uñ hvad nu høfum beded hier. Uppa þitt Nafn og Ordeñ trw, aller seigium vier Amen nu.

Par epter sie pronuncerad Gudspialled, Matth. 3. Capitula, SVO GJORED NU VERDUGA AVOXTU YDRANENE, etc. Sijdañ, Nu bidium vier Heilagañ Anda. Ad þvi endudu geingur Presturen i Predikunarstooleñ, og wtleggur Pistileñ, og strax þar epter les hañ af Predikunarstoolnum þa Bæn, sem til er giørd, ad hvørre endadre, syngest Litaniañ oll. Par epter Pronuncerar Presturen standande a Knianum, fyrer Altarenu, Verseñ, Vier høfum Syndgast med vorum Forfedrum, etc. Med Veniulegum Bænum og Collectum.

Sijdañ sie syngeñ þesse Psalmur.



A þig alleina JEsu Christ, er mijn Von hier i Heime. Fra
Hlijfd þijn giører mig hoolpeñ vtijst, Hiaastod añare eg gleyme. og



Ondverdu var eingeñ sa, Sem kvittad fære mig Kvolum fra. Kalla eg þig
alldrei helldur fædast ma,



a



aa, Hiaalp þiñe laat mig HErra naa.

Mijn Synd er þwng, og þo miøg mørg, þreinger þad Hiarta mijnu, frelsa mig vid þad Faar og Sorg, fyrer þiñ Dauda og Pijnu. Vid siaalfañ Fødur mig saattañ giør, sem fyrer mig ei þyrmde þier, vid Synda Klif þvi kvittur er, Christe hallt nu hier, lijkt sem þu virdtest losa mier.

Gief þu mier JEsu Grædare miñ, glovande Trw og hreina, so ad eg Naad og Sætleik þiñ, sañlega mætte reyna, øllu framar ad elska þig, og Naungañ sem siaalfañ mig, ad Framfør mijn sie Fridsamlig, forda mier Heliar Stig, laat Diøfla Gyrnd ei gledia sig.

Heidur sie Gude a Himna Troon, hædstum Fødur alls Gooda, og JEsu Christ hañs sæta Son, sem leyste oss fra Voda, Helgum Anda med sama Sid, sem ætijd veiter Christnum Lid, ad Ast og Trw oss auke vid, i þessa Heims Tijd, sijdar eilijfañ eignunst Frid.

Hier epter snijr Presturen sier fram og blessar yfrer Søfnuden, med Veniulegre Blessan.

Epter Blessan maa siingia, þeñañ Psalm.



O vier Syndum setner, med saarlegt Glæpa Strijd, þar inne vier erum



gietner, og fædder hvøria Tijd, leidde yfer oss alla, þa Eymd og stooru Neyd,



ad vier fyrdum falla, i þañ eilijfa Deyd. Kyrieeleison, Christeeleison, Kyrieeleison.

Ur þeim Daudans Drooma, dugdu eingeñ Verk, oss aptur burt ad koma, nũ Of var Syndeñ sterk, eñ þad vier leyster yrdum, og er þad Trwañ mijn, Guds Son hlaut þa hørdu, Heliar lijda Pijn. Kyrie-eleison, Christe-elison, Kyrie-eleison.

Ef komeñ ei Christur være, kiærstur i þeñañ Heim, og ecke a sier bære, Eymd i Mañdoom þeim, nie vegna vorra Synda, vilingur Lijfed mist, vier hefdum vered aan Enda, æ fordæmder vijst. Kyrie-eleison, Christe-eleison, Kyrie-eleison.

Soddañ mestu Millde, og miwka Fødurs Naad, sem utañ alla Skylldu, oss hefur Gud tiaad, i Christo Syne sijnum, er sig liet negla a Kross, til hardrar Heliar Pijnu, eñ Hiaalpar øllum oss. Kyrie-eleison, Christe-eleison, Kyrie-eleison.

Þad skal oss Hughreysta, moot hvørre Synd og Deyd, og Ottast aungvañ Neista, af illre Vijtis Neyd, þvi Skøm̃ og øllum Skada, skilder erum nu fra, fyrer Blood JEsu blessada, vors Broodurs Himnum a. Kyrie-eleison, Christe-eleison, Kyrie-eleison.

Þar fyrer þraatt skulu losa, og þacka aller Meñ, Fødur og Syne a ofañ, og Anda helgum señ, og bidia hañ vilie oss vijkia, Vielum Djøfuls fra, so hañ meige oss ei svijkia, Guds sæta Orde fra. Kyrie-eleison, Christe-eleison, Kyrie-eleison.

**Þar sem hallde ñ er Aptan-Saungur edur Kvølld-Predikun, a þessum Deige, skal fyrst syngia þeñañ Psalm.**



Tak af oss Fader, ofþwnga Reide, og Hyrting harda, hægre laat verda, so ad

 Hefnd.



Hefndar Efnum, ei mætum svo jøfnum, sem Sekt til søfnum.

Ef Ressijng rietta, raung Verk vor hitta, hvør stendst so strijda, Strøffunar Kvøl ad lijda? Hefndar Hrijsed reida, hradt kyñe eyda, Bygd Heimsins Breida.

Siaa þvi Vægd vorum, Vondsku Hættum stoorum, og læt Riette lijka, Lijkn þijna fylgia rijka, samt maa sæt blijfa; Sekt Heims ad hlijfa, Art þijn eilijfa.

Heimsins heills Smidur, hvi ert þu so reidur, Ormum Ohreinum? Efne vort vier greinum, Kveik spillt, Moor Molldar, og Myrkur Veralldar, Fet-Torfa Folldar.

Fedra Sekt forna, fleckar oss borna, veikañ vorn Huga, Viel Hollds vors þræbuga, Mañs Neyd so siwkre, Sioon þijn ad hiwkre, med Myskun miwkre.

Læt Christs Korvnu, Kross, Nagla og Pijnur, Bønd, beiskañ Dauda, og Blooded hañs hid rauda, midt mille standa, Mergdar vorra Synda, og Handar Hegnanda.

Gøfugt Guds Smijde, Gløtun ei nijde; Lausnar Pijsl lioosa, læt ei vera, Gagnlausa. Dijrst Vatn og Dreyre, DRottens Brioosts hier vere, Lausn Synda Saure.

Heill þa helgasta, halldast lætt u fasta, oss Christnum øllum, a þig nu af þvi køllum; Eirn Gud og þreñe, i Hætigneñe, Heims HErra sañe, Amen!

Hier epter skal sijngia þeñañ Psalm, med Lag, Nu bidium vier H. Anda.

HEilagañ Anda akøllum nu, og bidium hañ hellst um rietta Trw, ad vernde oss og geyme, um Æfe vora, og vr aumum Heime, i Fride læte fara, Kyrie-eleison.

Þu Helgasta Lioos, Upplioona oss hier, ad alleina JEsum þeckium vier, hia þeim Lausnara vorum, læt oss blijfa, sem fylger oss, ad førum, i Fødurland eilijfa, Kyrie-eleison.

Þu sæta Ast, send oss þijna Naad, so uppkveikest i oss Kiærleiks Daad, ad af Hiarta hreinu, hvør ødrum uñe, i Samlynde einu, og Frid blijfa kuñe, Kyrie-eleison.

Þu Hædsta Huggun i allre Neyd, Hiaalp oss so ei hrædunst Smaan nie Deyd, og Trw alldrei breste, i vorum Huga, nær Ovinur veste, vill oss yferbuga, Kyrie-eleison.

Sijd-

Sijdañ geingur Presturen̄ i Stoolen̄, og predikar wt af tilsettu Evangelio, Matth. 3. Epter Predikun lesest Bænen̄, eins og i Hæmessuñe. Sijdañ sie sungen̄ sw stutta Litania, Tak af oss sæte HErra, etc. Med Veniulegum Versum og Collectum, hvar uppa fylger Blessunen̄, og sijdañ Exitus, Mysk-una oss o HErra Gud, ut supra. Edur þesse eptersylgiande Psalmur.



Á Gud alleina, eg hefe sett mitt Traust. Ønd, Lijf mitt, Æru, og
Hañs Orded hreina, mier hialpar Efalaust. Allt hvad æhrærer, þad



Aform eg þier fel. Gief og giøre færa, þier Gud Immanuel.
unter þu mier vel.

Hvad Satans snaru, Svik hafa rænt fra mier, i JEsu kvaara, Undunum lagfært er, vijst vil þvi giefa, i Valld þitt JEsu mig, þu ert æn Efa, mijn Ast Orafkañlig, medañ maa eg lifa, mier une eg vid þig.

Þier laat mig þioona, þu miñ HErra og Gud, Trw Hiartans hreina, hafande um̃ þijn Bod, nær Heimur hatar, hrekur og stuggar vid, og Eymd eg rata, mier auktu Polgiæded, fra Glaum heim er glatar, þu greid miñ Veg, eg bid.

Þu mig Hughreister, i hvørskius Sorg og Neyd, sem so dijrt leyster, med saarre Pijnn og Deyd, ad audnast meige, mier i þier Huggun best, og miñast eige, mitt Angur Sorg nie Brest, þa sætt Lof seige, og sijng med Eingla Raust.

O JEsu froome, mijn einka Roosemd, veit, ad eg ei kome, i Ovinaña Reit, leys mig fra Mædu, og med þier leid þu heim, send Hiaalp af Hædum, þa

hied.

þiedañ fer og geym, og gled med Giædum, i Guds Jerusalem.

Þar þa ad blijfa, hia þier med Vegsemd hær, og Dijrd eilijfa, med Einglum DRottens sæ. Lææt mig og læra, ad lifa i Eymdar Dal, so heppneft ad heyra, þitt hijrlegt Altar Tal, kom Barn mitt kiæra, i Kongsins Brwdkaups Sal.

Eirn Bæna Loffsaungur i allskins Neyd og Offooknum Christneñar, og einkanlega i moote Tyrkianum, hvørn Ungdoomureñ ætte lijka ad læra og idka, so ecke falle wr Miñe, þad Raan sem skiede hier i Lande, af Tyrkians Ahlaupum, Año 1627. Mææ sijngia stundum pro Exitu a Bænadøgum, epter þvi sem Tijdeñe hagar.



Eilijfe Gud vort einka Raad, eirn Fader og vor HErra. Lijknsamur øll Christneñ bidur um þijna Naad, æsiaadu Hørmung vora.



til vor lijter þu, Løstu vora so þeckium nu, og kyñum Ydran giøra.

Syndgast høfum þier miøg a moot, margvijslega um Æfe, med Drambe, Hatre, Heipt og Blvot, Heims Gyrndum og Saurlijfe, Fie-drææt, Agyrne, Fals og Ploog, framed høfum med Lygd og Roog, ei finst sa aumum hlijfe.

Helgust Ord þijn vier høfum smææd, høfnudum þang ad geyma, Afiverka þiña ecke gææd, yfer oss vard þvi koma, Vøndur þiñ stoor og Hyrting

hørd, hvar med þu straffar þijna Hiørd, a þessum Efsta Tijma.

Myklar Sootter i mørgum Stad, Mañ-Fiølda stooran Deyda, Dijr-Tijd geingur og Aureygd ad, aumlega Foolked neyda, Tyrkians Ofrijke ækram fer, æsæker opt med grimum Her, og kieppist Christne ad eyda.

Eingeñ Madur þad þeinkia maa, þiñ Vønd ræaglega hlijotum, forskulldad hefur Hyrting þa, hver vor med Syndum lijotum, sw Ressing þijn af riettum Doom, Ræanglæte voru makleg kom, þvi Vod þijn jafnañ vier brutum.

Af þvi vor Fader eirn ert þu, ei vilium fra þier falla, helldur Esþanst af Hug og Trw, Hiæstod þijna ækalla, flya til þijn med fullre Von, forsmaa þu alldrei vora Boon, þu verndar þijna alla.

Sæte HErra þijn Glæska good, gleyme ei Christne siñe, vernda oss þijna veiku Piood, vor Synd sie þier i Miñe, ei duga Vopn vor, Afl nie Strijd, ef þu veiter oss ecke Lid, so Tyrkiañ sigra kyñe.

Þu hefur frelsad Fordum Tijd, Foolk Jsrael wr Voda, þa Oviner uppvøku Strijd, ætludu þad ad deyda, Josua, David, Ezechia, og fleyrum veitter Lidsemd þa, sem Ritnim vottar vijda.

Eñ þa Lijdur þiñ ysde þig, med allskins Syndum sijnum, heidrudu Skwrgod Heideñlig, hafnade Lærdoom þijnum, þa braust Her-Foolk a þeirra Lønd, þyrmde aungvu med grimre Hønd, sloo þad med allskins Pijnum.

Ef þeir sneruft aptur til þijn, þa Anaud þoldu mesta, og gyrutust Hiaalp af Hiarta sijn, Hiæstod lietst þa ei bresta, þu leyster þa af þwngre Kvøl, þeirra Ovine sloost i Hel, Foolk þitt sieck Huggun besta.

Kiære Fader þig køllum a, Kvøl hørmuleg oss græter, Hiaalpa og eingeñ añar maa, utañ þu HErra sæte, fyrergief þu oss alla Synd, Ovina Vallde fra oss þrind, Neyd vora Naad þijn bæte.

O Gud vor Fader eilijfe, a vorar Bæner heyre, kome til Hiaalpar Christneñe, kvitta af Offooknum giøre, Fyrer JEsum Christ hañs sæta Son, sem oss forþiente Nadar Von, Hlijfd og Hiæstod oss vere.

O JEsu Guds Son Eingieteñ, ei gleym oss Christnum þijnum, fyrer Heatign og Heidur þiñ, Helgañ Mañdoom og Pijnu, fyrer þitt Blood og dijrañ Deyd, OMotteñ leys oss af allre Neyd, og fra grimum Ovinum.

Heilage Ande HErra Gud, af Hiarta a þig køllum, wr hættum Kvølum, Hrygd og Neyd, Hiaalpa oss Christnum øllum, Ovine vora yfervinn, uppliis og blessa Lijdeñ þiñ, so alldrei fra þier føllum.

O Preñing heiløg, HErra eirn, hugga nu Christendoomeñ, Gud Fader Son og Ande hreirn, ei laat oss hrædast Heimeñ, þa vier skilium vid þetta Lijf, þijn Naad og Mysskun sie vor Hlijf, nu Allder Allda, Amen.

# III. Nockrer Hymnar/ Psalmar og Loþsaungvar/

## A þeim sierlegustu Hátijdum, lijka a Kvølld og Morgna, Utañ Kyrkiu sem Jñañ.

## Um̃ Joola Tijmañ.



Nu kom Heideña Hiálpar Raad, helgasta þetta Meyar Sáád, undarlegt yirdtest



øllum Heim, ad Gud villde so fædast þeim.

Ei af Hollde nie Bloode Mañs, helldur Guds Krapte og Anda hañs, Ord Guds eirn Madur ordeñ er, Avøxtur Lijfsins bloomgast hier.

Lijf eirnrar Jomfrwr Oliett var, Okreinkt ad Meydoom Þwngañ bar, af Dygdum lioomar eins og Sool, og var Gud þa i sijnum Stool.

So gieck hañ fram̃ um̃ Svefn-Hws sitt, sem var Konglegum Sooma prijd, sialfur Gud og eirn sañur Mañ, sijna Leid fws ad ferdast hañ.

Af Fødurnum wtgeingeñ er, aptur til Fødurs hied añ fer, allt til Helvijtoofañ stie, upp þadañ a Guds Háásæte.

Fødurnum jafn ad øllu er, a sier Hollds Sigurmerke ber, leggiande a sitt eiged Valld, Eymder vor-

ar

ar og veika Holld.

Lioomar nu Jøta Lausnarans, Lioos nijtt giefur oss Nootteñ hañs, eckert Myrknr þad kefia kañ, Christeñ Trw bijr vid Lioomañ þañ.

Hædstum Gude sie Heidur og Dijrd, hañs Syne Lof og Packargiørd, Heiløgum Anda sie æ og nu, um̄ Allder Allda Virding su, Amen.

## Añar Psalmur um̄ Holldgan og hijngadkomu HErrans Christi, med sama Lag.

AF Adam er um̄ allañ Tijd, a voru Hollde Bølvan strijd, til Dauda Sæl og Ande er saar, Saklaust eckert a Mañe var.

Oss hafde fæangad ogna Neyd, yfer oss rijkte Synd og Deyd, i Fordæmingu fiellum vier, fañst eingeñ Boot hiaa nockrum hier.

Pa leit Gud yfer allt Kyn Mañs, ef nockur giørde Vilia hañs, hañ villde eirn sier hollañ fæa, Holldlega Meñ alleina sæa.

Pvi Lijf og sañlegt Sakleyse, Sæmd og Uppruna Rietklæte, J Adam høfdum aller mist, af hvørium komner voru vijst.

Pa hañ so leida Løstu sañ, Lækning aungva nie Hiaalpar-Mañ, A sijna stooru Elsku leit, ad øll hañs hielldest Fyrerheit.

Mællte, Eg vil Myskuna þeim, miñ Son wtgiefa fyrer Heim, ad Heill þeirra og Hiaalpræde, Huggun og Sæalar Lækning sie.

Abraham og Affkvæme hañs, og David soor þañ Eyd til Sañs, þañ Soneñ hiet ad senda heim, sem leyste allañ Lijd um̄ Heim.

Spaamøñum var su Vitran giørd, vijda wtbreidd ust þeirra Ord, Fiølda Konga og froomañ Lijd, fijste þar epter laanga Tijd.

Lijkamlega sem lyste þa, lijka þo hañ ei mætte siaa, þa Trw høfdu þo i Hiarta traust, hañ munde frelsa þa Efalaust.

Sem komed var þeim Alldre ad, af hvøriuu Jacob hafde spaad, Davids Ættmañe einum þa, er Trwlofud Mey Maria.

Af heñar Meydooms hreinu Bloode, Himneska Guds Krafturen goode, skoop Barn Helgasta Heime i, Hiaalp, Raad og Myskun er hiaa þvi.

O JEsu Lijfs Avøxtur hreirn, aan Synda ert þu gieteñ eirn, veit þu oss Blessan, Heill og Hlijf, Himneska Dijrd og Eilijft Lijf, Amen.



Skapareñ Stiarna HErra hreirn, hvor Trwudum ad lijser eirn, Christe sem



allañ leyster Lijd, Lijknsamur vorum Bænum hlijd.

Mædde þiñ Hug su mesta Neyd, ad Mañkyn fiell i eilijfañ Deyd, vesæla leyster Verølld þa, Vægd og Lækning lietst auma faa.

Pa Kvølde Heims var komed nær, kom af Salnum Brwdgume skiær, af Jomfrwr Lijfe sa HErra haar, helgust Mooder var Meyañ klaar.

Hañs dijrstu Vallde hneigia sig, Hnie allrar Skiepnu audmiwklig, a Himne, Jørdu og Helvijte, hañs Vilia øllum hlijdeñ sie.

Allt hefur hañ med Orde skapt, Edle giefur þvi, Lijf og Krapt, epter sijns Vilia Setninge, so hañ af øllum þecktur sie.

Helgaste JEsu heyr oss nu, Heimeñ ad dæma kiemur þu, Vardveittu oss a allre Tijd, Illgiarna Disfuls Vielum vid.

Gude Fødur og Syne sie, søñ Dijrd Heidur ad eilijfu, og heiløgum Anda sem huggar traust, hvad um Allder sie Endalaust.



Af Fødurs Hiarta Barn er bored, Eingieteñ Guds Son er þad, ad Upp-



hafe er til kiøred, ad veita Heime Lijf og Naad, i øllum Hlutum allt hañ

jaat



jaatum, i Glede og Hrygd þvi Gude sie, Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Mey su heiløg vijst mun vera, Mañ slijkañ i Heimiñ bar, hvør kañ skilia og kuñgiøra, Kraptur og Naad su hvilijk var? Syne og Moodur, mieste Heidur, gafst af Hæd, þvi Gude sie, Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Valld og aller Einglar biooda, Ædst Lof Fødur Himnum aa, so skal og af Hiarta hliooda, Heimur um̃ Guds Elsku þa, mestu Millde, veita villde, gaf siñ Son, þvi Gude sie, Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Um̃ þad Spaameñ aller seigia, ad hañs Komu gyrntust sia, hvørra Ost og Hiartans Trega, heiløg Ritning miñest aa, þa nær Heime, Heill su kiæme, sem seingium nu, þvi Gude sie Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Elldre Meñ og Yngre lofed, Ætijd Gud med Hug og Raust, Iñgaang Himna opeñ hafed, og erud kvitter Efalaust, vid Eymd stædsta, eignest hædsta, Dijrd og Naad, þvi Gude sie Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

O! ad vier þa Elsku þecktum, Oforskulldad Gud oss gaf, ad hañs Bod og Vilia vøcktum, vorum Syndum lietum af, J Lijfe og Dauda, DRottne hlijda. Hañ hiaalpe oss, og hønum sie, hædst Lof Heidur ad Eilijfu.



Christur allra Endurlausn og Von, af Fødur Guds Eingieteñ Son, fyrer Upphaf



Eirn fæddest hañ, Framar þad eingeñ seigia kañ.

Geysle Fødurssins ertu og Liws, eilijf Von ollum giefeñ oss, giættu blessadur ad Bænum, þeim, bidur þiñ Lijdur umm allañ Heim.

Miñsiu esłande Aund og Frid, ad Saker vor i fyrre Tijd, af hreiñe Jomfrw hijngad barst, Hollds Mynd vorre þu skrijddur varst.

Hœtijd vottar hier þesse þad, hvørt Ar kiemur oss eitt Siñ ad, ollum Heime ein Hiaalpeñ trw, af Hææ. sœte Fodurs varst sendur þu.

Eirn Lofsaungur, med sama Lag.

Fodurssins Tygnar liomande Lioos, af Lioose Liooseð færdec oss, Lioos Lioossens og Bruñur Byrte kiær, byrtande Dageñ Dagur skiær.

Oss upplijse hin saña Sool, sem Æfeñlega lioom ar vel, og Guddooms Anda Geislañ siñ, giefande i vor Hiørtu iñ.

Fødur þig nefnum segner vier, Fødur, hvørs Dijrdeñ eilijf er, Fødur sem besta Blessan gaf, Byrde Synda oss liette af.

Athæfe heilagt efle sa, Vede Dioful sins hrynde fra, og Prauter allar þverre bradt, Poleñmædeñar styrke Maatt.

Huganum rade og hegde nu, i Hollde skijrlijsu bygge Trw, Afiseme Trwar audge Saal, ecke kuñande Flærd nie Taal.

Christur vere vor Sadning sæt, sie Trwañ og vor Dryckian mæt, Taallaus su Andans Giøfeñ good, gledie mest jafnañ Christna Piood.

Dagureñ lijde oss allvel af, Ødran lijk sie vid hañs Upphaf, Middeige Trweñ myndest vid, Merkingar Hwmsins fordunst Sid.

Færest Dagureñ fagur nu Heim, fylgium lastvarer Skilning þeim, med Fødur Sonureñ allur er, allañ Fødur hefur Orded i sier.

Gud Fødur aller heidrum hier, hañs einka Son og dijrkum vier, med Huggaranum ædstum Anda, allsvalldanda Gud ann Enda.

Himeneñ, Jord og hier med Sioor, hvør Skiepna i þeim smaa og stoor, fagnande sijnge kætlegt Lof ad Son siñ Gud i Heimeñ gaf.

At Fædingar Hœtijd ad færa þier, Fagnadar Lofsaung skylldugt er, oss sem hefur þu biargad best, med Bloode þijnn Endurleyst.

HErra JEsu þig heidrum vier, hvør af Meyuñe fæddur er, med Fødur og helgum Anda, ollu stioornande ann Enda.

Jaate þad allur Heimur hier, Hiaalpræde Lijfsins komm = ed er,



## O · vinarens þa Anaud þver, Endurlausneñ vard Opeñber.

Esajas hvad ordte fyr, af Meyuñe framkom þar, Eingell DRottenś þañ Booskap bar, af blessudum Anda fullgiørt var.

Af trwudu Sæde Maria Mær, medtook Orded DRottne kiær, hvørn allur Heimur ei hallded fær, hañ bar i Lijfe Meyañ skiær.

Bloomgast Root Jesse saña sw, so eirneñ friovsgast Vøndur nu, Avørteñ tiede Oliett Frw, obruгdeñ Mey var Mooder þo.

J Jøtu liet sig leggia þañ, sem Lioosed øllum fyrstur fañ, med Fødur skapade Himna hañ, hvørn Mooder Reyfum vafde Mañ.

Hañ sem Løgmaaled Heime baud, hvør eirneñ sette þau Tiju Bod, Eirn Madur sialfur giørdest Gud, gieck under Løgmaalsins Anaud.

Adam saurgade elldre flest, Adam Nije þad þvode best, Metnadur þins hvad læckade vest, hoof Lijtelæte þessa mest.

Veittest øllum Lijf, Lausn og Trw, lideñ Roott, Sigradur Daude nu, kom hijngad Piood, so trwer þu, ad Gud fædde Maria Jomfrw.

Dijrd verde jafnañ DRotteñ hier, sem af Meyuñe Fæddur er, med Fødur og helgum Anda hier, hiedañ af og uñ allar Allder.

## Eñ þa eirn Lof-saungur, med sama Lag.

DRottin Himneska wtgieck til vor, af Fødur fyrr sem gieted var, hvør Sonur oss til Hiaalpar foor, Heimur þa efra Alldur bar.

Lijs upp þu DRotteñ dapra Lund, i Daud Afstar þiñar verde brend, ad allre mætte sviptast Synd, Sañleiks Ord þijn þa verda kiend.

Alla ad dæma aptur ser, Eingeñ hugur þig dulced fær, Afbrot ressande riett sem ber, Riettlaatum bliffer Kongur kiær.

Vægd fiaa oss uñ þad Giallð og Grand, sem Greidsla er makleg vorre Synd, med Helgum þijnum a Lijfsins Land, leid þu oss prijdda þine Mynd.

Soñum Fødur, og Syne mest, sie Lof, Dijrd, Heidur, Vellde kraust, og helgum Anda sem hyggat best, hvad uñ Allder sie Endalaust.

## Añar Lof-saungur, med sama Lag.

AF Fodurnum Son Eingieteñ, J Heim oss fædde Jomfrwen, Skijrn med Kvøl siñe helgar hañ, hvørn eirn so fæder Christeñ Mañ.

Hædstur Guds Son af Himnum stie, Hollds Myad skrijdde sig Mañlegre, Skiepnu med Dauda Frelse hañ, Føgnud Lijfs eilijfs øllum vañ.

Lausnare vor þad þiggium vier, þijn Naad yfer oss kome hier, J Hug vorn gief þitt helga Lioos, hreina Trw þar med auk i oss.

Vor DRotteñ jafnañ vert oss hiaa, Villu og Myrkre frels oss fraa, af oss Saur allra Synda þvo, Saal vorre veittu Lækning so.

Þañ aadur komeñ vitum vier, Verølld ad dæma aptur ser, Køngur vor þijna valda Piood, Verude þijn Naad og Milldeñ good.

Heidur, Lof, Dijrd sie HErra þier, af hreirnre Mey oss fæddur er, med Fødur og helgum Anda, uñ allar Allder aan Enda, Amen.



So vijdt uñ Heim sem Sooleñ fer, Siñ Liooma ytst uñ Alfur ber,



JEsum eirn HErra jaatum vier, sem Jomfrw Maria fædde hier.

Heims Skapare og HErra eirn, Hollde klæddest sem aumur Sveirn, so leyste Holld med Hollde hreirn, ad Hialplaus ei være Madur neirn.

Hrein Mooder medtook helgast Bloom, Himnesk Guds Naad til heñar kom, Lijf Jomfrwr bar þañ Leyndardoom, lijkleg var ei sw Gaafa froom.

Meyar Hiarta Hreinlijfe prijdt, hier vard Guds Musiere nijtt, uñ Hollds Tilverknad hrein og kvitt, hun Gat af Orde Barned sitt.

Sæl Maria fædde Soneñ þañ, sañast Gabriels

Ord um hañ, J Moodur-Lijfe Lausnarañ, luktur Johañes heckia kañ.

Hædste Kongur i Heye laa, hafnade ecke Stalle þa, litla Mioolk þyggur sialfur saa, sem sedur eirneñ Engla smaa.

Af þvi fagnar øll Himna Hyrd, HErra þeim syngia Einglar Dijrd, gløgt byrtest þeim sem geymdu Hiørd, Gud og Skapare alls a Jørd.

Heidrum med Muñe, Hug og Triw, HErrañ oss Fæddañ af Jomfrw, Fødur og Anda æ og nu, aan Enda halldest Lofgiørd jw, Amen.

## Lof-saungur wt af Fædingu Christi, epter Gudspialls Historiuñe. Ton, i Dag eitt Blessad Barned er, etc.

HAtijd hædst er halldeñ jw, Himna Kongs Tilkoma, af Meyar Lijfe Lausnareñ nu, liet sier Fæding sooma, Daasamlegur er Sveirneñ saa, Sæmdum prijddur mest sem maa, i Mañdoomlegum Hætte, Allt er hønum Onijtt hiaa, Aungvum vinst ad seigia fra, hañs Guddooms Dijrdar Mætte.

Guds Son kom af eitnre Mey, eins og Roos ber Lilia, Mañs Natturañ orkar ei, Atburd hañ ad skilia, af Frw Maria fæddur er, hañ fyrer Upphaf jaatum vier, Skapara Heims og Herra, Moodur Brioost hañ metta hier, Mioolk Skijrlijfis sem þo ber, Alldur, eilijfd stærra.

Sooleñ skijn i giegnum Gler, og giører ei Spilling neina, fyrer og epter Fæding er, Ospillt Meyañ hreina, Sæl var hun sem Sæmd þa fieck, ad sooddañ Barne Oliett gierk, og Gud i Heimeñ fædde, heppeñ Brioost, Preñingu beck, hañ til lietu Miolkur Dryck, sem sialfañ Gud vel sadde.

Hyrdar vøktu heila Natt, Hiardar sinar giæta, Eingell Guds þeim byrtest bratt, bodar Glede sæta, boreñ er Kongur Himna hreirn, i hørdum Stalle liggur Sveirn, vafeñ i vondum Reifum, sa er Dr-otteñ Engla eirn, Adams Barna finst ei neirn, hvørs Vænleik vier so leifum.



Mooder Guds og Meyañ skiær, med Lijfe þijnu huleñ var, hañ Heims Vijdd



ei hallded fær, hañ giordest Madur Guds Son kiær.

Sonar Guds en saña Trw, Synder Veralldar leyste nu, hier med veitte heiløg Frw, hrein Mey Oflecknd værer þu.

Millvasta Guds Mooder hrein, medal Kveña ert blessud ein, barst i Heim þañ sæta Svein, sem græder øll vor Andar Mein.

Gud vorn Fødur heidrum hædst, hañs Syne JEsu Dijrd sie stædst, og heiløgum Anda næst, Eilijst Lof sie hier Preñing hædst.

## Um̃ Holldgan og Fæding HErrans Christi, wt af Gudspallsins Historiu.

vid Lag, Hætijd hædst er hallden̄ sw.

JOmfrw Maria Oliett var, a Augusti Tijma, Heiten̄ Guds og helgar Spær, hlutu fram̃ ad koma, af Keysaranum wtgierk Bod, um̃ allañ Heimen̄ skyllde Piood, sig Skattskrifa læta, hvør Mañ foor ad hallda þad, heim a siñ Fædingar Stad, Hlijdne hønum ad jæta.

Joseph wt af Nazareth, a Galilæa Lande, J þa Borg Bethlehem hiet, brædlega farande, þvi af Davids Ættum var, ætte hañ ad biooda þar, Skatt skylldir æsetia, og med hønum Maria, Mey hafde sier fastnad þa, ad Barne Olietta.

Tookst so, heñar Tijme var, Tof medañ þar hafde, Fyrsta Son siñ fædde þar, Føtum sijnum vafde, J Jøtuna hañ hneigde þa, þvi Herbergium var vijsad fra, þung var Fyntækt þesse, fyrer oss þolde Frelsaren̄, um̃ Ellefu Aren̄ þren̄, og endade a Krosse.

Fiær-Meñ voru i sømu Sveit, sem voktu um̃ þær Nætur, hlelldu siñe Hiørd a Beit, HErrans Eingell mætur, til þeirra kom, so Byrtu bræ, Blessadre i krijngum þa, af þvi Hrædslu hlioota, Eingell kvad, ei Ottest þier, ydur eg stooran̄ Føgnud ber, øll Piood a þess ad nioota.

J Dag fæddest ydur i Heim, Endurlausnaren̄ traustur, i Borg Davids Bethlehem, boren̄ er HErrañ Christur, gæanged nu i greindañ Stad, gief eg ydur Merke þad, þar skulud þier fiña, Reifad Barn i Jøtu lagt, øngva hefur Heimsins Makt, æ sig tøk Eimder siña.

Ad þeim Eingle epter þad, Otal Himna Sveita, Søfnudust i sama Stad, Sætt Lof Gude veita,

ka, sungu Gude a Himnum hædst, Heidur, Lof og Dijrd sie stædst, um eilijfar Allder, Fridur a Jordu jafnan sie, Fögnudur med Mañkyne, og heilög Trwa ad halldest.

Eñ sem sooru Einglarner, upp til Himna badañ, Fiaar-Meñ sögdu, ferdunst vier, fram til Davids Stadar, Atburd skulum hañ siaalfer siaa, er seigia liet oß DRotteñ fra, og þar er tilfalliñ, komu fram og feingu sied, Frw Mariu og Joseph med, og Barned lagt i Stalleñ.

Pa nu hösdu þetta sied, badañ af kuñgiordu, Atburd hañ og Ordeñ med, er af þvi Barne heyrdu, hvor Mañ sem þvi heyrde lijst, af Hiardar Mönum þotte vijst, undarleg sw Saga, Ordeñ þesse öll sier hiaa, Ein vardveitte Maria, og sette sier i Huga,

Hyrdar geingu glader heim, Gud heidra og lofa, ad Sañleik allañ sijnde þeim, sem adur heyrt hafa, Christeñ Piood med Packargiord, þigge JEsum boreñ a Jord, og hönum hlijda skyllde, Tweñ er nu Blessun stoor, sem baud oß Gud og fyrre sóor, af sijne Ast og Millde.

O vor HErra JEsu Christ, oß i Mañdoom boreñ, þu hefur allañ Lijd þiñ leyst, til Lijfsins adur fioreñ, opna vor Hiortu, ad vier nu, Ord þijn geymum med riettre Trw, hvar med hier a Jordu, Endurfædder eignunst vier, Arf Himna med siaalfum þier, og blessud Börn þijn verdum.

Eingla Lof-saungur um Blessada Barned JEsum. Af ødrum Capitula Lucæ.



Ofañ af Himnum hier kom eg, hef eg Tijdendeñ gledeleg, Tijdende good vil eg



ydur tiat, trwa meige þier vijst þar aa.

Eitt

Eitt Barn er ydur bored og skeinkt, su blessud Mooder Oforkreinkt, fædde ydur þad frijdast Jood, Fagne og gledjest Hiørtun good.

Sa er þañ hædste HErra Gud, sem hiælpar ydur i allre Nauð, Endurlausnare ydar kiær, af øllum Syndum frelsad fær.

Hañ giefur ydur Glede þa, sem Gud hefur tilreidt Himnum a, ad eilijft Lijfed eignest hier, eignast mætt= ud lijka sem vier.

Til Merkis munud þier fiña þetta, mioda Jotu og Reifa lietta, sa Heime øllum hiælpar vidur, hañ er þar lagdur i Stalleñ nidur.

Þvi glediunst vier nu gooder Meñ, og gøngum þar iñ aller señ, og skodum hvad ofs Skapareñ mætur, Skiepnum sijnum hier veitast lætur.

Hygg ad mitt Hiarta og horf þar a, hvad i Jotu liggur: Hvør er sa? Þad er so miøg blijdt Barn= forn eitt, af blessudum Fødur ofs giefed og veitt.

Ver vel komeñ þu Giesfureñ millde, ofs auma ei forlijta villder, i Utlegd til mijn ert komeñ hier, alld= rei fæ eg fullþackad þier.

Þu sem ad giørder Himna og Haudur, hvar fyrer ertu so ordeñ snaudur? Þu lætur þetta lijka hier, ad liggia a stirdu Heye hier.

Þo Verølld sie bæde vijd og laung, ad vijsu er hun þier Sæng of=þraung, og ei þess verd þo være hun full, med vænar Perlur og besta Gull.

Þijn Silke Sæng og Flugel frijdt, eru fæer Klwt ar og Hey Ohijdt, þad var þitt Skraut og Skarted stædsta, þu sem rijker a Himne hædsta.

So lietstu DRotteñ lijka hier, þiñ liwsa Sañleik ad sijna mier, ad Audur Heims og øll hañs Mekt, J Augsyn þiñe sie ecke þeckt.

Græðareñ bid eg þig goode þess, þu giører hier bæde Sæng og Sess, ad hvijla i Brioostę og Hiarta mier, so hiedañ af alldrei gleyme eg þier.

Af þvi vil eg af Esku Grund, ætijd fagna a alla Lund, og sijngia Lof med sætum Ton, fiælfum Fødur fyrer siñ Son.

Heidur sie Gud/a hædsta Tron, hañ hefur giefed ofs siñ Son, Einglaña sijnge Fylking frijd, fagurt Lof Gude allañ Tijd, Amen.

## Ein Gømul Christeleg Saung=Vijsa, um Christi Fæding.



In dulci iubilo. Liggur Ock vors Hiarta, in præsepio, skijn sem Glader sijngium so. Sooleñ



Sooleñ biarta, Matris in gremio. Alpha es & O, Alpha es & O.

O IEsu Parvule, Hugureñ hia þier sie, styrk þu oss i Siñe, O puer optime, med allre Giæsku þiñe, O princeps Gloriæ, trahe me post te, trahe me post te.

O Patris charitas, O Nati lenitas, Vier Daudañ hefdum feinged, per nostra crimina, hañ hefur oss umgeinged, cælorum gaudia, eja værum vier þar, eja værum vier þar.

Ubi sunt gaudia, þar sem heyra maa, ad Guds Einglar siungia, nova cantica, og Baasonur klijngia, in Regis curia, eja værum vier þar, eja værum vier þar.

Ein good og gømul Seqventia, sem sungeñ var i Christelegre Kyrkiu, af Fædingu HErrans Christi, snweñ af Latinu.



Haatijd þessa Heimsins Piood, Himnesku Organs Hliood, heyrdu haa.
Einglanna Fylke frijd, Fædingu Meyar vid, Fognud tiaa.



Hvad velldur, ad Vilie Manna, Virding sanna, ei efla maa?
Hyrdar wte voru a Velle, Vegleg heyrdu Ord Einglanna.

Lof



Lof Gude , Foolke Frid , fagnande Eingla Lid , sætt Siingur þa.
Christum þeir hefia hætt , Heilagre Oska Sætt , Menn mættu nær.



Afgiof þa ei adrer reyna , Eñ sem hafa hyggiu hreina. Syndernar
Alment slijkt ei ættu meina, Eigendur þvi giør skal greina. Himneskum



skal, Hiartad skiliast vid , skijrañ þa hliootum þeñañ Frid , þvi Hreinlyndum
Jardneska lijkest Lund , Lofgiørd veite a hvorre Stund , Hædstum Gu-



heiteñ er saa. Æ skal Madur miñast gladur, Millde þa. Bodar Fæd-
de Himnum a, Guddoms Velldeð, voru Hollde, vistast hia. Leidsøgu



ingar Stundu Stiarnañ blaa, stooru Lioose yfer braa. Christum komna
greida af þvi Fiaarmeñ faa, fram til Bethlehem Borgar gaa. Gud sem giorde,



HErrañ Himna, hiaa Skyn-lausum Skiepnum siaa. Meyañ Mooder,
allt med ORDE, nu i hordum Stall - e laa. Lof sem ætte,



Mañ þañ fæder, heidrar þesse Hiordeñ smaa. Frelsed þeir sem feingu samsijnge, Amen.
lijka mætte, veite oss hañs Vitskañ haa.

Sw fagra Saqventia. In Sapientia Disponens Omnia. Um Sending Guds Sonar af Himnum, i vort Holld. Maa siijngiast a ollum Stoor-Hatijdum Arsins og optar.
Utlogd af Sr. Olafe Gudmundssyne.



Guddoomsins hædsta Raad, hefur med Vitsku gaad, Haattum Mañkynsins ad.
Lidum vier langa Pijn, leit hañ med Myskun sijn, og liet sig aumka þad.



Sijdañ Gud sende hañ, soddañ Bod veit og kañ, Hæsæte Fódurs af.
Heimsins Piod hier ad tiæ, Heiteñ good miñast æ, er siælfur Gud um Soneñ gaf.



Mey kvedur og mællte þa, Madur og Gud Maria, mun gietast medur þier.
Lijfe þijnu fædast fræ, Frelsarenn Manna sæ, sem allra Hluta Upphaf er.



Ei leinge undañ droo, og verde þad, hun mællte so, giørdest Guds Naadarstooll.
Tiæde frañ tijgeñ Son, Trwadra Maña Lioos og Von, Riettlætis sanna Sool.



Son Guds fæddest i Heimeñ hier, Himna Kongur ei annar er. Lioos þad
Himnarijkesins Hyrdeñ gaf, Heidur Gude og mesta Lof. I lang=

Flær=



Fiarhyrdum lioomar hiaa, Lijder Vollduger ecke siaa. Stiarnann
um Stalle hvijler hañ, hvørn vijd Verølld ei lykia kañ. Gaafur



Biart = a byrtest var, sem Bloomgan Vønd = ur Jesse bar.
Kongar greida Svein, Gull, Myrru og Reykelse sijn.



Umskurn leid hañ eirnenn hier, oss sem Fæddur og giefenn er.
Vid Jordanar Vøtnenn hrein, vora þvode Syndanna Grein.



Mey Offrar Einka Son, allra Lijf og Hiaalpar Von. Lausnarans
Simeonis Hendur þa, sijnum Fögnud hielldu aa. Gaf Sioon Blind=



Christi Kraptur Fyrste, Vatn ad Viine verda liet. Heyrer Daufur,
um, Gaungu Holltum, mættu Dauder mæla riett. Ovin rekur,



Holldþrær flijr, og uppriisa Dauder Meñ. Brauden Fim og Fiskar
Ict burttekur, Stodvar Sioo og Storm i señ. Canverskrar fliott kvittast



Tveñer, Fim sedia Pusunder þa. Epter Ordum Spamañana, Einka
Dotter, Kviñu Blodlæt stodvast mæ. Lamb Guds kvitt vid Lost og Synder, leyste



Hyrder Saudaña, leidt til Foornar Lambed er. Veitte Liifgiof Voludum,
Daudans Bond, Krossens Naud og Kvaler ber. Er sien af Postulunum,

velk



veik aptur fra Helvijtum, Uppreis aa þridia Deige. Og ad uñum
i Daasemdar Giørdunum, sañre Naad samverkande. Holldsins vors Heidur



Ovinum øllum þeim aasiaaendum, JEsus er uppnumeñ. Huggunar
nu, hædstre med Sigurviñingu, J Himen er upphafenn. Sende Gaaf-



Anda, Eingell Naadsins ried senda, er ad hañ aadur lofade. Eja hvør af
ur sijnum þeim, sem sier hañ kiøre af þessum Heim, Tungur nijar hvør talade.



Trw hreirnre, Himnaña Konge, Saung nijañ seiger, so Naadar mættum niota.



nær þesse Heimur naaer ad þriota, friaalser af Syndum, Fognud vier findum,




Responsorium og Lof-saungur um̃ JEsu Christi Hijngadkomu og Fæding , er sunged af tveimur Ungmeñum og Kornum, til Skiptis. Verseñ eru under þvi Lage, Nu vilium vier aller þacka Gude vorum HErra. Eñ Jñtaked af Kornum, sem, hønum ber jafnañ ad vier sijngim, etc.

I. LOfed Gud gooderchristner Meñ, sijnged hønum Lof aller señ, oss skal gledia þad, ad af storre Naad, Gud vid oss hefur giort eilijfañ Frid.
Guds Son hiaa oss villde vera, vort Holld a sier sialfum bera, liet sig hier fiña, Lijkn oss ad sijna, og þad eilijfa Lijf ad forþiena.
Hañ er komeñ Hiaalp ad veita, Himneskum And oss ad bijta, oss vel ad frida, af Synda Voda, sem oss glader hier hañs Einglar boda.

Þockum jafnañ Gude, ad oss fyrer siñ Son, soddañ Myskun og Naad veitte hñ.

II. Unga skal þad gledia og gamla, Guds Lofun eckert maa hamla, Arf siñ vill fiña, upphoof Hiaalp sañа, og sende Fyrerheiteñ Gud til Maña.
Hvor kañ ædra hugsad hafa, hvad Gud mætte Møñum giefa, eñ þeñañ Hiaalpar-Mañ? JEsus nefnest hañ, vorn Lausnara sañañ vier jaatum þañ.
Hvor maa añar Hiaalp oss veita? Hier med vorum Ovin mæta, og Blessan giefa, blijdañ Gud ad hafa, sa oss frelsar eirn af øllum Voda.

Lof sie Gude, ad hañ sitt Foolk ei vill hata, helldur siñ Son þvi hiaalpa laata

III. Gledied ydur Guds Utvalder, giored Packer Meñ Nyalder, hañ ried oss fiña, Hiaalprædeð sañа, og sijna Naad vid oss giørde kuña.
Vinskap ydur villde sijna, veiter øllum Elsku hreina, ydar vill vitia, Anaud vel bæta, og sijna Blessan oss sialfur veita.
Neide liet hañ rietta falla, med rijkre Blessan gladde alla, liet oss kuñgiora, Lausn Synda vorra, Myskunsamañ sig og Milldañ vera.

Lof

Lof og Packer, Gude Fødur, jafnañ verde, fyrer siñ Son oss Blessan færde.

1v. Lofed Gud christner Meñ kæter, og Christum sem Synder bæter, Vitsku oss sijnde, Sañleik so kiende, øll sijn Fyrerheit Gud allvel ender.

Gude skulum glader sijngia, og gøfga Lioos Heid-ingia, i Myrkre mun skijna, med Kieñing sijna, sæ Utvalde fyrer Fæding hreina.

Aller skulum eirn Gud lofa, a Christo vorn Føgnud hafa, hønum a hvør Twnga, Heidur og Lof sijngia, og Eingla Lofsaung alldrei af gæanga.

Heidur Gude, hier a Jørdu, Fridur verde, Christur oss Gude þecka giørde.

## Eirn goodur Psalmur, med Lag, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

EItt Barn er bored i Bethlehem, þvi gledur sig Jerusalem, Almæattugs Fødurs eilijft Ord, æa sig took Holld og Madur vard, Gabriel þeñañ Bodskap bar, Barnshafande ein Meyan var.

Sem Brwdgume af sijnum Sal, Son af Meyañe komeñ skal, i Ausnu Stalle einum læa, Endalaust sem þo Rijke æa, Fiæar-Meñ Eingell þa frædde eirn, Frelsare Heims sæ være Sveirn.

Af læangre konru Frooder Før, færdu Gull Myrru og Reyke-Kier, aller þeir geingu i þad Hws, Ungañ Svein sier hvør kvadde fws. Einum og Preñum aller hier, eilijfum Gude Lofsijngium vier.

## A Nijaars Dag, Barna Saungur, med Ton, Ofañ af Himnum, etc.

JEsu vor Endurlausnare, epter Moysis Løgmæale, Ja Attadeige Umskoreñ, upp fra þvi þu varst i Heim boreñ.

Sw Uthelling þijns helga Bloods, hier var fyrst Mañkyne til goods, lagder þig under Løgmæaled, lietst so þess Bølvan a þig med.

So ad oss leyster Syndum fra, siæalfur gieckst under Byrde þa; hier fyrer JEsus heiter þu, Heill vor eilijf og Lausneñ Trw.

Umskier þu HErra Hiørtun vor, hreinsa þau vel af Synda Saur, sem þijnum Vilia sækia moot, og Satan villde ei feinge Boot.

Gief oss þijn Bod ad geyma riett, giæt vor vid Heimsins Slægd og Prett, ad vier uppbyrium Ared nijtt, Elskum og hølldum Orded þitt.

Onijt er Ment og øll vor Verk, af þvi gief þu

oss Naad og Styrk, so ad þijn Christne um̃ allañ Heim, eilijft sijnge þier Lof, Amen.

## Nijaars Psalmur, ad oska Goods øllum Stettum, med Lag, Heidra skulum vier HErrañ Christ, etc.

GIlld laate Saung vorn ganga nu, Gledelega af riettre Trw, Fagnadar Ar þa Oskum vier, af Guds Millde ad þigge þier, Haleluja.

Eingeñ Heims Stiett, og eingeñ Mañ, aan Guds Hiaalpar standast kañ, þvi bidium af Huga a hvørre Tijd, hañ leide allañ christeñ Lijd, Haleluja.

So ad Vallds-meñ i siñe Stiett, setter af Gude, stioorne riett, um̃vande vel og gaumgiæfe, gooder, froomer og vijser sie, Haleluja.

Høndle so allt til Heidurs sie, Hædstum Gude og hañs Syne, stunde hañs Ord og vernde vel, so varast meige seirne Kvøl, Haleluja.

Almwgeñ hlijdeñ ad þeim sie, i Sidgiædum og Riettvijse, med Kiærleik, Trygd og fullañ Frid, froomum Vallds-Møñum lijkest vid, Haleluja.

Hvanda Foolke bidium vier, Bæum og Eign sem hefur hvør, gange øllum sem giegner best, Gude til Lofs og Dijrdar mest, Haleluja.

Viñuhiwum Hlijdne og Frid, Hollustu og Trw sem bijdur Gud: Oss þienade Guds sæte Son, sa þvi trwer er þarfur Þioon, Haleluja.

Hioonum sie jafnañ Hiartad eitt, hvørt bere añars Liwst og Leidt, lise i Ast sem eitt sie Holld, under Guds Naad og Hlijsdar Skiølld, Haleluja.

Børneñ fra Æsku Ottest Gud, Ord hañs lære og hallde Bod, ad lofe Gud og gagnest Heim, good Ment og Sider aukest þeim, Haleluja.

Forelldrar best þar fylge ad, full Þørf og Skyllda søñ er þad, til Guds ernm þvi uppalder, ad eins vid Børneñ breytum vier, Haleluja.

Yngis Foolk so siaae vid, Saurgan Hollds og liootum Sid, i hreinlijse sier hallde riett, Heidre og virde Ædre Stiett, Haleluja.

Þeim Heilsu-Brest og þwnga Soott, þolduleinge Dag og Noott, oskum vier ad Gud giefe Þol, giøre Linun a þeirre Kvøl, Haleluja.

Pa sem Freysting og Faangelse, Fiandskap, Ofsookn og Mootlæte, leinge hafa lided i Heim, Leyse DRotteñ af Þijngslum þeim, Haleluja.

Faatækum sende sañur Gud, sijna Naudþurft og Daglegt Braud, Poleñmæde i þeirra Naun, þeim giefe fyrer Christ siñ Son, Haleluja.

Þeim riett med Heidre hvørn eirn Dag, hallda sier vid sitt Viñulag, Børnum og Kviñum Biørg ad faa, Blesse DRotteñ og efle þa, Haleluja.

Audugum sem uñ Eigner hier, Ahuga bera, osk-

...im vier, Sedie Auma af sijnu Fie, so ad i Gude Rijker sie, Haleluja.

Alnwgans Biørg sie Ebling good, og aumum veite Vernd og Stod, læte Børn stunda Lærdoom mest, Lof sa Rijker af þessu best, Haleluja.

Syndugum Kvittun kioosum nu, Christs Naad gyrnest med riettre Trw, Breyte sier eins og Ord hans kijs, ad hier og sijdar Naad sie vijs, Haleluja.

Peim Synd og Villu vara vid, vel kiena Trw og Christen Sid, Byrta oss JEsu Ord og Verk, af Gude bidium Naad og Styrk, Haleluja.

Alls þessa af Hiarta oskum hier, ad Gude þecker verdum vier, Heidarlegt Foolk i hvørre Stiett, han Dijrke, Elske og otteft riett, Haleluja.

Vernde oss JEsu Volldug Hønd, vid Diøfle, Skada, Skøm og Synd, Bregdest alldrei siw Blessan klaar, byrium vier so hid Nija Ar, Haleluja.

## Nijaars Psalmur, Ortur af Biskupenum Mag: Steine Jons syne.

Ton, Blijde Gud Børnum þijnum ei gleym.

Eitt vier Nijtt, Ar byriad faum nu, gott og blijdt, Gud Naadar tiaa oss þu, þetta bijtta Tijma Toom, til Saalar Glede, Christur hædsta Himna Blom, Heill ollum tiede. Une han, oss vissra Boota, Sinu Nafn, Stwt læte ei brioota, Jura Man, eige Roo brioota. Gief oss liwfe Faderen Frid, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke, og eilijft Jubil Ar med þier i Himnarijke.

Heillen øll, Heidurs Piood breidest ad, Villu Foll, fæe ei med oss Stad, Gøfugt Ofervallded, Vølld, i Vil Soolar Grame, brwke, sekum giallde Giølld, goodan Lijd frame: Presta Brioost, Bord Hiordum reide, freste Pioost, fra Otrw sneide, bestu lioost, Bod Naadar greide. Gief oss liwfe Faderen Frid, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke, og eilijft Jubil Ar med þier i Himnarijke.

Hiøona Mein, hept Loptsins Stijrer klaar, une ein, vid Indis Band sierhvørt Ar. Børnen giarnan bioode blijd, bestu Ast sijna, Christe, hrestu hwsan Lijd, læt Prauter dvijna, randa Blood, wr Benbuned þine, Saudum Slood, sijne, Naun line, Nauda Mood, Piood þijd ei sine. Gief oss liwfe Faderen Frid, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke.

Dijrdar Ord, DRottne hæitt særum vier, Værd a Stord, veitast liet kiæra hier. Son sin eina sende a Grund, Saalar Kvøl bæta, Von er bein ad Andar Und, ei næe græta. Christe, Brioost, best giftu Lijda, mesta Pioost, moot læt ei strijda, bitt hædsta lioost Lof gnæfe vijda, gief oss liwfe Faderen Frid, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke, og eilijft Jubil Ar med þier, i Himnarijke.

Nijs

## Nijꜳrs Psalmur, med Ton, A þier HErra hef eg nu Von.

RJJs upp mijn Sꜳl ad niju nu, Nija Lofgiørd uppbyria þu, þvi nu er nijtt Ar komed, nijr Skeinkur þier, nij giefeñ er, nij-ruñed Himna Bloomed.

Lof sie þier Gud fyrer lided Ar, Lijfs Heilliñ mijn øll i þier stꜳr, o! þu miñ Andar Kraptur, sem vægder mier, so eñ eg er, a nijtt Ar komeñ aptur.

Þu hefur verndad Vedhlaup mitt, vel so eg giæte Hnossed hitt, a nu nꜳlidnu Are, miñ Lijfsins Bꜳt, i læst Uppsꜳt, leidder wr øllu Fꜳre.

Mitt Lucku Segl wtþander þu, þijnum med Nꜳdar-Vinde nu, i Heimsins Ossa Floode, og miñar Stiettar Stijre riett, Stioornader þu Gud goode.

J þier var Hvijlld og Unun mijn, eg sat og under Skugga þijn, og gieck i Geymslu þiñe, Athvarfed þad, var Jñsiglad, er þu fieckst Sꜳlu miñe.

O! mijn Sꜳlar Heill Hiartanlig, halltu þvi sama fram vid mig, a Are Jñgꜳngande, Haudleidslañ þijn, sie Hlijdeñ mijn, vid Hꜳska og øllu Grande.

Myskunar rijka Regned þitt, reñe allt iñ i Hiartad mitt, og vel plante þar iñe, Riettlætis Skart, og Elsku Art, med allre Gudrækneñe.

O JEsu søktu Syndum mijn, i Sꜳra-Flooded Tꜳra þijn, og heilags Hafs Bloodrauda, aña[s]tu mig, Nꜳd Elskulig, eins i Lijfe sem Dauda.

Allt þad gott sem mier unter þu, Almꜳttug Hønd þijn geyme nu, Blessande mig og mijna, o Andlit blijtt, eilijft Ar Nijtt, yfer oss lꜳt þu skijna. AMEN.

## A Þrettanda, eirn Psalmur med Hymna Lag.

HErodes griñ: þvi hrædest þu, þoott hijngad kome Christur nu? Veralldlegt Gots ei gyrnest sꜳ, sem Glede Himna oss velta mꜳ.

Ferdast Vitringar, fylgiande þa, frijdre Stiørnu sem liet sig sjꜳ, Liossens leitande med Leiptre sijn, Lofudu Gud med Gꜳfum sijn.

Liet sig hier Vatne laugai, Lamb Himneska og laut ad þvi, oss vor hreinsande Andar Sꜳr, Alls Syndalans þo sjꜳlfur vꜳr.

Hellst mꜳ þad kalla hædsta Mꜳtt, hier næst litast i Kierenu brꜳtt, Einfallt Vatn ꜳdur, eñ vard þo Vijn, vijst bregdande Nꜳtturu sijn.

Þig Fødur og Son løfe Þiodeñ flest, þu sem i Dag auglijsast lietst, Og Helgum Anda Heidur og Prijs, a hvørre Stundu æ sie vijs.

## A Hreinsunar Dag Mariæ, med Ton, Ofañ af Himnum, etc.

JEsu i Fœtækt fæddest þu, Frelsade oss þijn Milld Jeñ sw, Lijtel Mioolk hefur Lijf þitt nært, lagdur i Hey og Stalleñ vart.

Sex Vikum þiñe Fæding frœ, færdur varstu i Kyrkiu þa, Froomum Simeon feingeñ var, J Fadme sijnum þa Barned bar.

Hvørs miøg leinge af Hiarta bad, hønum nu veitte DRotteñ þad, hañ losade þa Lausnarañ, Ad lifa næde Tijma þañ.

Anna Spæakona Eckia froom, a sonnu Stundu þangad kom, um þañ Svein øllum sagde vel, Sem væntu Lausnar i Jsrael.

Christe a Jørdu veit oss Vørn, verda lœt oss þijn Andleg Børn, so fræde oss þiñ Ande hier, ad af Hiarta til þijn snwunst vier.

Lœt þu oss sliovrna Lærdoom þiñ, leid oss i þijnæ Kyrkiu iñ, hvar alleina Meñ þocknast þier, Pock, Lof og Heidur sungeñ er.

Allt sem i Trwñe er þar beidt, af Myskun þiñe verdur veitt, hvør þar iñ kiemur, Sæll er sa, og Søfnud þeim ei hverfur frœ.

Helgaste JEsu hiælp oss nu, Hollde voru þvi skrijddest þu, J Nafne þijnu øll Christneñ, Eilijfa fœe Lausn, Amen.

## Eñ þa eitt Psalmur med Himna Lag.

GUds Syne hægast Hlid sw var, Helg Mey Naadarfull sem hañ bar, er þo læst og til Eilijfdar, Eñ þo Christur fram̃ geinge þar.

Himneska Liossens helgast Skyn, hier kom af Meyu Skaparin̄, Lausn, Blessan, og so Brwdguminñ, Veriandist fyrer Søfnud sin̄.

Huggun Moodur og hædsta Dijrd, Helgust Von Riett-Trwadre Hiørd, Blessud hañs Pijna beisk og hørd, borgade Mañkyn allt a Jørd.

Heidrum med Muñe, Hug og Trw, HErrañ sem Fæddest af Jomfrw, Fødur og Anda æ og nu, aa Enda halldest Lofgiørd sw.

## A Bodunar Dag Mariæ, mœ syngia þa Psalma sem hlijda uppa Holldgan og Hijngadkomu HErrans Christi, vide supra.

Gamall

# Gamall Palma Dags Lof-saungur.

Lausnareñ Kongur Christe, Lof sie þier, Dijrd, Heidur meste, hvørium af Hiarta sungu, Hædsta Lof Sveinarner ungu.

Israels ert þu Soome, og Davids Sonureñ froome, Blessade Yfer-Kongur, J Nafne Guds til vor geingur.

Heidur hier hædstañ veiter, Hyrd Guds og Tignar Sveiter, hvør Madur hier a Jørdu, Heimur og Skiepnurnar giørdu.

Med Palma moot þier fooru, margt Foolk sem Gydingar voru, med Bænum Psalm og Saungvum, Sian, Til þijn audmiwker gaungum.

Adur eñ upptookst þijn Pijna, Prijsudu þeir Komu þijna, heidradañ Heime ofar, Hvør vor nu giarnañ þig lofar.

Lijkade Lofgiørd þeirra, lijt uu a Pioonustu vora, Allt Gott þier lijka lætur, Lijknsamur Kongur ædtur, Amen.

# Af Dauda og Pijnu HErrans Christi, Hymnar, Psalmar og Lof-saungvar.

Konungsins Merke framkoma hier, Krossens Tign leynda auglijst er,

I Hollde þa Heimsins Skapare, hieck fyrer oss a Krossens Trie.

Med Nøglum Helgast Holld var fest, Hendur og Fætur teygdar mest, ad frelsud yrde Adams Børn, Offrud var þesse Saklaus Foorn.

Nakeñ a Krosse þa HErrañ hieck, hañs Sijdu Spioot j giegnum gieck, Blood med Vatne þar wt af rañ, ad oss af Syndum þvæe hañ.

Uppfylld var þar su Andleg Spaa, J Davids Psalmie sem fiñast maa, Samkunduñe þar seiger fraa, sialfur Gud rijkte Trienu aa.

Skijnande og vel skapad Trie, skrijddest med Guds rauda Blode, af vænsta Stofne wtvaled, svo heilagt Holld ad koma vid.

Tyguglegur sa Vidur var, Verd Heims a sijnum Kvijslum bar, Vigt þess Helgasta Holldz var hañ, sem Herfaang Vijtes aptur vañ.

O JEsu allra vor Einka Von, af Myskun veit oss nu þa Boon, med Hiartans Fegnud Guds Børn gled, Gief og Syndugum Kvittun med.

Þier Eine Gud i Þreñingu, Packer og Lof sie ad Eilijfu, Ad med blessadre Kvøl a Kross, Kepptex, og ætijd verndar oss, Amen.

## Eirn goodur Psalmur, med Hymna Lag.

SKapareñ Christe Kongur vor, Kvittun Trwadra Naadar stoor, Audmiwkra Bæner þocknast þier, þig eirn lofum og dijrkum vier.

Himna og Jørd þu hefur giørt, Hollde voru þu klæddur ert, Virdtest ad under vorre Eymd, Være Dijrd þiñar Tignar geymd.

Gudleg Naad þijn og Giæska klaar, grima Kvøl leid og Krossens Saar, Vid Fyrstu Hioona Fall og Mein, Fañ Lækning þijn Myskuneñ hrein.

Søkum vor bundeñ Saklaus vart, so ad leyster Fiøtrada hart, Svijvirding leydst, og bætter best, Brot allra Maña stoor og flest.

Frelsareñ a Kross festur vart, Fraabært Myrkur þar giørdest snart, þa HErrañ uppgaf helga Aund, Hellur klofna og skialfa Lønd.

Sigrare Daudans sien var braadt, Samjafn Fødur i Dijrd og Maatt, Naad Heilags Anda, Hlijf og Stod, Hædste Kongur veit þiñe Þiood.

## Eirn fagur Lof-saungur, med Lag, Pa JEsus til Jerusalem.

HÆdsta Hiꜳlprædis Føgnude, Heimur allur nu kꜳtur sie, Lausnare allra Christur kiær, Kvittade Synder Veralldar.

Fꜳm Døgum fyrer Pꜳska kom, Frelsareñ i Bethaniam, Lijknarfullur lijfgade þar, Lazarum sem fyrr grafeñ var.

Christur vid Bord med Sveinum setst, Sw kom sem fyr med Smyrsleñ best, Høfud og Fætur HErrañs þa, Hrein-Trwud smurde Maria.

Eins sem spꜳd stendur, epter þad, Ausnuna og Folañ sækia bad, Til Jerusalem sat a þeim, So kom berlega Kongur heim.

Audmykt su var Oseigiañlig, ad Gud virdtest so lægia sig, Heims Skapare og HErra med, Hoogvær forsmꜳdre Ausnu reid.

Oliu Greiner Gøsugar, og grænañ Pꜳlma Foolked bar, maklega JEsu a moote gieck, Myskunar Kongs var Kouia þeck.

Dijrdlegt Hosañа swngu hæbst, Syne Davids sie Virding siædst, Christur blessade Kongur er, komeñ i Nafne DRottens hier.

Preñing og Eining sañre sie, Sungeñ Dijrd, Heidur Eilijfe, Gud Fødur, Son og Anda med, Ætijd mest lofe Mañkyned.

## Psalmur af Pijnuñe HErrans Christi, epter Fioorum Gudspiallamonñunum.

Med Ton, Vor HErra JEsus visse þad. Verseñ eru epter Stafrofs Rød.

ADams Barn Synd þijn so var stoor, Sokum heñar ad JEsus foor, af Fadme Fødurs til Jardar, Hreinust Maria hañ hijngad bar, Heime til Lausnar sendur var, Sꜳtta vid Gud oss giørde. Sitt Lijf i Dauda lagde hañ, Leid Eymd vora sem veykur Mañ, þar til ad villde verda, Son Guds fyrer oss Sætleiks Fvorn, og Synda Pwnga ad bera vorn, Hafeñ a Krosseñ harda.

BYriade sæfra Brauda Tijd, Byrte þad JEsus sijnum Lijd, Son Mañs mun Svikum mæta, Hañ slꜳ, Krelia og hrækia þeir, Hꜳduglega a Krosse Deyr, Upprijs þo ydar ad giæta. J Simeons Hwse sat vid Bord, Smyrsl hefur Kona þꜳngad færd, HErrañs Hofud ried væta, Agiarn Judas þad Eydslu kvad, Eñ Ast-Verk DRotteñ sier virdte þad, Kviñu baud kyrra ad lꜳta.

CHristi Hollustu falleñ frꜳ, Falsare Judas Silfur þꜳ, Fyrer þad Son Guds selde. J fyrr tilbwna Salnum sat, med sijnum Pꜳska-Lambed ꜳt, og Endade ꜳ þvi Kvøllde: Mijtt Testament hefur sijdañ sett, So hañs Dauda æ miñunst riett: Peirra Fætur þvo villde, Astar-Dæmeñ þau dijrust baud,

Dapra

Dapra Læreſveina af Nauð, Fræðde, So Huggun hiellde.

DRotteñ foor þa i Fialled wt, Fylgdar-Meñum hañ baud med Stwt, Vid Freiſtne Bidia og Vaka, Skamt i Gardeñ þeim gieck hañ fraa, Grandvar fiell nidur til Jardar þa, Fødur bad fraa ſier taka, Peñañ Kaleik, þvi eckert er, Omøgulegt ad viñeſt þier, Piñ Vilia þo ei forſaka, Priſvarſiñum uñ þetta bad, þeſs aa mille gieck ſijnum ad, Af Svefne ſig ei Omaka.

Ecka ber eg þier ſofed ſamt, Svijkiande mig er burtu ſkamt, Nu er ſu Stund, uppſtanded, Mañs ſins mun verda ſeldur Son, J Syndugra Hønd, þvi giøred Boon, ad Freiſtne ydur ei grande. Siaa þar Judas med Søfnud Mañs, med Sverdum, Staung um, kom til hañs, med Lyktum og Logbrande, þetta Merke gaf Pegnum hlioodt, Pañ ſem eg kyſſe, faanged ſlioott, og Medfør Meñ vel vande.

Hvrr viſſe allt ſem framkom hier, Frelſareñ ſpyr, Hvørs leited þier? JEſum Nadverſka votta, Jaatade DRotteñ, Jeg er ſaa, Juda Sveiter ſem ſookta aa, Jafnſkioott til Jardar detta. Judas heilſade Chriſt med Koſs: Komiſtu Vinur ad ſvijkia oſs? Hereñ þa heyrde þetta, HErrañ grijpa og hallda faſt, hvørt ei ſkule med Sverdum ſlaaſt, Fylgdar-Meñ JEſum frietta.

Gnamd eſt Petur ſitt Sverd wt droo, Svein Yferſi eñemañſins ſloo, Eyrad þa Malchus miſte, DRotteñ baud þeim, ei bañed nu, brugded Sverd aptur ſlijdra þu, ætlar þu Boon mig breſte? Þo Eingla villde eg Fylking ſaa, Fødurs Kaleik eg drecka aa, Pioon Lækning þaa af Chriſte. Bundeñ til Añnas færdu fram, fra þeim til Byſkups Caipham, allt Raaded þaangad þuſte.

HErrañs Før Petre Hugraun fieck, J Høll Byſkups til Sveina gieck, Maalslok ad mætte kaña: Dyra-Ambaatteñ ſpur braadt, og adrer þvi næſt lijſtu haatt, Eirn ertu JEſu Maña. Neytade Petur næſta freckt, nockru Siñe hañ hefde þeckt, Soor ſig og ſaart ried baña. Haneñ galar, ſier HErrañ ſnijr, hañ leit, þa man hvad mællte fyr, wtgieck med Ydran ſaña.

JEſus ſpurdur uñ Kieñing, kvad, kiende eg allum i hvørium Stad, þa laattu þar uñ ſvara. Eirn Pioon JEſum i Audlit ſloo, aattu Byſkupe ad ſvara ſvo? Litwgvitne lietu bera. Byſkup ſagde: Þig ſære eg bert, Son Guds Bleſſadur ef þu ert, oſs þad nu auglioſt giøra, Andſade DRotteñ eg em ſaa, uppḣiedañ ſkulud Son Mañs ſiaa, vid Hønd Guds hægre vera.

Kieñemañ reif ſijn Klæde þa, klaart hañs Gudlaſtan heyra maa, Votta þa virdum nijta, allt Raaded ſpyr, hvad ydur lijtſt? af Lijfe ſtrax þeir dæma Chriſt, uñ hañs Aſioonu hnijta. Ymſer med Spotte ſpyria ſo, ſpaadu oſs Chriſte, hvør þig ſloo? A hañ med Haadung ſpijta. Arla kom ſamañ Alment Raad,

eñ spyria Christ, so feinge nææd, hvar med hañ mættu ææviita.

LAndstioorn þa bundeñ seldañ sier, Svikareñ Judas aptur ber, taled Fie, Tuga þryggia, Syndgade eg þvi saklanst Blood, Sveik eg, þa ansar Juda Piood, oss ber ei sw Um̃hyggia: Kastar Sylfre, wr Kyrkiu gieck, Kvidur hañs brast, i Snøru hieck, Blood-Gialld villde Gud ei þyggia, sleitst a Stefnu ad looga þvi, fyrer Leyrsmids Akur þeim Daudu i, Utlendingum ad liggia.

MEinlausa JEsu Jarl vid took, Juda spyr, hvøria hefde Søk? Amæle ecke spara, Skatt af Keysara skipar hañ fyrst, Skielfer Foolked, sig helldur Christ, opt neyddur einn svarar: Mitt Walld er ei af Verølld hier, Vottur Sañleiks eg fæddur er. Til Herodem hlaut ad fara, Kææfur margs spurde Kongur fioott, ad Christ þeigiande giørde Spott, siaalfur med sijnum Skara.

NEytar Kongur, kvad Jarl, og Jeg, JEsum sekañ a nockurn Veg, Nesstum burt baña eg eige. Um̃ Fææuga eirn hafed fornañ Sid, friaalst sie ydur um̃ Paaska Tijd, Añañ hvørn oska meiged, Piodeñ ææggiud þuste fram̃, þigginm vier helldur Barrabam, Christur a Krosse deye. Frw hañs baud um̃ þañ frooma Mañ, fææst eckert; mig so margt um̃ hañ, Dreymde a þessum Deige.

OSekañ strijkte Stioornar Mañ, Strijds-Meñ Purpura klæddu hañ, Þyrne hañs Høfud krijna: Lietu i Hønd hañs hægre Reyr, Heill Juda Kongur, søgdu þeir, Hnie-Fall og Hædne sijna, Høfud og Kyñur Hnefum slææ, hañs Asioonu miøg hræktu ææ, wtleiddu hañ fyrer hina, med soddañ Bwnad Sæær og Blood, Sveiteñ kallar sem være Od, hañ skallt a Krosse pijna.

PJlatus vill hañ verde laus, villtur Lijdur hañs Dauda kaus, þviad sig Guds Son giørde. Keysarans Reide þu fulla fær, Fride leingur ef þesse nær. Þa Jarlleñ þetta heyrde, Hand-Laug sier took, a Doom-Stool stie, Stoorbrota Mañ þeim liet i Tie, JEsus Lijflææteñ verde. Utleiddur, Kross siñ siaalfur bar, Simone þar til naudgad var, ad gieck under þa Byrde.

OVinum baud, Aumked ecke mig, um̃ ydur og Børneñ, hvør um̃ sig, hafed Grææt og Harma stoora, sw kiemur Tijd ad seiged þier, Sæl Obyrja og Barnlaus er: Fiøll, hylied oss og vora. Ef giørt er so vid þad Græna Trie, gieted, hid visna hvad mun skie? i Aftøku-Stad wt fara. Christ negla þeir a Krosseñ þar, Kvalder voru tveir, Ræningiar, siñ hønum vid Hønd hvøria.

RÆningium jafn sææ sijndest Heim, sagde Fader fyrergief þeim, ei vita hvad þeir viña. Handskript Søk JEsu jææta liet, Juda Kongur af Nazareth: Yfer-Meñ ad þvi siña. Hañs Klædum skiptu Her-Meñ þa, vid hryggva Moodur mællte: sææ, sææ er þiñ Sonur Kviña, sijdañ Johañem sagde vid,

sææ,

siaa, þijn Mooder, fra þeirre Tijd, hana took saa til Siña.

SKaprauner, Haadung, Hroop og Brijxl, Heidner og Judar søgdu a vijxl. Næningia aňars Orde, ansar hlň, Gud skallt Ottast nu, ockur er makleg Pijna sw, þesse Jllt eckert giørde. J Rijke þijnu minstu mijn, Milldeň soor, i Dag Aundeň þijn, med mier i Paradijs verde. Sortnade þa Sool og miøg vard myrkt. Miň Gud, Miň Gud, þvi fra mier ert? Hvør Maň haň kalla heyrde.

Trwlega allt nu framkvæmt saň, ad fylltest Ritning, sagde haň: þyrster mig, þar ried standa, Kier fullt Ediks og Ysoop hiaa, af þvi haň dryckia, sagde þa: Allt hefur þad nu Enda. Med haarre Røddu haň mællte miøg: Miň Fader nu bijfala jeg, Aund mijna þier til Handa. Sijdaň haň hefur þetta sagt, og Høfud sitt blessad nidur lagt, Uppgaf siň eigeň Anda.

VArd þa a Tiallde Skipting skioot, Skielfur Jørdeň eň klofnar Grioot, opnast Grafer allvijda, lidna Meň helga lijfgar þad, lijstust mørgum i helgum Stad, Upprisu JEsu sijdar. Høfdingeň stood med siňe Sveit, sem haňs giætte, þau Undur leit, hvar af þeir Hrædslu lijda, Guds Son haň vera votta lioost, vidstaddur Lijdur sloo sijn Brioost, þad siaa haňs Viner, þar bijda.

NFer-Meň vilia ecke sie, um̃ Haatijd Lijkeň føst a Trie, Strijds Maň Bein beggia brijtur, litu JEsum laateň til Saňs, lagde eirn Spioote i Sijdu haňs, Blood og Vatn burtu flijtur. Raads Herraň Joseph kom um̃ Kvølld, af Krosse ad taka JEsu Hold, Pilati Leife hlijtur, Christ med ad sveipa keiptu Lijn, kom Nicodemus forne Vin, Smyrsl mykel med sier flytur.

ÞEsser af Krosse Lijked laust, Lijne sveipa, og smurdu traust, epter Sidveniu siňe. Par stood og Josephs Stein-Proo nij, Stad þeim ei fiærre Garde i, fyrr laa þar eingeň iňe, Lijkaum JEsu løgdu þar, þvi leid ad Haatijd, og velltur var, stoor Steirn ad Grafar Muňe, helgar Kviňur þar voru vid, vitia heim, Tilreida Smijrsleň frijd, varast um̃ Haatijd viňe.

MOstu Meň Juda aňars Dags, Eggia Pilatum, laattu strax, giæta Grafar svo teinge, þessa Svikara þeinkium Tal, a þridia Deige eg uppriisa skal, verre þa Villa geinge, hønum ef þeir hvinska i burt, hitt ad seige, mun verda spurt: Vakt baud þeir fulla feinge, sett Vørn og margur Vøku-Sveirn, var þa Jňsiglum merktur Steirn, ad geyma, so grande eingeň.

## Aňar Lof-saungur um̃ HErrans Christi Pijnu.



JEsus sem ad oss frelsade, Eirn var hañ Saklaus fundeñ. Og færdur Ogudz-
Um̃ Midnaatt sem eirn Jllvirke, er faangeñ og so bundeñ.



legum Lijd, sem aa hañ Lijge bera, hæda, lijta og hrækia med, hvad Gudspiolleñ kuñgiora.

A Føstudagsins Fyrstu Stund, þo findest Søkeñ eingeñ, J Pilati hins heidna Hønd, hafdur sem eirn Mordinge, Froomañ Christum og Fridhelgañ, fañ, og so vidurkienne, þvi fraa sier i Hallde hañ, Herodi Konge sende.

Um̃ Þridiu Stund ad strykturvar, og stood sem Lamb til Dauda, Þyrne Coronu þwnga bar, þar med Purpurañ rauda, Reyr-Legg i Hønd til Haadungar, Høgg og Spott vard ad reyna, Til Krossfestingar sialfum sier, Siñ Kross hañ bar alleina.

Nær Siøttu Stundu ad negldur var, Nakeñ aa Krosseñ Christur, og Bloode sijnu wthellte þar, upp med Krossenum reistur, Vidstadder marger hæddu hañ, og hiñ añar Uppfeste, Gudlast þad Sool ei lijda kañ, Lioma siñ af þvi miste.

Um̃ Nijundu hañ hroopar haatt, horfeñ kvad Gud sier vera, Eñ þeir Galled og Edik braadt, upp ad hañs Muñe bera, JEsus þa sijna Aund upp gaf, J Tveñt Tialldbed sier skipte, Hrystest Jørdeñ hardlega af, Hellum i sundur svipte.

Um̃ Kvølldsins Tijma til var sagt, tveggia Bein ad Meñ brioote, Sijdast var þa i Sijdu lagt, Sialfum Christo med Spioote, Blood og Vatn þar strax wt af rañ, uppfyllda Skrift þa seiger, Johañes, þviad þad saa hañ, Þessum þier trwa eiged.

Eñ þegar Dageñ Endade, og miøg a Kvølld leid lijka, þa kom Joseph, af Krossens Trie, HErrañs Christs Holld ad taka, Veglega sem þa Sidur var, smyriande þad til Grafar, Vardhallds-Meñ sijdañ saatu þar, Svo sem Matthæus skrifar.

Hiælpa oss O JEsu HErra kiær, harda Kvøl þu sem reynder, ad hlijdner hier æ verdum vær, og vørnist allar Synder. Dauda þiñ og hañs saña Søk, So jafnañ vier gannigiæfum, Og þig DRottefi med Ast og Pøck, AEfeñlegana losum.



## A Paaska Hatijdeñe, wt af Upprisu HErrans JEsu Christi, nockrer Hymnar og Lof-saungvar.

### Eirn goodur Psalmur, med Lag, Allfagurt Lioos oss byrtest braadt, etc.

FAgnadar Kieñing Kviñum fær, klaar Guds Eingell talar vid þær, J Galilæa Christur kiær, kañ visst sien verda siñnum nær.

Grøfeñe skiott þær geingu fraa, greina Postulum slijkt sem sia, Lifanda JEsum lijta þa, lwta hañs Footum, og preysa a.

Heyrande þetta HErrañs Piood, hradt ferdast sem þeir feingu Bod, ad lijta Christ, þeim Gyrnd er good, Glede, Von, Traust, af þessu stood.

Jørdeñ og Sooleñ byrtast blijd, Bist og Reid i hañs Dauda-Tijd, þa Christ lijta ad Lijkams Sid, Lærefveinar, og mæla vid.

Klaarlega Saar þeim sijnde hañ, A sijnu Hollde er Daudañ vañ, Upprisefi jaata aller þañ, Eilijfa Mystkun veita kañ.

Lijknsamur Kongur Christe þu, Kveik i oss til þijn Ast og Trw, ad liñe þier alldrei Lofgiørd sw, er Lijdur a greida leystur nu.

Milldaste Gud su Mystkun þijn, med Upprisuñar Føgnud skijn, vid Ogn Daudans og Andar Pijn, øllum hlijfe Trwudum sijn.

Nu Dijrkunt aller DRotteñ þañ, af Dauda reis og Sigureñ vañ, med Fødur og Anda helgum hañ, hefur þad Valld, Ei endast kañ, Amen.

### Eirn goodur Psalmur, med sama Lag.

CHristneñ sijnge nu Sætleiks Lof, Syne Guds þacke Lausnar-Giøf, Ovin med sijnum øllum Her, J Siooveñ Rauda søktur er.

J stoorum Voda vorum þa, villde hañ alla oss afmaa, Lausnare vor sa Lijf oss gaf, Leidde i giegnum rauda Haf.

Fridade oss og frelste wr Neyd, Flecklausa Lambsins Blood og Deyd, þa Christur bardest vegna vor,

Þijkingeñ kiæsde diwpur Siòor.

Paaska-Lamb helgast høfum vier, hvørt a Krosse oss bakad er, Holld þess er Fæde Heidurs verdt, HErra JEsu þad sialfur ert.

Þetta er saña Sæta Braud, sviptande oss eilijfum Deyd, dijrast Blood Lambsins dreckum vær, Diøfull oss þa ei skadad fær.

Packer alldrei vær gietum giørt, Gude sem er þad Offur verdt, fraa Ofsøgnud og Andar-Kvøl, Ernm vier þar med leyster vel.

Lamb Guds þier hæfer Lofgiørd best, Lotning, Heidur og Dijrdeñ mest, Øll þijn Christneñ i Heime hier, æfeñlegana þacke þier.

Nu dijrkum aller DRotteñ þañ, af Dauda reis og Signreñ vañ, med Fødur og Anda helgum hañ, hefur þad Valld, ei endast kañ.

# Eirn Psalmur under þessum Nootum.







Mesta þig þar til Milldeñ droo, Misgiørder vorar ad bera so, Hoildsins þolande hardañ Deyd, hvar med oss leyster af Daudañs Neyd.

Helvijtis giegnum Hlideñ gieck, Herfekna sijna frelsad fieck, Sigurvegareñ vid Merked mætt, med Fødur situr aa Himnum hatt.

Þijn Goodvilld til þess þreingde þier, þijns Folks ad bera Misgiørder, þyrma oss, og so þar med liaa, þitt millda Auglit mættum siaa.

HErrañ Christum nu heidrum vier, hvør af Dauda uppriseñ er, Fødur og helgum Anda med, J øllum Løndum Lof sie tied.

Eirn

## Eirn stuttur Lofsaungur um̃ Upprisu HErrans Christi, med Lag.

Christur reis upp fra Daudum, etc.

UPPrisen̄ er Christur, af øllum Kvølum leystur, af þvi gledinnst nu aller vier, JEsus vor Hiaalp og Huggun er. Haleluja.

Ef Upprisen̄ ei være, Øll Verølld fyrerfærest, ÞRotten̄ vor JEsus Daudan̄ van̄, Dijrkum og Lofum þvi aller han̄. Haleluja.

## Eirn Añar Lof-saungur og Responsorium wt af Upprisuñe Christi.

Med Ton, J Dag er Christur Upprisen̄, etc.

## KOREN.

UPPrisen̄ er nu JEsu Christ, Haleluja, Haleluja,
Sa allan̄ Heimen̄ hefur leyst, Haleluja, Haleluja.
Ef han̄ ei upprisen̄ være, Haleluja, Haleluja.
Øll Verølld þa fyrerfærest, Haleluja, Haleluja.
Þar han̄ er nu upprisen̄ vijst, Haleluja, Haleluja:
Aller Lofum vier JEsum Christ, Haleluja, Haleluja.
Heilagar Kviñur komu þriaar, Haleluja, Haleluja.
Til Christi Grafar þegar i Ar, Haleluja, Haleluja.
Leitudu han̄s Lijkama þar, Haleluja, Haleluja.
Lausnaren̄ þa upprisen̄ var, Haleluja, Haleluja.
Heilaga Eingla hittu Tvo, Haleluja, Haleluja.
Hryggvar Kviñur þeir gløddu so, Haleluja, Haleluja.

### Eingellen̄.

Hrædslu leingur ei hafe þier, Haleluja, Haleluja.
Hvørs nu leited, han̄ er ei hier, Haleluja, Haleluja.

### Maria.

Sæll Guds Eingell seig mier þa, Haleluja, Haleluja.
Sialfan̄ Drotten̄ hvar fiña maa, Haleluja, Haleluja.

### Eingellen̄.

Af Grøfeñe upprisen̄ er, Haleluja, Haleluja.
Arla i Dag þad seige eg þier, Haleluja, Haleluja.

### Maria.

Sætan̄ Herran̄ miñ sijn mier þa, Haleluja, Haleluja.
Sem nu er Daudum risen̄ fra, Haleluja, Haleluja.

### Eingellen̄.

So ganged iñ og siaaed þar, Haleluja, Haleluja.
Samastad hvar han̄ lagdur var, Haleluja, Haleluja.

### Maria.

Herran̄ er burt, han̄ hier ei siest, Haleluja, Haleluja.
Ef finda eg han̄, þvi fagna mest, Haleluja, Haleluja.

### Eingellen̄.

Lijted

Lijted hier a Lijndwka strax, Haleluja, Haleluja.
Laa hañ i þeim til Þridia Dags, Haleluja, Haleluja.

**Maria.**

Sønum vier þetta sialfer vijst, Haleluja, Haleluja.
Sijn oss vorn Herra Jesum Christ, Haleluja, Hale.

**Eingelleñ.**

J Galilæam gange þier, Haleluja, Haleluja.
Þar særed hañ sem sagde fyrr, Haleluja, Haleluja.

**Maria.**

Þier Eingell Guds vier þockum nu, Hale. Hale.
Það skal oss øllum Huggun trw, Haleluja, Haleluja.

**Eingelleñ.**

Fared og seiged satt þar um̃, Haleluja, Haleluja.
Sancte Petre og Postulum, Haleluja, Haleluja.

**Maria til Foolksins.**

Sijnginm nu aller af Hug og Raust, Hale. Hale.
Uppreis vor Herra efalaust, Haleluja, Haleluja.

**Allt Foolked.**

Af þvi gledinnst nu aller vier, Haleluja, Haleluja.
Eilijf Huggun vor Christur er, Haleluja, Haleluja.

---

## A Uppstigningar Haatijd DRottens vors JEsu Christi, Hymnar og Lofsaungvar.

Barna Saungur a Uppstigningar Dag, med Ton, J Dag er Christur uppriseñ, etc.

J Dag er Christur Uppstijgeñ, Haleluja, i Dijrd sijns Fødurs iñgeingeñ, Haleluja.

Hvor med Kvøl siñe saarustu, Haleluja, Synder þvode af Verølldu, Haleluja.

Mestu veitte oss Aumum Ast, Haleluja, ecke mætte nein þvilijk faast, Haleluja.

Þvi rijker nu sa Sigrare, Haleluja, samjafn Fødur i Almætte, Haleluja.

Og wtvegar oss aumum Lijd, Haleluja. Af sijnum Fødur Naad og Frid, Haleluja.

Þier Meñ wt af Galilæa, Haleluja, þvi vilied upp i Himeneñ sia? Haleluja.

Sem hañ stie upp fra Heime hier, Haleluja, hijngad aptur komande er, Haleluja.

J þessum mesta Sigre sie, Haleluja, sunged Lof Gude af Christneñe, Haleluja.

Heilagre Þreñing Hædstu Dijrd, Haleluja, af Hiarta seigium, og Þackargiørd, Haleluja.

### Eirn goodur Psalmur med þessum Nootum.



Nu er a Himne og Jord, Haatijd Fagnadarfull, Sijnge þvi sanna Lofgiord,



Syne Guds Christneñ oll, DRotteñ med Dijrd sinne, Dyr Himna Opnade,



oss Aumre Piood af sætre Naad.

Eingeñ Tunga i Heim, uñ þañ Føgnud og Tign fær, Diktad sem a Deige þeim, Dijrdlegast byrtur var, Riettlætis saña Sool, Son Guds a Himna Stool, med Eingla-Her, uppstijgeñ er.

Hañ hefur vissañ Veg, vijsad øllum upp til sijn, A Trwñe mun liggia miøg, Madur vel giættu þijn, alla Guds Naad og Gots, giefur riett Trwañ oss, Vatn, Ande, Blood, Votta þad Piood.

JEsu vier bidium þig, ad i þessum Eymdardal, Fylgd þijn og Naad Føðurlig, forde oss Vijtis Kvøl, þitt Laan med Packargiørd, þiggia lát oss hier a Jørd, Gief oss Gyrnd þa, Pier verda hiaa.

Eins sem fyrre fraa Jørd, foorstu uppaa Himna hædst, med Valld og mestu Dijrd, munt þadañ aptur siaast, A Doomsius Deige þeim, sem Einglar søgdu Heim, Tign og Ast þijn, Oss forde Pijn.

Eirn Gud, þo Preñe med, þig af Hiarta lofum vier, ad oss hefur Auma sied, af Millde tookst ad þier, Vid hreina Trw oss hallt, So hliootum vier þetta allt. Vert þu vor Hlijf, Veit Eilijft Lijf.

## Eirn aagiætur Psalmur, under þessum Nootum.



Heill Helgra Maña, Heidur Einglaña, Eilijft Lijf allra, J Trwñe sællra, Drotteñ



deyande. Diofulsins Grande, ollu Eydande.

Gief Glede þijnum, Goodfwsum Pioonum, Sigur þiñ sæla, ad sijngia og mæla, i Heime vijdum, a þessum Tijdum, Paaska Halld prijdum.

Fra Vijte fareñ, frægur Sigrareñ, Uppreist i Sooma, og Fylgdeñ þijn frooma, Holld þitt Helgsta, Haatijd þar næsta, hoosst i Dijrd hædsta.

HErrañ nu helldur, Hædsta Tign milldur, upp yfer Himen er Christur nu komeñ, med Mañdoom sama, mun aptur koma, allt Holld ad dæma.

Alltijd upptoga, til þijn vorn Huga, Haa-Stoolhiaa Fodur, a hægra Veg rædur, i Afgruñ vara, oss þijnum Skara, fra þier ad fara.

Guds Son og Fader, giefe þad bææder, og Helge Ande, af þessum komande, allt yferviñur, eilijfur Sañur, Eirn Gud og Preñur.

## Lofsaungur wt af Uppstigningar Historiuñe, maa sijngia so sem Allfagurt Lioos oss byrtest braadt, etc.

HErtugasta Dag Paaskum fra, Frelsareñ stie til Himna þa, Sijnum Lijd sasnar a Eitt Fiall, uppfylld var Stiett og Verk hañs øll.

Hañ sagdi: Nu er Endad allt, hvad i Ritning um mig er mællt, Spaamañaña, og Moysi, margt kieñde þeim þar skrifad i.

So hlaut ad stie uñ stoalfañ Christ, saarañ Dauda ad þylde fyrst, Pridia Dag rise Daudum fraa, Dijrd sijna iñ ad gaanga þa.

Bæde aa Himne og aa Jørd, er mier giefed allt Valld og Dijrd, Ande miñ kieñer ydur þad, Af þvi vitned i hvørium Stad.

Gaanged nu wt og Prediked, øllum Heims Pioodum Gudspialled, Skijred so verde Syndeñ kvitt, So skal uppbyriast Rijked mitt.

Hvør Trw og Skijrn i Heime nær, Himneska Sælu sijdañ fær, Hvør Trwñe vill ecke taka vid, Tapast og fiñur alldrei Frid.

Allt þad sem hafed heyrt af mier, Heilagre Christne kieñe þier, Eg Æfeñlega med ydur er, Epter Giøf miñe bijded hier.

Hendur sijnar þa hoof hañ braadt, hiedañ foor upp til Himna haatt, Postular litu Lopted i, Leidde hañ þeim fraa Sioonum Sky.

Hvijtklæd da Meñ þeir hittu Tvo, Hiaa sier standa, er mæltu so: Galverſker Meñ þvi undraſt opt, aller horfande haatt i Lopt.

JEsus sem upp fra ydur ſtie, er a hægre veg Tigneñe, eins sem hañ ſtie til Himna hier, hijngad komande aptur er.

Nu ſitur hañ i ſiñe Makt, Syne Guds allt er underlagt, hañs Rijkisſtioorn er Orded ſitt, af Gæſum hañs þad verdur prijdt.

HErrañ opnade Himna Dyr, i Hæd ſtijgande ollum fyr, med ſier fangadañ færde Lijd, Fridar-Stioorn helldur allañ Tijd.

Aptur kiemur a Efſta Doom, aller vakna vid Lwdurs Hlioom, Bleſſudum Lambum bijdur Frid, Bølvan eilijfa hreppa Kyd.

Med Huga og Hiarta Chriſte kiær, komu þiñar opt væntum vær, leys oſs JEſu og leid til þijn, fra Lijfs og Audar Eymd og Pijn.

## Hvijtaſuñu Pſalmar eru aadur iñkomner.



## A Trinitatis Suñudag, Pſalmar under þeſſum Nootum.






Arla þig lofum aller vier, ad Kvolldе bidium Naadar hier, Lofgiørd vora þu lijt nu aa, og laat hana øngvañ Enda faa.

Dijrd sie Fødurnum Fyrr og Sijd, og Frelsara vorum hvøria Tijd, Heilagur Ande, sem huggar Aund, hañ þigge Lof um̃ Christen Lønd.

## Añar Psalmur, med sama Lag.

HEilaga Preñing hia oss siert, hædst Guddooms Tign sem samjøfn ert, a øllum Hlutum ert þu ein, Upphaf, sem fylger ei Ending nein.

Aull Himna Fylking heilaglig, heidrar, Tilbidur og Lofar þig, þar med þrij hlutud Verølld vijd, Vegsamar þig a hvørre Tijd.

Eirnen vier Aumer erum nær, aakøllum þig vor HErra kiær, audmiwkra Bæner, Ast og Trw, med Eingla Lofgiørd þigger nu.

Eitt Lioos þig trwum aller vier, i Preñingu hvad heidrad er, Upphaf og Enda þeckium þig, þañ Skiepnañ lofar hvør um̃ sig.

Lof Gude Fødur eilijfum, Lof sie hañs Syne Eingietnum, Lof helgum Anda æ sie tied, Einum Gude og Preñum med.

## Eirn Lof-saungur af Verkum Heilagrar Preñingar, med sama Lag.

O! Gud sañur i Einingu, og Eilijfur i Preñingu, Haasæte þitt er Himna Dijrd, Heidur þiñ lætur siaast a Jørd.

Goodañ og hreinañ þu giørder Mañ, med Gaafum þijnum prijdder hañ, þijna siaalfs Mynd hefur þu þeim veitt, þitt Bodord aatte ad hallda eitt.

Pa yfer Adam og allt hañs Kyn, afbriootanda kom Bølvaniñ, Son þiñ Gud Fader þu sender Heim, so hañ leyste oss af Voda þeim.

Pa sitt Embætte Endade, og i Dijrd sijna aptur stie, bad hañ ad sender Anda þiñ, ad hugga og styrkia Lijden siñ.

Giarnañ þu veiter þad Guds Son bad, Gaafa þørfust var Møñum þad, Utvalda þijna vel til bioost, Veg til Fagnadar sijnder lioost.

Af Myskun, Naad og Millde nu, Mañkyne Blessan bijdur þu, HErra JEsu þvi Himnum af, Heilagañ Anda Trwudum gaf.

Paug vorrar Lausnar Verken stædst, Vegsama þig O Preñing hædst, i Persoonu þu sañast so, siaalf gudleg-Vera, Ein er þo.

Saal hefur Gaafur þessar þriaar, þvi er hun køllud Mynd þijn klaar, Mañ-Vit, Vilia og Miñe frekt, med þessu fær hun þig allvel þeckt.

Soolen þriu Giæde giefur Heim, gledur alla med Verkum þeim, lyser, Vermer og veiter Matt,

vel

vel þijdande þiñ eigeñ Haatt.

Almaattug Preñing, eilijft Lios, upplijs þu Myrk-red allt i oss, verm vora Saal og send þiñ Styrk, so vier geymum þijn Ord og Verk.

Af þijnum Stool oss upplijs þu, og verm þu oss i þijns Sonar Trw, styrk oss med heilags Anda Naad, Elska þijn blesse so allt vort Raad.

Þig Gud Fader, sem gafst oss Christ, Græðara sem oss hefur leyst, helge Ande sem Huggun fær, heidrum lofum og dyrkum vær.

## Eirn lijtell Bænar Psalmur, til heilagrar Preñingar.



O HErra Gud oss helga nu, Þrenningar vorar ætijt þu, veit þijnu Foolke Vægd



og Naad, vid allar Synder kvitta þad.

O Guds Lamb HErra JEsu Christ, oss hefur þu wr Danda leyst, þig bidium vier þitt veika Lid, veit oss jafnañ þiñ Naadar Frid.

O vor Gud Ande heilage, yfer oss jafnañ Naad þijn sie, Gaafur þijnar og Giæska stoor, gledie og efle Hiortun vor.

O Preñing Eining heilaga, eilijf samjøfn Almaattuga, aa þig setium vier alla Von, ætijd heyr giarnañ vora Boon, Amen.



## A Jons Messu, Loffaungur Zachariæ.



Blessadur ad Eilijfu sie, Israels HErrañ hædste. Oss ollum vijst, upp hefur reyst,
Sa sañe Gud vor vitiade, vesælañ Lijd siñ leyste.



i sijns Pions Davids Kyne, Hiælprædis Horn, ad helga Vorn, Utvoldum ollum syne.

Fyrer Spæmaña siña Muñ, sem fordum vered hafa, lofade hañ oss Lijdeñ siñ, leysa og Frelse giefa, af Ovinum, Ognarlegum, og Hende þeirra oss hata, Myskun misg hæ, ad meiga sæ, og hañs Sættmæla niota.

Og miñast þad hañ soor eirn Eyd, Abraham Fødur vorum, ad leysa villde oss siñ Lijd, af Ovinum Mætt-stoorum, ad Ottalaust, hønum Einum traust, uñ alla Æfe þioonum, i helgum Sid, Sakleyse og Frid, sem þocknast siælfum hønum.

Hier med skalltu hiñ sæte Sveirn, Spæmañ Guds nefndur vera, undañ gæanga ættu Eirn, Asioonu vors Lausnara, vijda uñ Heim, Veg HErra þeim, bwa og Byrting saña, Guds Hiælprædes, giefa til þess, ad ødlast Lijkn Syndaña.

Fyrer mestu Guds Myskun þa, Mañkyne nu er feingeñ, vor hefur vitiad siælfur sæ, sem er af Hæd wtgeingeñ, þa upplijser, sem sitia hier, i Myrkre og diñum Dauda, og vill vorn Foot, a Fridar Braut, med sijnum Sañleik greida.

Dijrd Gude Fødur og Syne sie, sungeñ og Heiløgum Anda, eins sem hun var ad upphafe, oss veite Nææd ad standa, vel a hañs Veg, eñ varast misg, Synd, Diøful, Holld og Heimeñ, Gud giefe þad hañs høllðum Nææd, Syngium nu aller Amen.

## A Vitiunar Dag Mariæ, Lof-saungur Mariæ, med sama Lag.

LOf saung Gude Mey Maria, mijn Sæl vorn DRottenn tygnar, Hiælpræde mitt er HErra sæ, hønum minn Ande fagnar, mig vyrdtest siæ, þo være smæ, af Myskun Ambæatt sijna, hiedann i fra, hvør Ætt mun tiæ, sætlega Sælu mijna.

Volldugur DRottenn veitte mier, Veglega Dææsemd hreina, hanns Nafn sannlega heilagt er, heidrum vier þad alleina, og Myskun hanns, mun vijst til Sanns, hallda, Blessa og hlijfa, ætijd i Heim, Ættkvijslum þeim, sem i hanns Otta blijfa.

Siælfur Gud villde mestu Makt, med sijnum Arme giøra, og þvi Dramblæata eydelagt, i Hurum Hiarta þeirra, af Stoole hratt, Høfdinginum bræadt, enn upphoof Lijtelæata, hwngrada mest, hann sadde best, Rijkum ei villde veita.

Sinn eigenn Pioon, Lijd Israel, ad sier nu took, med Millde, Myskunnar sinnar minntest vel, mestu Nææd veita villde, frammkoma liet, sem Fedrum hiet, Frelsarann þeim ad senda, allt kom þad framm, vid Abraham, og hanns Sæde æn Enda.

Dijrd Gude Fødur og Syne sie, sungenn og heiløgum Anda, eins sem hun, etc.

## Annar Psalmur wt af Historiunne Luc. I. med Lag, Christur allra.

MAria gieck inn ti! Elizabeth, Ástfemdar Kvediu heyra liet, i hennar Lijfe Barn vid bræ, Byrte so Guds Son komenn þa.

Johannes lant og kvadde Christ, i Kvide Moodur var þo vijst, Elizabeth þann Føgnud sann, fylltest med Anda heilagann.

A Jørdu sw Glede er jafnann mest, JEsus Guds Son þa auglijstest, Elizabeth i Gude glødd, giørde þad lioost med hæarre Rødd.

Miøg Virdeleg ert Maria Frw, med Heill Mannkynsins geingur þu, Kvinnum framar þu Blessan ber, blessadur þinn Avøxtur er.

Dæadst eg ad hædsta Heidre þeim, HErrans Mooder mig sæker heim, skylldug var eg ad vitia þijn, virdtest þu siælf ad koma til mijn.

Audmykt og Nææd su er miøg stoor, med Edla Son þinn konst til vor, Heilsun þijna þa heyrda eg, hrærdest Barn mier i Lijfe miøg.

Sæl ertu fyrer soddann Trw, sonn Guds Mooder ert orden nu, a þier mun fyllast Efalaust, allt hvad þier sagde Gudleg Raust.

Alltijd sijnge þvi HErrans Hiørd, hønum Lof, Dijrd og Packargiørd, Hollds Mynd vorre ad hulde sig, hanns Myskunseme er Æfenleg, Amen.

 A Micha-

# A Michaelis Messu, eirn fagur Psalmur af Einglunum.

Ton, Guds Son kallar, komed til mijn.

RJett Christneñ hædsium Gude holl, heidrar og lofar hañ i Dag øll, þackar hañs Ast eilijfa, heilagra Eingla Herskarañ, hefur skapad og skickad hñ, oss ad þioona og hlijfa.

Sem Leyptur Soolar liooma þeir, Logande Elldc skijna meir, himnesker Andar hreiner, i siñe Art Sañheilagre, Son Guds er þeirra Skapare, af Skiepnum vænster einer.

An Aflœts Guds Auglite sioa, og Tignar Speigel horfa aa, af Sañleiks Vitsku sæler, siingia, Heilagur, Heilagur, Heilagur, er Gud DRottiñ vor, sem Spaamadur uñmæler.

Nøfn og Størf adgreind eru þeim, og þeir utsendast hier uñ Heim, vijda med ymisum Hætte. Sem hier er margskins sierleg Stiett, so hefur Gud þeim eirneñ sett, adskilianleg Embætte.

Michael HErra JEsu Christ, hædstur Eingla, jafn Gude vijst, under hñs Merke strijda, Einglar hañs aller Dag og Noatt, aptra Flærd Diofuls, Gyrnd og Moatt, sem Guds Ord gyrnest nijda.

Hiñ gamle Dreke hefur ei Noad, hvoria Stund bruggar Svika Noad, svo hañ oss sigrad næde, Aund, Lijf, Sæmd, Heilsu, Eign og Goß, uñsitur þvi ad svipta oss, med Lijge, Mord og Bræde.

Fyrst formar Vantrw, Villur og Nijd, Vijg, Upphlaup, Ofrijke og Strijd, Stiett Guds siurlar og þioer, Høfdingia hañ, uppæser þraatt, alla Trygd slijtur Frid og Saatt, Illsku og Heipt wtsaer.

Storma vekur og Strijdvidre, steipast þvi Turnar, Hws og Trie, Loptenu lijka spiller, Jardar Grooda oss ecke añ, uñrootast, so ei gagnest hañ, og allt med Eymdum fyller.

Verie oss ecke Eingla Her, Eign, Lijf, og hvad sem høfum vier, aungva Stund ospillt være, med Vinde, Baale, Vatne og Snioo, Vargur sa eydde øllu þo, ef hañs Akiefd fraañsære.

Nær sem aahorfest Haaske stoor, Heilager Einglar giæta vor, og leysa oss wr Naunum, Dijr olm ei stada Daniel, DRottens Eingell hañ geymde vel, añars upplyke hønum.

Pa Himna Elldur ofañ kom, yfer Zeboa og Sodomam, var Loth leystur med Vijse, og baadum Dætrum Baale wr, burt leidde Eingla Styrkur trwr, so hielldu siinu Lijfe.

J Prisone þa Petur var, Pijslardooms aatte ad bijda þar, Herodes vill hañ deyda, Eingell Guds kom þar iñ uñ Noott, af Petre fiellu Jarneñ fliott, vard so leystur wr Voda.

Breñande Ofn i Babilon, baud þremur Sveinum Lijfsins Tioon, Guds Eingell giætte þierra, sem Kiælu Døgg vard Ofne i, einskis Hita þar kieñdu þvi, sungu Lof sijnum HErra.

Einglar oss jafnañ vernda vel, vid Slisum, Voda, Tioone, Kvøl, af Trw yfer oss vaka, Biarga, Geyma a bestañ Haatt, beriast fyrer oss Dag og Naatt, forda vid forna Dreka.

Herra JEsu þier þøckum vier, þessa Vaktara gafst oss hier, ad geyma oss og stoda, so Diøfuls Svik og Eitrud Ør, ei slise vora Saal nie Fiør. Þyrm oss med þijnu Bloode, Amen.



## Lof-saungvar a Kvølld og Morgna adsijngia, bæde Iñañ Kyrkiu og utañ.



Dagur og Lioos þu DRotteñ ert, diñt og huled allt er þier bert, þu



Guds Fødurs lioomande Lioos, lioosañ Sañleika kieñer oss.

Þig bidium HErra Heilage, hlijf oss a Noottu þessare, Laattu oss hafa Hvijld i þier, hæga Noott eirneñ þiggium vier.

Svefn-Oorar falle oss ei aa, Andskotans Vielum leys oss fraa, ad Svik hañs ei samþycke Hølld, So af þier kome ei aa oss Giølld.

Þo Augun take Svefn til sijn, samt laat vor Hiørtu vaka til þijn, Almaattug Hønd þijn þyrme nu, Þioonum, sem Elska þig med Trw.

Siaa oss JEsu vor Heill og Hlijf, hept þeim sem svijkia Aund og Lijf, Kom nu til Hiaalpar Christeñe Þiood, sem kvittade þitt blessad Blood.

Milldaste JEsu miñstu vor, mørg er Neyd Holldsins þwng og stoor, Þu ert alleina vor Andar-Vørn, Ætijd vardveit þu oss þijn Børn.

Gude Fødur sie swngeñ Dijrd, Syne hañs JEsu Þackargiørd, Og helgum Anda sem huggar eirn, Æ Heidre þeim sie ei Ender neirn, Amen.

## Same Psalmur, med ødrum Hætte.



Christe þu klaare Dagur ert, kañ fyrer þier hyliast eckert, af Fødur komstu



lifanda Lioos, og Lioossens Kieñing færd . . er oss

O Gud vor Fader geym oss þraatt, vid griñum Ovin uñ þessa Naatt, Oss laattu Hvijlder i þier faa, Andskotans Vielum leys oss fraa.

Eñ þo sofe vor Auguñ hier, aavallt vort Hiarta vake i þier. Hallt yfer oss þiñe hægre Hønd, so hrøp-um vier ei i Skøm̃ og Synd.

JEsu þig bidium aller vier, ad Diøfuls Svik ei grande oss hier, sem situr uñ vorre Saalu ad naa, Svipt oss hañs illu Vallde fraa.

Vier erum Christe þijn Erfdeñ good, wtvegader fyrer þitt blessad Blood. Eilijft Guds Raad þvi oss þig gaf, ad skylldum vier Syndum leysast af.

Einglum heiløgum um̃biood þad, Eign þiñe Gud þeir giæte ad, Vake yfer oss Verndeñ sw, verda mun oss þa Hvijldeñ trw.

J Nafne JEsu nu sofnum vier, nærre sie oss þiñ Eingell hier. Heilagre Preñing sem Hlijfd oss gaf, hvør Madur jafnañ sijnge Lof.



Eirn Gud Skapare allra saa, alls Himens Raad og Jardar aa, Dag-

eñ



eñ ſkrijdande med dijrſta Lioos, dim̃ Noott ad ſkyllde ſvæfa oſs.

Aflyaſt mætte Lijfed þreytt, leingur ei ſier til Viñu neitt, Hugraun liñe og gledie Gied, Grætur og Harmur hverſe med.

Um̃lidnum Deige aller vier, af Hiarta ſijngiande þockum þier, Byriande Noott þig bidium nu, biarga oſs ſem þier hietum Trw.

Þig heidre Hiartans Peled allt, þig loſe Rødd og Mæled ſnjallt. Þig Aſt vor jafnañ elſke eirn, þig akalle vor Andeñ hreirn.

Diwpt þo nidre hin døckva Naatt, Dags Liooſed fræ oſs byrge brædt, Sortne alldrei hin ſæla Trw, Satt Lioos Lijd Chriſtnum lioome nu.

Saal verde ei af Svefne mood, Sofe fra Løſtum Chriſteñ Þiood, ad Trwañ hreinlijſañ hallde Sid, Hooffemdar æ mun þurfa vid.

Sofendra Briooſte bygg þu i, ad Blecking Hollds ei grande þvi, Nie Ovinarens illa Villd, Adſooku framkome og hindre Hvijld.

Chriſt og Fødur vier køllum æ, Chriſts og Fødurs þar Andañ hiæ, Eining heiløg og Þreñing þu, þijnum Lijd Chriſtnum lijſna nu.

## Eñ Eirn Bænar Lofſaungur a Kvølld, med ſama Lag.

Nu heffi Nootteñ og hylur Dag, hvør Mañ ſkilſt vid ſitt Viñulag, Gud læte oſs vel gæanga þad, og giære vor med ſiñe Naad.

Af Noott og Myrkre Ogn og Fæar, Almeñelega jafnañ ſtæar, Son Guds Vak þu og ſiæ vorn Hag, ſw Vernd næger oſs Noott og Dag.

Leys oſs alla af Løſt og Synd, til Leidriettingar veit oſs Stund, Gief oſs Vitſku ad gaungum vier, Grandvarlega, ſo lijte þier.

Forda þu Hvijlu Fleckun vid, Fylgia læt þu oſs hreinum Sid, Baña ad ſpille vorreVærd, vonder Draumar og Diøfuls Flærd.

Hvørs ſem nu framar bidia ber, Brædrum Chriſtnum og ſiaalfum mier, Lijkn ſame Gud þu lijt þar æ, og læt oſs þijna Myſkun fæ.

Fødur, Syne og Anda ſie, Ædſt Lof, Dijrd, Heidur eilijfe, ſem i Upphafe er og nu, Æfeñlega ſie Virding ſw, Amen.

Eirn

# Eirn goodur Kvølld Psalmur, med sijnum Ton.

EPter Guds Vilia geingur þad, ßu gooda Nott oß lijdur ad, Þvi Dagur þesse þroteñ er, Þad Myrkur og Svefn nu epter fer.

Undañdrætt allañ af skal slaa, ad þacka þeñañ Dag sem maa, Gud hefur vor giætt med Giæstu Mætt, Goodlega, og er þvi Hiartad kætt.

Þar liggur oß mest Makteñ aa, Milldañ Gud bidia hia oß staa, ad Andskotans Ogner ængvar skiott, yfer oß kome þessa Nott.

Þig bidium vier med þeirre Trw', þviad Fader vor sañur ert þu. Gior epter þiñe goodre Lund, geym oß uñ þessa Nættar-Stund.

Lof, Æra sie Fødurnum løgd og tied, lijka hañs Syne JEsu med, þeim helga Anda Heidur sæ, ad hvørge fiñest Ender aa.







Þu sem Skapare allra ert, Adgreining Tijma hefur giørt. Mañs Hollded Dagleg Mæda lijr, med Nætur Hvijld þvi Næring bijr.

Holld vort lijdur nu Hrygd og Kvøl, Hiervist Mañleg er lijtel Dvøl, Sofne Lijkameñ sætt med Frid, Sæleñ i Christo vakne vid.

Med Audmijkt bidium aller nu, ad oß fræ Ovin frelser þu, So komest ei ad Christeñe Piood, sem koittade þitt blessad Blood.

HErrañ JEsum vier heidrum Eirn, Hiaalpare vor er ei añar neirn, Hañ gaf oß Lijf og leyste Aund, Lof sie hønum æ hvørre Stund, Amen.

Eñ

## Eñ Eirn Bænar Lof-saungur a Kvolld, med Lag, Dagur og Lioos. etc

SOOLar Lioos nu fer burtu braadt, byriar þui aptur dimña Naatt. Eilijfe Gud vort Andar-Lioos, Æfeñlega þu siert hiaa oss.

Þu ert vor Heill og Voneñ sterk, verndar og blessar øll þijn Verk. Ef þu veiter oss ecke Hlijf, Eingeñ kañ stoda Saal nie Lijf.

Ovine høfum marga miøg, Meintaka oss a allañ Veg. Siert þu oss ei i Svefne hiaa, Svik og Heipt þeirra reynum þa.

Oss og allt vort hier Offrum vær, ad hier tak-oss nu Fader kiær, so Ovin giøre oss eige Tioon, Aññars høfum ei Hiaalpar Von.

Blessa oss fyrer JEsum Christ, Aññars duger vor Viña sijst. Hiaa þier faae oss sijnum Saatt, So ad Morgne þig heidrum haatt.

Þessa Kvølld-Foorn þier færum nu, Fader vor HErra þigger þu, Fyrer Christum þiñ kiæra Son, Kvittande oss med siñe Boon.

## Barna Saungur af Catechisimo, maa syngia sem, Dagur og Lioos.

GUD miñ Fader eg þacka þier, þiñ Son JEsum ad gafstu mier, nuliðeñ Dag mig leyster vel, fraa Lijfs og Andar Eymd og Kvøl.

Eg bid þig ad forlaater mier, allar Synder og Misgiørder, sem moote þier a allañ Veg, J Dag Raanglega giørda eg.

Þijna Myskun eg þar med bid, þessa Noott veit mier Vernd og Lid, J Svefne og Vøku veit mier Frid, Voda og Ogu mig skilier vid.

Eg fel i þijna helgu Hønd, Holld mitt, Sæmd, Vine, Eign og Aund, Eingell þiñ sie mier ætijd hiaa, Andskotañ laat ei til mijn naa.

## Eñ Eirn Christelegur Kvølld Psalmur, maa syngia sem;

Af diwpre Hrygd aakalla eg þig, etc.

J Svefne og Vøku, sañlega vier, Siaalfum Gude Tilheyrum, hvørt oss Dauda eda Lijf þu lier, leitum ei Hiaalpar af fleirum, Vier þøckum þier fyrer JEsum Christ, þu hefur oss geymt i Dag eñ vijst, af Millde og Myskun þiñe.

Fraa Skøm̃, Hneysu og Hreckia Nægd, og hvad Saalu kañ tijna, Fra Satans Vondsku og Svika-Slægd, Saude geymdu vel þijna, sem grimast Leon leitur hañ, ad Lombum þeim er svelgia kañ, og Saalar-Tioon ad sijna.

Með Saalenſe frøndum giørvallt þad, ſem giarnaſt ſkylldum ydia, Ad ſæma þitt Nafn i ſierhvørn Stad, ſijſt villdum Naaungan̄ ſtydia. Vor Veikleike þvi velldur meſt, vier høfum a øllu Goodu Breſt, nema þijn Naad oſs leide.

Með ſwſu Hiarta Fader af þier, Fyrergiefningar bidium, Glæpa þeirra er giørdum vier, ſo greidt i Dauda midium, Nu er oſs Vondſkan̄ næſta leid, Naad ſijn oſs fyrer JEſu Deyd, Vor meiga þad Verk ei bæta.

Geym þu oſs allre Gløtun fraa, under Giæſku þin̄ar Skugga, og Ovina lijka Oſſookn þa, J allre Freiſtne oſs hugga. Andſkoten̄ fer med Flærdar-Taal, han̄ frekt vill bæde Lijfe og Saal, Giarnan Gløtun brugga.

Þijn mykla gaf þvi Millden̄ haa, oſs myrkva Noott til Handa, ad heſdum vier Roo og Hvijlder þa, ſo hreſſare mættum uppſtanda, Af Vijle, Sorgum, Veſølld og Praa, ſem vora Lijkame jafnan̄ þiaa, Ar og Sijd i ymſum Vanda.

Þijde Fader þig bidium vier, þu gief oſs Rooſemd þijra, J allra Sin̄e og Hiørtu hier, fyrer Hiaalparan̄ vorn hin̄ dijra. Samvitſkun̄ar ſaarleg Okyrd, fyrer ſan̄a Trw ſie wtebyrgd, Og Anda þin̄ en̄ ſkijra.

Gief vorum ſynduga Molldar-Serk, ad ſofna i Fride blydum, So meige ſw Hreſſing ad Morgne ſierk, mæta þeſs Dags Aſtrijdu. Upplijs vor Hiørtu og Saaler ſo, ad ſieu þau vakande lijka þo, og til þijn treyſte ſijdan̄.

So ad af heilags Anda Naad, Æ kyn̄um i Vøku og Svefne, J þijnum Otta, Utvegu og Naad, med Aund og Lijkama tilefna. So ad Lykrum þier lendum hiaa, og Lioosſens Børn verdum Himnum aa, Fyrer Adſtod JEſu upphafner.

J fullu Trauſte felum nu vier, oſs Fader þier til Handa, med Saal og Lijfe, ſan̄ur Gud hier, Svipt af oſs Haaſka og Vanda, hlijf þu og vernda Hws og Men̄, af Hiarta þeſs bidium aller ſen̄, ſo meige oſs Mein ei granda.

Þier liwſum Fødur ſie Lof og Dijrd, Fyrer Lijkn og Velgiørd þijna, og þijnum Syne ad ſøn̄u ſkijrd, Er ſig liet fyrer oſs pijna, Heiløgum Anda og Heidur ſie, ſem Huggun vid oſs lætur i tie. Laatum han̄s Lof ei dvijna, Amen.

## Kvølld-Pſalmur wr Dønſku wtlagdur.



Sa liooſe Dagur liden̄ er, lijdur ad Nætur Stund, O Herra Jeſu hia oſs



ver, hægañ gief þu ofs Blund, Gledie ofs Gud i Himnarijke.

Giæſkañ þijn allvel geymde ofs, og good verndade i Dag, mijkte i Raad Mootlæte og Kroſs, Myſkun þijn ſaa vorn Hag, gledie ofs Gud i Himnarijke.

Þar fyrer vier nu Þackargiørd, þier færum Drottiñ ſtoor, heidre þig Meñ, Himen og Jørd, og Heilagur Eingla Kor, g. o. G. i. H.

So margt brutum vier moote þier, megnum ei telia þad, Ord, Hugreñingar, Athafner, allt var ſaarfordiarfad, g. o. G. i. H.

Fyrergief ofs nu Fader kiær, þad fromdum þier a moot, med Anda þijnum ofs Endurnær, So Ydran giørum og Boot, g. o. G. i. H.

Adgiæt þu ofs nu eñ i Noott, med Eingla Skylldu þijn, ad ſofna kyñum ſætt og roott, ſuipter fraa allre Pijn, g. o. G. i. H.

Pa Lijkameñ ſefur, laattu þo, Lifa vorn Anda i þier, Ætijd veit þu ofs Andlega Roo, fraa Illu velgeymer, g. o. G. i. H.

Myrkrañ ollum Meinum fraa, Myſkun þijn ofs hlijfe, Vollduge JEſu vertu ofs hiaa, Veit Raad Saal og Lijfe, g. o. G. i. H.

Ad Morgne aptur uppvek þu, ofs a Hagkvæmre Tijd, ſo af ofs þa i ſañre Trw, ſijngeſt þier Lofgiørd blijd, g. o. G. i. H.

Eñ þegar endaſt Æfe-Tijd, og kiemur vor Dauda Stund, Veit ofs JEſu, hun verde ei ſtrijd, Værañ gief Sijdaſta Blund, g. o. G. i. H.

A Enda Heimſins ofs ſiert hiaa, Jñleid i Dijrd med þier, Laat ofs Himneſkañ Fognud ſaa, og Frid uñ allar Allder, g. o. G. i. H.

Lofgiørd Fodur og Syne ſæt, Sijfellt verde frameñ, Heilagur Ande vor Huggun mæt, Hlioote Prijs Æ Amen, Gledie ofs Gud i Himnarijke, Amen.

## Kvolld Pſalmur med Ton, JEſu Chriſte þig kalla eg a.

LOf ſie þier Gud fyrer lideñ Dag, og Luckuſæla Stiørn alla, Þu beſur leidt miñ Lijſſins Hag, og laated mier allt vel falla, Þo heſe eg bleſſud Bodord þijn, broted i margañ Maata, hvad eg nu jaata,

 miñſtu

minnstu alldrei a Illverk mijn, unn mier af Syndum lata.

Nu er ad komed Nattar-Pel, Nu vil eg Hvijlder taka, O Gud! sem geymer Israel, yfer mier virdstu vaka, latt þu nu Verndar-Vængenn þinn, Vandlega ad in er giæta, med Svefn-Roo sæta, Veittu mier heilla Hyrder minn, Hiwkrunar Naakvæmd mæta.

Vertu nu minne Hvijlu hia, med heilögum Eingla Skara, Ovine drijf þu alla fra, Enn mig heilann bevara, Lijkamann lattu sofa sætt, Enn Saalena i þier vaka, og Tilsioon taka, Dramm-Ora, Ogn og illa Vært, Alldrei lattu mig saka.

Eg befala þier DRottenn dijr, Dag og Natt Saalu mijna, breid þu yfer mig HErra hijr, Heilaga Blessan þijna. Lijf og Astvine, Eign og Bæ, utann og inann Gaatta, og þa hier hætta, Gud minn eg þier i Geymslu fæ, gior þu hiaa oss ad Naatta.

Eg legg nu samann Augun mijn, i Guds Nafne og Trausie, signe mig heilla Höndenn þijn, Hyrder minn goode og hrauste, signdu Foolked og signdu Hws, Signing þesse oss hlijfe, og Illt wtdrijfe, Signingenn þijn sæte JEsus, signud yfer oss blijfe. AMEN.

## Kvölld Psalmur med Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

O Gud! sem geimer Israel, og öllum Hlutum stioornar vel, af Hiartans Root eg þacka þier, þad i Dag hefur giætt ad mier.

Almattug Hönd og Astin þijn, enn hefur naad og sied til mijn. Lof sie þier Gud fyrer Laan og Hag, Lijfed, Heilsu og Vernd i Dag.

Enn hvad eg hefe aum Mannkynd, aareitad þig med margre Synd, Gud minn blessadur gief þad kvitt, fyrer Giæsku þijna og Nafned þitt.

Naada Blood JEsu, Svide og Saar, Saalar Angist, Kvöl, Hrygd og Taar, breidest wt yfer Broten mijn, og byrge þaug öll fyrer Augum þijn.

Þesse Dagur nu wte er, enn Nattar Tijd ad Höndum fer, Gud minn goodur eg gief mig þier, giættu nu enn i Noott ad mier.

Eg vil ganga til Naada nu, nu bid eg Gud mig geymer þu, vertu þier minne Hvijlu hia, hia mier vak þu og ad mier gaa.

Umkrijnge mig a alla Hlid, Astin þijn og þitt Eingla Lid, sem forde Adsookn Andskotans, Arasum, Flærd og Svikum hans.

Veittu mier DRottenn Værd og Roo, Vek mig i riettann Tijma þo, Lijkamenn sofe sætt sem ber, Saalenn og Andenn vake i þier.

Skijl þu mier þinne Skiepnu Kynd, skapadre eptter sialfs þijns Mynd, Hönden þijn naakvæm hiwkre mier, og hlijfe vid þvi sem Skadlegt er.

Svæfillenn minn og Sængenn mijn, sie önur mino-

Ka

la Hønden̄ þijn, en̄ adra breid þu ofan̄ á mig, er mier þa Værden̄ Roosamlig.

Blessa þu DRotten̄ Bæ og Lijd, blessa oss nu og allan̄ Tijd, Blessun þijna oss breid þu æ, vieguð verdur oss Hvijlden̄ þa, Amen.

## Kvølld Psalmur, med Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

HEf eg mig nu i Hvijlu mijn, Himna Fader ad vanda, yfer mig lijse Asiaan þijn, ei laat mier Satan granda, þo Augun lykest aptur hier, Andan̄ laat vaka samt i þier, Ogn rek burt allra Handa.

Eins sem Daudur a allan̄ Haatt, eg ligg i Hvijlu miñe, hefur nu ecke Hønden̄ Maatt, nie Hugurin̄ veikur Siñe, eg veit ei hvørt mier audnast æ, aptur ad Morgne Lioosed siaa, treyste eg þo Tilsioon þiñe.

Hiartad bid eg ad hrærer þu, sem heiløgum styrer Anda, DraumOrum burtu døprum snu, og Draugum allra Handa, Eingell þin̄ drijfe æ mier fra, Andskotan̄ sem þar stundar æ, Grædugur þijnum ad granda.

Bidiande framar Blessan þijn, blijde Fader med Taarum, sømuleidis þu siaa til mijn, vid Satans fordaArum, hier ligg eg eins og laten̄ Man̄, Lijfs Biørg øngva sier veita kan̄, hladen̄ med Synda Saarum.

Umhyggiu Sorg og Angred med, allt nu i burtu fliote, halla eg mier so hægt a Bed, Hvijldar i Nædum niote. Po sijge hægur Svefn mig æ, samt vake Aunden̄ DRottne hiaa, hans alldrei Heidurin̄ þriote, AMEN.

## Eitt Kvølld Psalmur, med Ton, Christur reis upp fraa Daudum.

DAgs Vøku er en̄ nu Ende, en̄ Nætur Svefn fyrer Hende, allt Stundlegt hefur so Umbreyting, en̄ eilijft Lijfsed Stadfesting, Kyrie-eleison.

Eilijfe Einvallds HErra, eg vil þier Packer giøra, fyrer JEsum sæta Sonen̄ þin̄, Saaluhialpara og Hyrder min̄, Kyrie-eleison.

Pu hefur a þessum Dege, Pyrmt mier en̄ glatad Eige, an̄ast so sem þitt einka Barn, O Gud hvad þu ert Naadargiarn, Kyrie-eleison.

Jeg vil þo aumur jaata, jeg maa ei Barn þitt heita, haatt fyrer þier i Himinin̄, hef eg þraatt syndgast Fader min̄, Kyrie-eleison.

Pu gafst mier Blessan þijna, þa Naad hef eg Syndum launad, i Dag sem øll mijn Æfe-Kvølld, æ! mijna Pusund Punga Skulld, Kyrie-eleison.

Fader O Fader Naada, Fader Sañleiks og Daa-

da, fyrergief øll mijn Afbrot leid fyrer Arnan JEſu Pijnu og Deyd, Kyrie-eleiſon.

Añars eg ei maa ſofa, ellegar Naader hafa, hver vill vænta ſier Værd og Frid, vera oſaattur þo vid Gud, Kyrie-eleiſon.

Gleym þu þvi Glæpum mijnum, Gud miñ, eñ Fadme þijnum, Vef þu uñ mig, ſo vil eg trauſt, vel ſofa og hvijlaſt Haaſkalauſt, Kyrie-eleiſon.

Saal, Æru Hud og Lijfed, og allt þad þu hefur mier giefed, gief eg i þijna Giæſku Vørn, Gud miñ vardveit þu øll þijn Børn, Kyrie-eleiſon.

Eg fel i Umſioon þijna, alla Samchriſtna mijna, Heilage, Heilage, Heilage, Himens og Jardar Stioornare, Kyrie-eleiſon.

Meinum og Myrkra Vellde, myklu Satans Ofbellde, og øllu Illu oſs frelſa fra, Fridar Eingell þiñ ſie oſs hia, Kyrie-eleiſon.

O! JEſu allrar Millde, Oſkar mijn Saal og villde, Himneſka Roo og Hvijlder faa, Heilagra þiña Lande naa, Kyrie-eleiſon.

Gud giefe oſs goodar Nætur, Gud hiaalpe oſs vel a Fætur, i Nafne Fødurs og Sonar, og Anda Guddooms Haatignar Kyrie-eleiſon.

## SALVE.



SALVE JEſu Chriſte vor Frelſare, þu ſem alla Guds Reide yfervañſt,



ſo ad Adam i þier Naadena fañ. Þu ert vort Lijf og ſæta Trauſt, bæde i



Mootgange og i Lyſt, a þig vier treyſtum O JEſu Chriſte, Vier køllum til

þijn i vorre Naudsyn, sem erum fallner i eilijfan Deyd, med Evu allra vorra Moodur. Vier køllum til þijn, af þessum grætlega Dal, vier sijtum og græt-um soddan Fall, þo ertu fullur af Guds Giæsku og Naad, þvi hiaalpa oss þu Naadarfulle HErra. Eja Christe, vor Tulkur ertu ordenn til vors Fødurs, forlaat oss saker þijns Dauda allar vorar Synder, og venda þijnu naadarlega



Andlite til vor, Vesællra og Aumra, og ad þu Milldelega jafnañ vilier oss



Myskuna. O JEsu! kieñ oss ad þeckia Fødur þiñ, hvørs Naad og



Giædska i þier skijn, Laat oss so þeckia hañ i riettre Trw, ad vier meigum





hañs blijda Andlit skoda, og sijdañ med þier og honum vera. JEsu



Christe Guds Son, Herr vora Hiartans Von, og skil oss vid vor forþientu



Laun, þu sem frelster Adams Kyn, Heyr vora Gudlega Bæn, og sem vier



trwum þier, þu oß vel reynst. Undertrod þu hañ gamla Högg-Orm, so hañ



meige oß ecke farga, sem hañ hefur giort vid marga. O Abrahams Sæd!



gleym þu oß ecke, helldur skipt med oß þiñe Næd O Jomfrwr Mariu Son!



O Kong Davids Eilijfa Kyn! O JEsu Christe! heyr nu vora Bæn.



Oh! goode JE su.

2. Vers.

JEsu þu ert vort Traust, heyr vora grætlega Raust, og Naada oss alla Efalaust. Þu ert Emanuel, Upplijs vort myrkva Þel, og uppkveik Naadar Lioos i vorre Saal. Þu ert Jacobs Stiarna, og Israels Kvist, sem Balaam sagde fyrer vijst, og Esajas ei allra sijst. Þu ert sw Kiellda, sem Naaden wt af spratt, sem Spaameñerner hafa sagt. O Jomfrwr Marin Son, O Kong Davids eilijfa Kyn, O JEsu Christe heyr nu vora Bæn. Oh Millde JEsu.

3. Vers.

JEsu þu ert vor Vegur, og til Himenfens Stijge, laat oss ei fara i O-Vege. Þu ert Paradijsar Port, laat oss ei villast burtu, i þessu Villu Myrkre svørtu. Þu ert ein føgur Sool, skijnande og klaar, sem i Heimeñ skijn, sijdla og Ar, hvør hana sier, utañ Skada gaar. Þu ert þad Guds Lamb, sem fyrer oss i Neyd kom, skil oss vid þad gamla Dramb. O Jomfrwr Mariu Son, O Kong Davids eilijfa Kyn, O JEsu Christe heyr nu vora Bæn.



Oh! Sæ - te JEsu Chri - ste. Ha le lu - ja.

Sie Nafn DRottens JEsu Christi Blessad, Haleluja.
Nu hiedañ af og ad Eilijfu, Haleluja.

HEyr HErra Gud, Hvør ad Dijrdarfulla Nafn DRottens Vors JEsu Christi, Eingietens Sonar þijns, Giørder øllum Trwlyndum Þiennum þijnum, til hiñs hærsta Sætleika, Hiartans Astundunar Elsku-

legt,

legt, Eñ Ohreinum Andum Hrædelegt og Skielfelegt. Veitt u oss Lijknsamur, Ad aller þeir, sem þetta Sæta Nafn JEsu goodfwslega Vegsama hier a Jørdu, Medtake Sætleika Heilagrar Huggnunar hier i Heime, Eñ ødlest i Okomnum, Eilijfañ Føgnud og Glede. Fyrer hañ sama, etc.

## Bæna og Packlætis Psalmar a Morgna.

### Morgun Saungur.

Ton, Guds Son kallar, Komed til mijn.

DAgur burt tekur dima Nætt, ONottins Foolk sparneitt vakna brætt, og heidra Gud þiñ HErra. Oteliañleg øll Eingla Hyrd, æn Aflæts sijngur Gude Dird, Alls Skapara og þeirra.

Haneñ og allskyns Fugla Saung, Fagurt vegsama Gud med Saung, sem þa klæder og fedur. Himnar, Jørdeñ og Hafed vijdt, Hætign og Lof Guds boda tijdt, þioona hønum þar medur.

Aullum Heims Skiepnum er so vart, Ein og Sierhvør med siñe Art, Skijrt gøsgar siñ Skapara. Þu mætust Skiepna Madur hvør, Mælsku og Vits sem hefur Kiør, Varast Viliañ ad spara.

Hugleid, ad Gud vid siælfañ sig, Samlijkañ hefur skapad þig, þvi giør hañ þeckia kyñer, So þu elsker af Hiarta hañ, Hefier sem Muñur orka kañ, Ast hañs og Fylge siñer.

Upp frá þvi Giøf hañs Anda hlantst, Eirneñ hañs Sonar Nædar nautst, af Hiarta þacker hønum. Vel siilltur jafnañ vak og bid, Vanda hañs Stiett med helgum Sid, Sem hæfer hañs Læresveinum.

Uñ HErrañs Komu ecke veitst: æsetta Stund hañs ecke leitst, Hañ baud þvi þier ad vaka. J Sætt mæla Guds þig sida ætt, Sijng hønum Lof af Hug og Mætt, miñst hañs Millde ad þacka.

O Vor Fader eilijfe Gud, Eg þacka þijna Hiælp og Næd, Velgiørder, Vernd og Gæfu, sem þu hefur mier og mijnum veitt, Mædu, Voda og Eymdum eydt. Lof sie þier ad Eilijfu.

Fyrer JEsum sæta Soneñ þiñ, sem med þier lofar hvørt Eitt Siñ, Eingla Her allur samañ. Hiælp HErra, ad eg sem sw Hyrd, Siinge þier jafnañ Lof og Dijrd, Nu og æn Enda, Amen.

## Eirn goodur Morgun Psalmur, Ton, Eirn Gud Skapare allra sæ.

KLaar Dagur og Lioos nu komeñ er, Kiære Fader þig bidium vier, Geym oss i Dag vor Verndar-Mañ, Fra Voda sem oss skada kañ.

Still vora Tungu ad ei styggest þu, Stijrer Himna,

na, og vardveit uu, Augu vor allra eirnen med, So eckert fære þau Fænijtt sied.

Vor Hiørtu giør þu og Hugskot hrein, So hverfe af þeim øll Synda-Mein. Ofneytsln tak oss eirnen fra, Og alla Gyrnd er oss skada mæ.

Nær Dagur þesse nu lijdur hier, Og Nætur Tijmi enn komen er. Ad vier aller þier þockum þa, Þu sem oss geymder Illu fra.

Sætt Lof sie Fødurnum sialfum tied, Hans Syne og Helgum Anda med, Sem helldur yfer oss Hlijfdar-Vørd, Hønum sie eilijf Packargiørd, Amen.

## Same Psalmur, med ødrum Hætte uppa Dags-Tijdernar.

Ljoosan Dagen nu lijta mæ, Lifanda Gud vier køllum æ, J voru Starfe virdest fra, Voda øllum oss frelsa fra.

Stijre Tungu a helgan Hætt, ad Heiptar Kijf ei spille Sætt, Giæte Sioonar og giefe Mætt, Glise Heimsins ad hafna brætt.

Hrein verde jafnan Hiartans Root, hverse Omensta leid og lioot, Fylle og Sælld ad falla i moot, A Forse Hollds mun vinna Boot.

Ad þa Daguren hætter hier, og hefft Noottena, sem epter fer, Sønum Gude Lof syngium vier, Sidader vel, sem skylldugt er.

Heilagur Ande er til Sans, Eitt med Fødur og Syne hans, Virdest þo byggia Briooslied Mans, Blessadur kome til þessa Rans.

Munnr og Tunga, Sined, Sæl, Samhlioode æ vid Gudlegt Mæl, Kiærleikur loge, koolne Tæl, Kveike Nænunga soddan Bæl.

Þu sane Gud og DRotten bijr, Dæsamlega er Skiepnuim snyr, med fegrum Liooma Morgun bijr, Middagur er og eirnen hlijr.

Med Sundurlyndum set þu Grid, Svipt af Ohreinrar Elsku Sid, Lijkømum halltu Heilsu vid, Hiørtunum gief þin Andar-Frid.

Obreytanleg a alla Lund, Efter Skiepnur þijn Vollduq Hond, Liooss Dagsins þa lijdur Stund, Lætur hvmna i sama Mund.

Virdstu oss biart ad veita Kvølld, ad varest Lijfed Synda Giølld, þegar ad liner þesse Aulld, med þinar Dijrdar Hlijf oss Skiølld.

Adur Daguren endast skiær, allsvalldande Gud bidium vær, Naad þijn, hvør best oss frelsad fær, fylgiande oss, sie jafnan nær.

Svefn-Orum ad burt svipter nu, Sioonar Ognum oss forda þu, Flærd Ovinar so fra oss snu, ad flecke ei Hollded Blecking sw.

Vollduge Fader fullgiør þad, fyrer þijns Sonar JEsu Naad, med Helgum Anda a Himne og Lææd, hafande med þier eilijft Naad.

## Eñ eirn Morgun-Saungur, med þad Lag, Christe þu klaare Dagur ert, etc.

STanded upp Christi Børneñ blijd, byrter sig Morgun Stiarnañ frijd, Lystelegasta Lioos hun er, Liooma um̃ allañ Heimeñ ber.

Klaar Morgun Stiarnañ kom þu sæl, Christ vorn HErra oss boda skal, Grædare vor er Guds Son kiær, giarnañ þig af þvi losum vær.

Af þeirre Stiørnu þier mijn Børn, þecked Christ JEsum HErra vorn, Milldaste er þad Mariu Son, med sijnu Orde giefur oss Sivon.

Morgun-stiarna Guds Ord þu ert, alldrei vilium oss horfeñ siert. Ætijd vertu vort Andar Lioos, ellegar saaga Myrkureñ oss.

Med Lioosma þijnum lys oss hier, Lausuara vorn so þeckium vier, mijnka þu i oss Myrkra Volld, svo meige Elskañ ei verda kølld.

Velkomeñ siertu Dagur dijr, dim̃ Nott fyrer þier burtu flijr, hreiñ Lioome oss i Hiartad iñ, Himneske jafnañ Geysle þiñ.

A þig vier trwum JEsu Christ, med Bloode þijnu hefur oss leyst, til Heimsins Enda oss siert hiaa, Arf Himnarijkis laat oss faa.

JEsu þu ert vor saña Sool, sa þier trwer, fær eilijst Skiool, Arfa lietst Sælu eilijfrar, allre Christne sem hweñ var.

Hædst Lof og Þock af Hug og Raust, hier Stundleg, sijdar Endalaust, fyrer Naad Myskun og Fullting, Fødur Syne, og Anda sie, Amen.

## Eñ eirn Lof-saungur a Morgna, Ton, Dagur og Lioos þu DRotteñ ert.

BJartur Dagur nu byriar hier, Brædur Packlaater verum vier, Milldum Gude hvørs Myskun stoor, miøg vel þessa Nott giætte vor.

Lofum og dijrkum aller nu, Eirn Gud med Muñe Hug og Trw, ad virdest med Volldugre-Hønd, vernda i Dag vort Lijf og Ønd.

O Gud vor Fader eilijfe, sem af þiñe Myskunseme, med Hiaastod, Krapt og helgum Maatt, hefur oss geymt um̃ þessa Naatt.

So hlijf oss i Dag HErra miñ, hiaalpa oss fyrer Soneñ þiñ, laat ei svijkia oss Satans Taal, sem sæker epter vorre Saal.

Veittu oss DRotteñ Vernd og Hlijf, Vardhalld siert oss a hvørre Tijd, Kongur, Skiool, Stioorn og sterka Vørn, siid og leid oss þijn aumu Børn.

O Gud þier giefum oss i Foorn, ad þu Verk, Maal og Huga vorn, i Lærdoom þijnum leider hier, Lifnadur vor so þockneſt þier.

Medtak þa Foorn og Morgun Boon, Millde Fader fyrer þiñ Son, ad vier so þyggium þijna Gisf, þier syngium Packer, Dijrd og Lof.

Eirn

## Eirn goodur Morgun Psalmur, wr Dønsku snweñ.



Dagur i Austre ollu, uppreñande nu skijn, So Lijf giørvallt fram=
Gud miñ fra Slæpa Føllum, oss geime og Diøfuls Pijn.



gaange, ad Glede og þiñe Villd, Eñ Illu ei aahaange, oss efle Naad þijn milld.

Þier vil eg þijde Fader, Packer og Lofgiørd tiaa, þu veitter i Noott mier Naader, og Naudum svip= ter fra, hefur a hvørre Stundu, Hiaalp og Naad mier andsynt, Meineñ Diøfulsins mundu, mier ell= egar hafa tijnt.

Framar eg bid med Blijdu, þig blessud Voneñ mijn, vernda fra Vesølld og Strijdu, ad Veniu Børneñ þijn. Skijl oss under Skugga, Skapareñ Vængia þier, sem Hænañ Unga huggar, høfum vier Traust a þier.

Hrytt burtu Heypt og Bræde, og Heimsku i Dag fra mier, so i Stilling stioorna næde, ad Starf mitt lijke þier, og Hiartad heilags Anda, hæleit verde Bygd, laat mig stødugañ standa, i Strijde og allre Hrygd.

Mig hept fra Holldsins Gyrndum, svo Hiart= ad ei festest a, Heimsins Blooma blindum, og bl= eckest þier i fra. Pitt Riettlæte virdst mier veita, vid hallt i Trwñe mier, so eg ødlest Ydran heita, i An= da og Lijku hiaa þier.

Leidena sijn mier saña, i Sorgardalnum hier, Diøflenum bæg og baña, þijn blessud Ord gief mi= er, med allre Trw a treysta, tiaa og hallda þig, fyr= er þañ sem Piood hefur leysta, þar til þa styrk þu mig.

Ad sijst mig svijkia meige, sw Satans vonda Fl= ærd, nie fra Trwñe teige, med Taale og Maña Slæ= gd. Laat mig þig eirn aakalla, i Anda og Sañleik best, og alldrei fra þier falla, fyrer nockurn Kiærleiks Brest.

Ad elska Aeruþijna, Embætte ad stunda mitt,

HErrum

HErrum Hylle ad sijna, sem helldur Bodord þitt, gief mier þess ad giæta., og Gagnsemd øllum tiaa, Volndum Biørg ad bæta, med Blessan þad eg maa.

Dijrd þijn alldreige dvijne, OMotteñ Gud Fader hia mier, þijns Sonár skiært Lof skijne, Skylldañ þad krefur og ber, hier med Heiløgum Anda, Haaleit Tign sie veitt, mig fyrr þu Faare og Vanda, og frida nũ sijdér greidt.

Gief ad ei kolne Christnum, Kiærleikssins Hite hreirn, ad vier i Trwũe ei visnum, vernda þu hvørn og eirn, svo i Gudspialls Lioose giætum, þier Gude Packer tied, og i Sonar þijns Fadme sætum, sijdañ ad hvijlast med, Amen.

## Ein Morgun Bæn fyrer allra Handa Stiettum.



Himneske Gud vor HErra, Heidur og Lof sie þier, Lof Dijrd med sætum
Fyrer JEsum vorn Frelsara, þañ Fader gafstu mier.



Saung, Sijd og Ar þier seige, So og a þessum Deige, og øll mijn Æfeñ laung.

Misg vel þijn Myskun gooda, mig hefur þessa Naatt, Fraa Symd, Faare og Voda, Fordad a allañ Haatt, Af Hug þig HErra bid, Myskun þijn mier til giefe, Moodgad þig jafnañ hefe, Med allskins illum Sid.

Eñ i Dag Gud Eilijfe, Eins bid eg, þu geymer mijn, Vid Satans Svikum og Kijfe, Synd, Smaan og allre Pijn, Elldsgang og Ovedre, fraa Aurbyrgd og Ofsrum, Illum Dauda og Snsrum, Freisting og Faangelse.

Holld, Saal og Heilsu mijna, Heidur, Gotz, Kviñu og Børn, eg fel i Umsioon þijna, og Under-Mañ miñ hvørn, og alla Andnu mijn, Fedgin, Frændur og Vine, med Foolke þeirra og Kyne, giørvallt er Gaafa þijn.

Eingell þiñ uñ mig blijfe, alldrei hverfe mier fra, vid Satans Svikum hlijfe, sem til mijn vilia vaa, hier ad hañs Illskañ lioot, i Syndum sijst mig veide, Saal og Lijf ei leide, i Hrak og Heliar Noot.

Eirn Gud læt eg øllu raada, allt i hañs Vallde er, vill mig vernda og Naada, vel tekst hvad ætlar sier, Reide eg mig þvi a þañ, Æse mijn Aund og Lijfed, i hañs Valld sie giefed, verde mier sem vill hañ.

Þøckum, heidrum af Huga, HErra vorn allañ Tijd, Guds Laan og Giæsku nooga, giefur oss Ar og Sijd, af Audmykt Oskum þess, þa hætter Holldleg Æse, Himna Arf oss giefe, Fognud og Fridar Sess.

Gud veite Kyrkiu Vallde, ad vanda helga Stiett, vid Lijf og Heilsu hallde, hañs Nafn ad gøfge riett, og Fvolked fræde nu, med hreinu HErrans Orde, Hræsne øllum forde, Villum og Vantrw.

Eins vora Vallds-Meñ geyme, og vernde Almwgañ, Bændur og Børn i Heime, Bw-Foolk og Under-Mañ, þijn Hønd þeim hlijfe vel, Plaagum Haaska og Hwngre, Hernad og Orbyrgd þwngre, og allre Eymd og Kvøl.

Uppa þad seigium Amen, efande þetta sijst, giører þad Gud alltsamañ, geingur sem hønum lijtst, sijdañ i siñe Stiett, sijn Verk sierhvør giøre, sem Gud hañ til kiøre, fast ræke Frid og Riett.

Heyr vor Himneske Fader, helgest þitt Nafn og Ord. Þitt Rijke þiggium glader, Þiñ Vilie skie a Jørd. Veit oss i Dag vort Braud, Forlaat oss vorar Synder. Og Freistne fra oss hrinder. Leys oss af allre Naud, Amen.

## Eirn goodur Morgun Psalmur, epter Dønskuñe wtlagdur.



Þañ Signada Dag vier siaaum nu eirn, og Soolar Geyslañ frijda, DRotteñ laate i Gud lijse oss øllum alltijd hreirn, So ad aukest Glede og Blijda.



Dag ei neirn, detta i Skøm, Lost nie Kvijda.

Þañ

Pañ signada Dag, þa signudu Tijd, sem fæddest vor HErrañ mæte, kom ofañ þad Li
vos og Leyptran frijd, sem liooma r um Veralldar Stræte, þesse hin fagra Byrtañ blijd, er Braut i eilijft Sæte.

Gud Fader, Gud Son, Gud heilagur Ande, geyme med Einglum sijnum, oss i Dag fra dyprn Grande, Diofulsins Nete og Pijnum, fyrer hañs Aufundar Illsku Blande, vora Aund og Lijf fra Meinum.

Kvøl vors HErra og Krossens Pijn, sem keypte oss fra Danda, set eg i Dag millum Diofla og mijn, hañs Dreyra Fossen randa. Þad blessada a mier Blodod hrijn, sem Booten er mina Nauda.

Po Grøs og Lauf sem grænu Trie, Grivotid og Sandar aller, mæla kyñe ef mætte skie, med Eingla Røddu snialler, Lofed noog alldrei læta i tie, uñ Lausnara vorn med Spialle.

Dagur so læmgur alldrei er, ad ei med Kvølldr lende, Danden Lijfed dregur med sier, dapur i burt wr Hende, vier skulum wt, eñ Grøfeñ er giør, þar giesst ei añar Ende.

Gud giefe þad, so þvonum vier, i þessare Verølld iñe, ad Guds Son med Trwñe take hvør, so traustlega Myskun fiñe. Þa Heimuren fra oss hallar sier, Hiaalp vor alldreige liñe.

Nær sørum vier i vort Fødurland, og wr Færenn skulum venda, gief eg mijna Sælu Gude i Hand, i Glede Himerijkis senda. Gud Fader, Guds Son, Gud Heilagur Ande, giefe oss goodañ Lijfs Enda. AMEN.

## Morgun Psalmur, med Ton, JEsu Christe þig kalla eg aa.

Blessada Preñing blessud sie, Blessande Hage mijna, Lijkn og Raad sem mier lietst i tie, Lidsemd og Myskun þijna, Lijf mitt og Saal uñ lidna Nætt, Leysti hefur eñ fraa Vanda, og illum Anda, So i Dag hef eg Megn og Mætt, i mijnu Kalle ad standa.

O Hiartans Fader eg bid þig, yfergiefdu mig eige, Añastu un ad ølln mig, A tilkomanda Deige, Halltu so jast i Hønd med mier, ad hende mig Stijsen eingeñ, nie Slæpa-Seinge, helldur hvad sem eg forma sei, Farsælest vel og leinge.

Eg befel mijna aumu Aund, og Vesælañ Lijkama, Og þurfanda Lijf i þijna Hønd, þeñañ Dag og hvørn Tijma, Hegdan, Vit, Skyn og Hiartad kallt, Hurnn, Skilning og Siñe, sem Maal og Miñe, Ord og Giørder og Asorm allt, Iñlæse eg Tilsivon þiñe.

Blessa þu Iñ- og Ut-gaang miñ, Og allt hvad eg skal viña, Vidmoot og Hegdun sierhvørt Siñ, Gess og Gaang Foota mina, Idiu, Vilia, Raad, Asetning, allt hvad eg er og Orka, til Vits og Verka, I Utsør geym mijn allt uñ krijng, og giør þa Trwna sterka.

sterka.

Hvad hier til Virdar eirn Gud er , og til Velferdar miñar, frañkvæm þad allt i Aumum mier, af Nægd Myskunar þiñar, eñ ef i Dag þijn Bodord brit, Breyskleika mijnum vægdu, og Hegning hægdu, Hiælp og Nad þiñe Fader slijt, forþienta Reide Lægdu.

Eingeñ er Gud añar eñ þu, og eingeñ Hiælpare Maña, þvi bid eg þig i Naudsyn nu, Nad þijna lat mig faña, geym mijn fra allre Glæpa Slood, gief mier þitt Ord eg lære, og Avext fære; Fyrer JEsu Blessada Blood, Bænheyr mig Fader kiære, A M E N.

## Morgun Psalmur, med Ton, Oss mæt Auna kalla.

HEidur og hæleit Æra, Heilögum DRottne sie, Sem oss vañ Endurnæra, med allskins Roosemе, Veitande Værd og Næder, veriande Myrkra Her, ad oss so giörla gæder, Grandlauser vökum vier, Gud miñ oss geymer vel, Gud blessar Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

Hvør kañ ad Hugsa og Reikna, Hvad margt Eitt Andartak; Liwfur DRotteñ oss lijknar, Og lætur sofa med Mak, Elur so Oñ a medañ, öllum sem treysta a hañ, þar til hañ hiælpar hiedañ, J Himneskañ Dijrdar Rañ, Gud miñ oss geyme vel, Gud blessar Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

Ei kañ eg wt ad skijra, alla þa stooru Nad, Sem Guds mijns Giæskañ hijra, Gruñlaus hefur mier tiæd, Eg gledst i Gude mijnum, þeim gooda Lijfsins Bruñ, Sæl mijn med Sætleik sijnum, Sijnge med Hiarta og Muñ, Gud miñ oss geymer vel, Gud blessar Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

J JEsu Edla Nafne, Eg byria þeñañ Dag, blesse hañ öll mijn Efne, Andar og Lijfsins Hag, Fra öllum illum Kindum, Adstod hañs hlijfe good, Forde vid Falle og Syndum, Forlijke mig hañs Blood, Gud DRotteñ geyme oss vel, Gud blesse Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

Himin, Haudur og Geymar, Heitt sem eirneñ Kallt, Og allt hvad þar iñe sveimar, Hönd DRotteñs geyme þad allt, Einkum hañs Edla Christne, Æðre og Lægre Meñ, Verndest vid Voda og Freistne, Velsigne oss Eining þreñ, Gud DRotteñ geyme oss vel, Gud blesse Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

Lofning og eilijf Æra, ædstum Födur sie, samt hañs Synenum kiæra, sem er vor Frelsare, hier med heilögum Anda: Hiælpe til Preñing skiær, i Fögnude Lijfsins lenda, Loofs Deige hvoriañ vær, Gud DRotteñ geyme oss vel, Gud blesse Jsrael, Guds Börn Gude eg fel.

Morg-

## Morgun Psalmur, med Ton, Endurlausnaren vor JEsu Christ.

GUde sie Lof fyrer Lioosed gladt, Liden med Værd er þesse Noott, Eg vil upp rijsa, og minn Gud prijsa, Kyrie eleison.

Hvørs Verk ad eru Himen og Jørd, hier med er Lioos og Dimmann giørd, moot mørgum Voda, Monnum til Gooda, Kyrie eleison.

O minn Heilage HErra Gud, Hiartans Dag-Stiarna Sæl og Glød, Upp upp mijn Saala, umm hana ad tala, Kyrie eleison.

So marga Lofgiørd seige eg hier, sem þu gafst Andartaked mier, umm Æfe mijna, og alla Blessan þijna, Kyrie-eleison.

Eg bid þig nu audmiwklega, Iklæd mig Christnum Her-Skrwda, send Sigur Hreiste, Sigraren beste, Kyrie-eleison.

Mijnum Misgiørdum Gud minn gleym, Gud minn laat mig ei deya i þeim, mijn Verk ad stunda, veit mier aan Synda, Kyrie-eleison.

Forsorga þu mig Fader sæll, fyrst eg er þinn dijrkeyptur Þræll, Saal og Lijf sedier, Samvitskuna gledier, Kyrie-eleison.

Laat mig so sem þu vera villt, verde Naadar-Heit uppfyllt, a mier og mijnum, med Krapte þijnum, Kyrie-eleison.

Gief mier ad skynia endast a, Æfe-Dagar og Lijfsins Stiaa, minn JEsu goode, mier øllum raade, Kyrie-eleison.

Eg fel mig og øll Guds Børn, i JEsu Naadar-Skiool og Vørn, i Himnarijke, hann oss inntake, Kyrie-eleison.

Gude Fødur og Syne sie, samt helgum Anda verkande, Heidur og Æra, Hvijld fyrer væra, Kyrie-eleison.

## Morgun Psalmur, med Lag, Himna Noos, Leid og Lioos.

DAgur er, Dijrka ber, DRottenn Gud minn, Noott er lidenn, Lof sie Gude, Lioos skijn, Gledur enn, marga Menn, Myrkra Flootten, Lijf og Saal, Lijka Maal, Lofe DRottenn.

Fyrer þinn Son, Sælu Von, Sie þier hædst Lof, Mig þu sparder, Meinum varder, minn Gud, Mier gafst Frid, Lijka og Lid, Leid so Noottenn, Lijf og Saal, Lijka Maal, Lofe DRottenn.

Mig hefur leidt, Meinum eydt, Myskunenn þijn, Hvøria Stundu, A Heimsins Grundu, hier til, Afvend þier, Ei fraa mier, Nær aflegg Þroottenn, Lijf og Saal, Lijka Maal, Lofe DRottenn.

Eg bid þig, Annast mig, Enn i Dag nu, Fyrer hasæta, Saalar mæta, Son þinn, Veit mier Naad

Vernd og Raad, Vægd og Lid sin, Lijf og Saal, Lijka Maal, Lofe DRotten.

Helgan Dug, Hreinan Hug, hiaa mier uppkveik, Pier ad hlijda, Lijka lijda, Laan Da 18, Og Pwngan med, Polugt Gied, Preya hlijden, Goodan Dag, Gladan Hag, Giefe oss DRotten.

Hvad eg hier, Forma fer, Farsælest vel, Utgaang, Framgaang, Jngaang blessa Æ min, Og i Raad, Allt mitt Raad, Anast hvert Sin, goodan Dag, gladan Hag, Gief oss DRotten.

Eg fel hier, allt hvad mier, aadur gafstu, Sie hin Dugur, Mier maattugur, Min Gud, Bæte saa, Best sem maa, Breyskleika min, Goodan Dag, Gladan Hag, Gief oss DRotten.

Lijf og Aund, Efuen vønd, Eg nu hier fel, Aullu Jllu, Voda og Villu, Ver mig. Soome og Dijrd, Sie hier skijrd, Sijfellt Gud min, Lijf og Saal, Lijka Maal, Lofe DRotten.

## Lof-Saungur þeirra Heilogu Lærefedra, Ambrosii og Augustini.

Fyrste Kor.



HErra Gud þig heidrum vier,



Þig Fader Eilijfe.



Aller Einglar og Himna Her,

Anar Kor.



HErra Gud vier þøckum þier,



Vegsamar allt Jardrijke.



Og hvad til Heidurs þienar þier.

Fyrste Kor.



Þig Cherubim og Seraphim,

Añar Kor.



Lofa jafnlega med Røddu sijn.



Heilagur er vor Gud.



Heilagur er vor Gud.

Baader Korar til samans.



Heilagur er vor Gud DROTTeñ Allsheriar Raad.



Þijn Guddomlega Makt og Dijrd,



Meire er en Himen og Jord,



Dijr Søfnudur Tolf Postula,



Og Lofleg Tala Spamañaña.

Fyrste Kor.

Og Pijslar-Votta Fylking froom,

Pijn heiløg Christne øll a Jord,

Pig Gud og Fodur Almaattugañ,

Og helgañ Anda sem huggar best,

Pu Dijrdar Kongur JEsu Christ,

Añar Kor.

Sijngur þier Lof med sætañ Room,

Færer þier Lof og Packargiørd.

Piñ Eingieteñ Son, þier kiærastañ.

Eirn Gud og Preñañ medkieñest.

Eilijfur Guds Sonur ert þu viist.

Jom:

Fyrste Kor.



Jomfrwr Lijf hefur þu ei forsmaad,



Þu hefur Daudañs Afle eydt,



Þu situr aa Guds hægra Veg,



Þadañ kiemur þad er vor Trw,



hialp oss þijnum þionum Herra Christ

Añar Kor.



So Mañkyn leyster med þiñe Naad·



Og i Himna Hvijld Utvalda leidt.



þijns fødurs dijrd er þier sameigeñleg,



Lijfs og Dauda ad dæmer þu.



Hvoria med Bloode hefur þu leyst.

Første Kor.



Laat ofs a Himnum ødlast Dijrd,



Piñ Søfnud HErra hoolpeñ giør,



Hlijf þeim stioorna og æ siert hiaa,



DRotteñ þig lofum vier Daglega,



Hlijf og geym ofs a hvørre Stund,



Myskuna ofs O Millde Gud!

Añar Kor.



Eilijflega med þinne Hyrd



Og Blessa þa sem þiñ Arfur er.



Og Æfennlega upphefier þa.



Og dijrkum þitt Nafn Æfeñlega.



Vid Jllgiørdum og allre Synd.



Og Naada ofs i allre Naud.

Fyrste Kor.




Aññar Kor.




Baader Korar til samans.



A - men.

## Viku Saungur Kvølld og Morgna/

Utdreigeñ Af
Fyrsta Skøpunar Verke. Fyrsta Orde Christi a Krossenum,
Og Fyrstu Bæn i Fadervor
Af Saal. Sr. Jone Magnussyni i Laufaase.

Suñu

# Suñudags Morgun Psalmur.

## Ton, O Gud vor Fader sem i Himerijke erf.

MAfn Guds sie blessad, Nu er Vika nij komeñ, hañ Hellsta og Fyrsta heñar Dag, Helgañ Suñudag kollum, A hønum giørdest Himin i Fyrstu, og Haudrid señ, Par med komst og þad Lioos i Lag, sem lijser eñ Augum øllum. Vier trwum aller a eirn Gud hañ, allt þetta sem skapade, Hañ og vid Makt þvi hallda kañ, Hvoosa skal þeim Verknade, Helgadur DRottne, hvør eirn Mañ, hier og i alla Stade.

Dijrd i Upphædum, Dijrdarfullum DRottne sie. Orded vard Holld og hiaa oss bioo, hvørs Fullnad eg a treyste. JEsus sa Guds og Jomfrwr Son a Jardrijke, Saklaus sem Lamb fyrer Synder doo, a Soolar-Dag upp sig reyste. Med Fyrsta Orde a Krosse klaar, Kvølurum Lijknar beidde, læknade øll vor Saalar Saar, Suñudags Hvijld tilreidde, i Sigur upp Daudans svelgde Faar, Satans Makt alla deydde.

Haatt Lof sie Gude sem hefur oss alla helgad sier, fyrer sitt Ord og Andañ med, er yfer Skijrn Vatns sig færde, eins og hañ nærde Afgrun dymt i Upphafe, a Postulum hafa Meñ Svip hañs sied, sierhvørn a Twngur lærde, Endurnijar hañ hvørs þess Hag, er Hvijldar Miñing Guds prijder, Himneskur Blær med Himneskt Slag, Holldlegg Vanart þijder, Andlegum Sælañ Andlaats Dag, eflaust sliptar um̃ sijder.

Heilage Gud, sem Himna stijrer hææum Tron, J Helgedoomenum Heimile aatt, Og hiaa þeim, sem Synder graata, Fader vor ertu fyrer þijns Sonar Fridar-Boon, Oss hefur teked alla i Saatt, Er Trw i Stadeñ jaata, Preñrar Einingar þitt Nafn aa, Par fyrer af Hiarta bidium, Ad þad verde oss helgad hiaa, Helgudum Fridar-Nidium, Vanhelgan allre vijk þu fraa, Veit oss ad Heilagt ydium.

J Skijrneñe hefur oss Skaparans Fijngur skrifad iñ, i Preñingar Nafne i þad Mañtal, er hvæst i Guds Sonar Bloode, Ceremoniu settre fylger Sattmaalið, So vier vitum hvad vera skal, Veit oss þvi DRott eñ goode, Hlijdneñar Anda Haattalag, Heidur þiñ fremst ad ræktum, Helgum þitt Nafn og Hvijldar-Dag, Hiaalpræde til þijn sæktum, Neaunga vorra hlijfum Hag, Hafnande Vansa og Klæktum.

Siaa oss og øllum Syndugum Møñum sæta Vægd, Piaaer oss Dagleg Prælkan hier, Par fyrer Hvijldar leitum. Laat þu oss fiña Lijkn hiaa þier og Hugar-Hægd, Nu medañ Tijmeñ Naadar er, Nafne Christnu sem heitum, So ad vier flijum Faar og Bañ, Eñ Fridur helgra Gudspialla, Endurnære vorn Jñra Mañ, Jtre nær fraa skal falla, Hvijldar-Dag sijdañ Himneskañ, Holldum um̃ Eilijfd alla, Am̃

Suñu.

## Suñudags Kvølld Psalmur.

### Ton, Gud Myskune nu øllum oss.

HJer Liossens Fader Lof sie tied, Liossens nu Kvølldar Deige, Sioon vorre hefur þu Liooſed lied, og leidt oss a riettum Veige, hvørt øllum Heime hefur lijst, Heimsius fra Fyrsta Dægre, þesse Dꜳsemd mier Lofleg lijst, lijka þo øñur frægre, fiñest og Nꜳdar nægre.

Sæte JEsu vort Sꜳlar-Lioos, Søñ Nægd af øllum Giædum, til Glede og Prijdis øllum oss, upp ert ruñeñ af Hædum, þeim er sꜳtu vid Meydst og Mein, i Myrkre og Daudans Skugga, Uppsprꜳetta Lijfsins ertu hrein, Adams Børn kañ þad hugga, sem añars mꜳ Angred ugga.

Oss hefur skined andlegt Lioos, i Orde Guds lifanda, heilagt Mat-Bord med Himneskt Goꜩ, høfum vier sied i Anda, Bæn-Hws DRottens oss hefur og hyst, hrunded þar Sꜳlar-Mæde, vort Hugskots Myrkur er hꜳatt upplijst, halldner vel a Guds Fæde, heyrdum og heiløg Kvæde.

Gud nꜳde ad nu gleymdur er, goods Dags Abateñ beste, Eldds og Skystoolpeñ undañ fer, ei þrijtur Sꜳlar-Neste. Løgmꜳl og Gudspiøll Leid kyñer, later vier tijnum Veige, Holld Guds og Blood oss Hwngre ver, a heiløgum DRottens Deige, Avøxt færum þo eige.

JEsus græde vor Vondsku Vølld, og vora lagfære Side, giefe oss eñ nu Gledelegt Kvølld, so gietum sofnad i Fride. Lꜳt oss Gud aungva lijda Neyd, Lwner Hvijld a sig take, Astar-Skiool yfer oss alla breid, adþrijstu Brioostе og Bake, so aungvañ hier uppa sake.

Vertu hiꜳ oss, þvi komed er Kvølld, Christne þiñe vor HErra, a þessare Heimsins ytstu Olld, ei lꜳt Trw vora þverra. Gud Fader Son og Ande hreirn, oss blesse alla samañ, Vegsame hañ og ottest eirn, allt Mañkyned um̃ Heimeñ, syngium af Hiarta Amen.

## Mꜳnudags Morgun Psalmur.

### Ton, Heidur sie Gude Himnum a.

HEidur sie Gude Himnum a, og hædst Lof um̃ Christeñdoomeñ, añañ Dag Viku Auguñ siꜳ, yferliooмande Heimeñ, a hyørium Vatna Hvolfed blꜳtt, Hꜳ-vijsañ fyrer Guddooms Mꜳtt, giørdest, sem heiter Himen.

Himnarner boda HErrans Prijs, Med hañ þeir fuller eru, eingeñ Skiepna þo er so vijs, ad hañs Nañsake Veru, i fra Eilijfd var Eining klꜳr, i Einingune Persoonur þriꜳr, fyrr eñ Verøllden voru.

Himen wr Vatne giørdur glær, Guds nefndest Velldis-Sæte, þadañ og þꜳngad Nꜳd hañs nær, Naudþurft siña so bæte. Hañs Sañleikur um̃ Heimeñ

eñ frij, Hlioomar so vijdt sem flivga Sky, Gøsgum hañs Gudleg Mæte.

Adam syndgade i Himeniñ haatt, hæddur af Satan ligna, Naad Guds took hañ i sæta Saatt, so ad Himin liet rigna, þar hañ blessadañ siñ liet Son, Sæde verda, fæddañ af Kon, Mañsens Velferdar vegna.

Pa Christur a sijnum Krosse hieck, kvaleñ ydrande Madur, af hañs Muñe þad Andsvar fieck, ad Andast mætte hañ gladur, Samdægris skyllde Saal hañs vijs, Sæl vera med sier i Paradijs, Feigum er þad Fagnadur.

Upp til Himnaña aptur foor, epter Pijsl sijna Christur, Hafning sw er vor Heidur stoor, i Herradoom Guds er sestur, ad tilbwa oss þar væna Vist, Vinum sem hefur Endurleyst, Elskugeñ allra bestur.

J hañs Nafne nu Hag vorn siaa, Himneske Naadar Fader, laat oss Naad þijna halldast hiaa, so i Heiløgum Anda glader, Gøsgum þitt Rijke æ hia oss, eñ eignunst sijdar þitt Dijrdar Hnoss, i Himna Vist heim feriader.

Heilage Ande Hiaalpeñ trw, Huggareñ allra beste, fra Diøfuls Svikum forda þu, Flock þeim sem JEsus leyste, med saarum Dauda og Undum sijn wr Syndneyd, leys Christne þijn, sem af Hiarta a þig treyster, A M E N.

## Mæanudags Kvølld Psalmur. Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

LAtum oss Hiørtun hefia til, Himens, medur Packlæte, Gude ber oss þaug giøra Skil, Glæselegt sitt Haasæte, liet oss i Dagsens Lioose siaa, og lijka sem Pak þar under gaa, er þad stoort Epterlæte.

Hefur i Dag vor Skapareñ skiær, Skijlt oss i Tialld-Bwd siñe, Ondena drøgum eirueñ vær, i Loptsens Vijdaattuñe, Vinda-Blær hefur Verølld nært, Vøkva Jørduñe Skyeñ sært, einatt epter Tijdeñe.

Hvøria Asioon sem Himen ber, og hvad sem wr Skijum flijtur, epter þess Vilia allt þad skier, sem esst a Himnum situr. Himna-Nodeñ og Heidrijkiañ Haatt prijsa med oss Skaparañ, og allskonar Loptsens Litur.

Vier þraa-syndgum i Himeneñ haatt, hvørt vier þo Augum mænum, Daglega riwfum dijrsta Saatt, DRotteñ vorn Heidre rænum, Angrar oss nu sw Jllskañ slæm, O Gud! oss ecke i Reide dæm, hlijd vorum Hiartans Bænum.

Tak oss nu eñ i sæta Saatt, Synd oss fiarlæga giørdu, eins og Himnaña Hvolfed blaatt, harla fiærstætt er Jørdu, og sem þad breidest utañ uñ Folld, añist þijn Naad vort Daudlegt Holld, og frije fraa Faare hørdu.

Þijn Naad i Dag oss giørde Gott, Gud vor þad er þijn Æra, sie huñ og med oss nu i Nott, Naud-

er,

er oss an̄ars særa, Heilagra Eingla Himnum a, Herskaran̄ laat oss vaka hiaa, og Satans Valld fra oss særa.

Himneske Fader Hag vorn siaa, hier a Jørd Veg-farande, Heimile gafst oss Himnum a, hiaalpa til so vor Ande, þar uppe bwe æ hiaa þier, Itre Ham-ur þo dveliest hier, Hlijf oss vid hvørskins Grande.

## Þridiudags Morgun Psalmur. Ton, Hvør sem ad reyser hæga Bygd.

LOF Guds berist um̄ Lønd og Siov, Liovmar af Deigenum Þridia, A hvørium Hønd Guds høg tilbiov, Heimsens Boolsestu midia, Þa adskiliande Þurt og Vott, So þar af kiæme Otal Gott, Þørf var Guds þess Dags Ydia.

Vier twum Gud hafe Grundvallad, og giørt Jørd Ohræranlega, Siaafar Hafenu sette han̄ Stad, Og so gyrdte alla Vega, med Orde sijnn, ad eckert Grand, Yfer kan̄ gaanga hid þurra Land, uppaa þad vel maa voga.

HErra Gud Verk þijn heidra þig, Hladen̄ med allskins Giæde, Avøxt ber Jørd og audgar sig, Allar Skiepnur so fæder, A Braude, Jurtum og Mallte, Men̄, med Allden-Grøsum Fienaden̄, Friovsgun lier sierhvørt Sæde.

Hrein̄ Løgur burt wr søllltum Siaa, Sijast i giegn-um Brun̄a, Saurugu Þvott maa sækia i þa, og Svøl un fyrer þyrsta Mun̄a, Avøxten̄ bera Allden-Trie, Edla Bloomstur med Lucktin̄e, Giæsku Krapt giesa kun̄a.

Þessu velldur þad Þarfa Ord, A Þridia Dag Gud talade, Vijn og Vidsmiør þad vex um̄ Stord, Vorso ad grove Skade, Myklu dijrra þo meina eg sie, Maal Guds Sonar a Krossens Trie, Er sin̄e Moodur svarade.

Þad kan̄ ad deysa Dauda-Mein, Diøfuls þar Skeyte granda, Sorgfullra Saalna ad sesa Kvein, Sem under Krosse standa, Til þeirra er hønum saart til San̄s, So sem þad være Mooder han̄s, sem dijrka han̄ med driwpum Anda.

Þvi skulum vier lesa a Þridiudag, Þridiu Bæn Christs i Hliovde, Verde um̄ vorn og vorra Hag, Vilie þin̄, Faderen̄ goode, Eins og Einglar a Himnum haatt, Hier nidre laat þig prijsa daatt, Lijd þin̄, a Folld og Floode.

A Himne og Jørdu, Heidur og Dijrd, Sie Hædstum Fødur ad vanda, Han̄s liwfum Syne lijka skijrd, med Lofgiørd allra Handa, Eilijflega su alldrei dvijn, Aukest Lofed og Virding þijn, Med Heidran Heilags Anda, Amen.

## Þridiudags Kvølld Psalmur. Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

Kvølld Dagsens er nu komed eñ, Kvølld-Saung vorn hefium aller señ, Vor Kvølld-Stund verde oss blijd. Kvølld Æfeñar kiemur Lijd, Kvølldar lijka Veralldar Tijd.

Pridia Guds Verk a Pridiudag, Pient hefur oss nu eñ i Hag, Blessud sie HErrañs Hønd, sem oss bioo til Sioo og Lønd, Sier oss Gagn, Eñ hepter vor Grønd.

Frægur Gud virdtest Foolke liaa, Foot-Skør sij-na ad bwa aa, Pad er su hyckva Jørd, sem Fæder og Dryckiar hvørskins Hiørd, Hønum ber Eilijf Pack-argiørd.

Lof sie hønum fyrer Landed vort, Lijdur ei Foolk hier stooran Skort, Guds Forsioon giætnm ad: Vermer hañ og vøkvar pad, J Veralldar Nordurs Js-kølldum Stad.

Bwum vier hier vid Bwr-Dyr hañs, Verast wr Sioonum Faung til Lands, so Næring verdur noog. Gude sie Lof fyrer Gagn og Ploog, po giøre Meñ opt wr Mañ-Jllsku Roog.

Allskonar Gots, sem Vijn og Visi, ad voru Lande aa Skipum flitst: Framande Pioodum fraa. Guds er þetta good Forsioa, Gude sie Packer, Amen Jaa.

Naade Gud hvad vor Briooft ern blynd, Brand vort etnm vier opt med Synd, Og daarlega dreckum med, Avijtur fær sa oss hefur lied, Eñ eingeñ Laun nie Packlæted.

Plægium vier Jørd og sækium Sioo, Syorum Guds Punde ecke po, Etum vier Avøxt Lands, Eñ gleymnm Vilia Giafarans, Giørum margt i For-bode hañs.

Grøsum pa Jørdeñ grooeñ stood, Gud leit yfer, og Vatna-Flood, Allt var pad Giæda Gnott, Eñ vil-ium vier skoda vora Jþroott, Vort Athæfe flestallt er lioott.

Fodursins Millldeñ Fridar sterk, Forlaate øll vor Jllsku-Verk, Lækne vor Orkumsl øll, Reise upp pa sem feingu Foll, Fæge af Saur og Lijte giørvøll.

Laat oss ei gialldа nu i Roott, Naaduge Gud po Dags-Verk lioott, Siaaer vört sialfur pu, Oss øll-um til þijn aptur snw, Fyrer Ydrun, Bæn og rietta Trw.

JEsu vor sem a Jørdu giecks, og Jardar þiñar a Hnette lieks, Einmana opt og þraatt, Laat oss fiña Lijkn og Saatt, Lijka ødlast Roolega Naatt.

Vernd og Lid þiñe veittu Hiørd, Vijdt ser Diof-lleñ hier uñ Jørd, Solltеñ i Sauda-Blood, hrittu fra hañs Heyptar Mood, So hvørke grande oss Elld-ur nie Flood.

Lof og Heidur a hvørre Stund, Uñ Himin og alla Veralldar Grund, Sijngest þier Preñing blijd, Af øllum Tungum Ar og Sijd, Eilija og Stundlega Tijd, Amen.

## Midvikudags Morgun Psalmur. Ton, Gude Lof skallt Ønd mijn iña.

LJoomande Lioossens Fødur, Lofum vier nuþan̄ Fioorda Dag, Mid-Viku mestan̄ Hroodur, meina eg, og vorn allra Hag, DRottens Daasemdum hroosa, Er Dijrd sijna auglijste, J Skøpun skijnande Lioosa, skiær mun sa Meistare, Er þad med Orde Einu, a Augabragde fieck giørt, ad Soolen̄ i Heide hreinu, Heime lijser Glov-biørt.

Lioomande Lioossens Kierra, liær sijna Fegurd Augunum, Glader Geyslar ei þverra, sem Glans færa af sier Skyunum. Allrar Byrtu Uppspretta, wr Austre ren̄ur i krijng, alls Heimsins Augad rietta, Er ætijd i sijnum Hrijng, Daasemdar Verked dijra, DRotten̄s su Krijngla er, Jørdun̄e Hiwkun hijra, og Hlijende giefur af sier.

Pad stoora Lioos stioornar Deige, Stunder og Eykter sundur skier, lijser Lijdum a Veige, J Lioossenu eru Men̄ Ohulter, hvad sem gyrner ad giøra, gløgglega sjaa þeir til, skiær og skijnande Vera, skøpud Møn̄um i Vil, Hvar fyrer Gleden̄e giæddur, Guds Madur sierhvør skal, Lofa þan̄ Lioose er klæddur, Lioossens i dijrstum Sal.

Sæll er Madur sjaande, Soolar Biartleik aa Himnenum, med Athygle aahorfande, Edla Fegurd i Geyslunum, Eins og Christs Andlits Blooma, Er Eitt Sin̄ a Thabor saast, Lærande af þeim Liooma, ad lifa i DRotten̄s Ast, og laata sig laanga af Hiarta, Lambsins ad skoda Stool, og Utvaldra Andlit, sem skarta, Eins og skijnande Sool.

Soolun̄e haatt maa hæla, Heimsins giørvalls hun Prijde er, Riettlætis Soolen̄ sæla, Saalun̄e meira Gagn þo lier, Sem er vor kiære Christur, Er Krossfestur Pijnn leid, og þwngt Mootlætes Mistur, Mid deiges epter Skeid, Sool-Dyn̄a Oskapleg skiede, Skygde a Lioosed vort, Dapradest DRotten̄s Glede, Daudan̄s naalægdest Port.

Faar i Formyrkvan stoorre, Frelsaren̄ hullde Geysla sijn, Falen̄ i Forsmaan vorre, Foreldest Holld ad lijda Pijn, Fliootande sølur i Bloode, Fødurs hræddur vid Grymd, Kallade haau Hlioode, Harma-Grein ei vard stemd, Gud min̄, Gud min̄, þvi giørder, ad giefa mig þan̄en̄ wt, Andar-Kvøl a mier herder, Obær þiaaer mig Swt.

Dijr var þad Daasemd Fordum, A Døgum þess fræga Josua, Ei gat skeikad wr Skordum, sw skiæra Soolen̄ Himnum aa, Og sijdar seig hun til Baka, Sem ei er optar skied, Maatte þar Mark a taka, Myskun DRotten̄s þa ried, Po tel eg þan̄ Tilburd stærre, Tign Guds i Myrkre hieck, Og Lioome han̄s hvørium hærre, Hnignande i Daudan̄ gieck.

Heidur sie Gude a Hædum, Hvørtveggia fyrer Soolar-Lioos, Po mykell sie Munur ad Giædum, Mundu Fader ad giefa oss, J Dag vort Daglegt Fæde, DRotten̄ oss þar til liaa, Blessunar Medølen̄ bæde, Børn þijn so meige faa, Andar og Hollds Upphellde, Einkum gief oss þad Tvent. Allt fram̄ ad Efe-Kvøllde, Ord þitt og Sacrament.

## Midvikudags Kvølld Psalmur. Ton, Kiært Lof Guds Christne alltijd.

SOOLeñ er setst i Ægeñ, Sie Gude Lofgiørd eñ, Af þvi nu endar Dageñ, Erfided lijka señ, Fraa Augum Lioosed lijdur, Lwnum so giesest Roo, Dijrdar Forsprackeñ srijdur, Foolke i Hag so mñbioo.

Pa saa Meistareñ millde, Myrkred var svart og lioott, Sem kiemur ad hvøriu Kvøllde, Klaara þvi giørde Noott, Tilbioo Tungled skijnande, Tendrad sem Nætur-Blis, Vex og verdur þverrande, Vite saa, Til Skiptis.

Lof sie lioomande DRottne, Sem lijser upp biartañ Dag, Og med Tungls-Lioosś Tilbreitne, Temprar Naatt-Myrkurs Hag. Astgiafareñ allra beste, Otal Stiørnur i Kraus, Himens a Hvolsed seste, Hagar vel þeirra Glans.

Himen-Tungleñ oss teikna, Termin i Heime margt, Tijmans maa Reglur reikna, riett epter þeirra Art, Peir sem med Giætne grunda, Guds Merkeñ hvørge raung, J Tølu Tijma og Stunda, Tijd þyker ei miøg laung.

Tøkum vel lientu Laane, Luckuñe ei treysta ber, hun vex og mijnkar sem Maane, Myklum Gud, hvørt sem er, Chrisine Guds Naud þo nijste, Nafn hañs er heñar Skiool, Trwar-Lioos tekur af Christe, sem Tungled Byrtu af Sool.

Guds Liooineñ Geysla hulde, J GraatSkyum þegar Od, Formyrkvan Daudans dulde, Dijrd hañs, þa wt-rañ Blood, Følvum þa maa þad Maana, ad missa Sælgiætis Skyn: Vær þo ad vætum Braana, Veiker, Pad er ei Kyn.

Guddoomenum Giæskurijka, Giefum Dijrd aller señ, Skygn Augu og Lioosed lijka, Liente oss i Dag eñ, Hañs Naad oss hvørn Dag væge, Hvørttveggia misbrwkast, Myrkrañа Fleck af-sæge, Er søgur Trw afsaurgast.

Vier erum a Veige raungum, Vorkun siest oss þo rijr, Blynder i Byrtu gaungum, Baked vid Liooseſnijr. Riettlætis Sooleñ sañа, Saalunum til þijn snw, Upplijsing allra Mañа, Ertu miñ sæll JEsu.

Milldur ad Midviku Aptne, Miñ Gud laat øllum hier, Hlotnast þa Heill og Hepne, Hvijlast DRotteñ i þier, Myrkrañа illur Ande, Aungvum hier giøre Tioon, Amen Gud Allsvalldande, Eg bid, Heyr vora Boon, Amen.

## Fimtudags Morgun Psalmur. Ton, Giæsku Guds vier Prijsum.

LJfande Lijfsins Bruñur, Lyfsæll Gud Himnum aa, Hvørs Mañs Hiarta og Muñur, Heidur þier giøre tiaa, sem veit þa dijra Daad, Er a Fimtudag Fyrsta, Foolke þijnu til besta, giørde þijn Gudleg Naad.

Af

Af Vatne lietsiu lifna, Lifande mykeñ Her, Fugla er fyrst skal nefna, Fliwgande um̃ Lopted hier, Eñ þrijdder med Fiskum Flood, Sem Fløgra, Synda og Sveima, Siaafar um̃ diwpa Geyma, Metta þo Meñska Þiood.

Skiepnur Guds allar eru, Fyrer adra giørdar eñ sig, Sierhvør i siñe Veru, ad søñu Nytsamlig, þeim sem Gud lier þad Lien. Þeirra þarf Lund ad læra, Lijka i Nyt sier færa, Heidra so Gud i Gien.

Sie hønum eilijf Æra, Sem oss hefur fyrersett, Af Fuglum Froodleik læra, Ad fliwga er þeirra Stiett, Kvaka og Sijngia sætt, Eñ Ahyggiu aungva hafa, Ødlast þo hvør siñ Krafa, af þvi sem þeim er ætt.

Fugl ei fellur a Jørdu, Fødursins utañ Villd, Saal mijn þa Huggun heyrdu, Hærre þier lient er Snylld, Dijrd Guds þu Erfa aatt, Ørvijnglan øll skal þagna, Efalaus skalltu fagna, J DRottne, um̃ Dag og Naatt.

Þvi saa sem bioo til Bruña, Og bruggar af Triaa-num Vijn, Þur Brioost og þyrsta Muña, Þar med ad fyrde Þijn, Svølun ei siaalfur fieck, Þad er vor kiære Christur, Sem kvadst Daudlega Þyrstur, Þa kvaleñ a Krosse hieck.

Fyrer oss leid Þiaaning þessa, Þiggiande bitrañ Smeck, Þvi blijdur villde blessa, Bæde vorn Mat og Dryck, Saup hañ og swrt Edik, So Dijrmar-Vijn feingium drecka, Eñ dander ei skylldum smacka, Breñe stein, Elld nie Bik.

Fridar Fadereñ hædste, Fyrergief oss vor Brot, Fyrer hvør af kiærum Christe, Komeñ er algiørd Boot, Lijkn hiaa þier laat oss faa, Eins og vier vilium veita, Vægd þeim sem oss aareita, Myskun þijn miøg er haa.

Guddoomsins Andeñ goode, Sem gafst oss eitt Andlegt Fiør, J skiæru Skijrnar Floode, Skickande oss Himnesk Kiør, Hiørtu vor fær a Flug, So leitum hellst Lijfs ad Giædum, Hiaa lifanda Gude i Hæd-um, medþreyande og þyrstum Hug, Amen.

## Fimtudags Kvølld Psalmur. Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Saal.

Blessadur sie vor DRotteñ dijr, Dags-Lioos fyrer Naatt-Myrkre flijr, Myrkreñ þo ecke þockness Þiood, Þreyttum er ætijd Hvijldeñ good. Lof sie Gude fyrer lidna Tijd, Lofud sie Guddooms Þreñing blijd, Ønd mijn Gud prijse aarla og Sijd.

Alldrei fær neirn i nockrum Stad, Naaduge Gud þier full-þackad, Þad er so margt og mykels vert, Mañsins vegna þu hefur giørt, Fuglum Loptsins og Fiske i Siaa, Med fleiru ødru hañ raada maa, Vit og Makt fieck ad veida þa.

Gude sie Lof sem giørde Vøtn, Gagn-audug fyrer vora Nautn, Og lætur oss þiena Løg og Jørd, Legg-ium i Stadeñ Þackargiørd, Daanust ad HErrañs dijrre Ment, Daudt þo hañ take Element, Skøpun

gietur og Lijf þvi lient.

DRottne JEsu sie Dijrden̄ stoor, a Diwp til Fiske Afla foor, Pvi Arlega blessar Elskan̄ hans, Utveige Foolks til Sioos og Lands, Heidrum vier Nafned han̄s fyrer bad, Hesur vor Tilsaung margfalldad, Og læted margt dragast Lande ad.

DR..ten̄ so lætur buga hier, Deige hvørium þad han̄ oss lier, Pad sem oss giefst af Lande og Lœ, Leggiande sijna Blessan œ, Unum vid slijkt sem oss er lied, Ei veit hvad leinge þurfum med, Er vor Gud Sœlar Upphellded.

Avi ad hefdum Vænge vær, Vilia og Fijsn til Ydrunar, Og fliwgum i Kvølld sem Fugl i Bool, Fødurs vors under Nœdar-Skiool: Sæte JEsu i Sijdu Or þitt, Sœl vor hverse, so verde fridt, eins sem i Hreidur Svalan̄ sitt.

Nœd DRottens liene oss Nætur Grid, Nauda Tilferlum varne vid, so vor verde Nœttura nærd, Nœtturlega oss giefe Værd. Sæler i Gude sofnum vier, i sætum Fognude uppvakter, og gaungum i Fride Gudhrædder, Amen.

## Føstudags Morgun Psalmur. Ton, Dagur i Austre øllu.

SJe Gude Lof han̄ Siøtta, sœum vier Viku Dag: Triwar-Regluna rietta, ræktum, og Sœlar-Hag, hroosande þvi Hand-Verke, HErrans, sem giørdest þa, þad var mesta Stoormerke, Man̄en̄ skoop Jørdu œ.

Ei þo fyrr en̄ Kvikinde, øll voru bwen̄ til, hafande hid hellsta Ynde, ad horfa a Meistara Spil, sijdasta sem han̄ giørde, sin̄e lijkt Dijrdar-Mynd, Vilsaude ad vista yrde, sijn Epterlætis Sijnd.

Lof sie Guds Lynde sroomu, hid Lœga ei forsmœr han̄, Vænt Pijng wr Efne aumu, Al-Hagur smijda kan̄, Lykn.. sk.u burt wr Leyre, liet sijn Augu adhæfst, han̄s er Heidur ad meire, þo hafe a sijnu Ast.

Gøjugt var Guslegt Smijde, er giørdest fyrer han̄s Mœl, Liggiandne i lioosre Prijde, lijande Holld og Sœl, þo var sw Heillen̄ hærre, hrumdar Man̄eskiu er skied, DRotten̄ med Dœsemd stærre, Daudlegt Mein lækna vied.

Vard Guds Nœd þad til vin̄a, ad vita sijns Sonar Bøl, Son Guds til Fleina ad sin̄a, Fordæmdur Kross i Kvøl, og sier af Angre barma, wt þegar pijpte Blood, lijkt sem Guds Lamb ad jarma, Lausn so ad feinge Piood.

Frægd stoora framde a Jørdu, Frelsaren̄ þegar doo, Syndan̄a Hapte hørdu, han̄ sleigde i Naudan̄ Sioo, sijns Bloods, og so af Reide, sagde i Aftokustad: Satan Svikaren̄ Leide, sœ mitt Verk Fullkomnad.

Friadag Dag þvi høllдum frægstan̄, fram̄ yser Liosen hin̄, Lausnar-Verk Nœdar nægsta, Nœdadr

Man̄-

Mañlegt Kyn, þa Lijfed i Sølur lagde, og Lijknar Fordæmdum bad, Son Guds, og til vor sagde: Siaa allt er Fullkomnad.

Fader, leid Foolk þitt eige, Freistingar iñ i Ne⸗yd, Fridad a Føstudeige, fyrer þijns Sonar Deyd, laat oss þa Hnggun hlioota, sem hefur hñ forþienad, og Himneskra Heilla nioota, þa Hlaup vort er Fullkomnad, Amen.

## Føstudags, Kvølld Psalmur. Ton, Eilijfur Gud og Fader kiær.

PReñum Gude sie Packargiørd, A þessu Friaadags Kvøllde, Ort og tied um alla Jørd, Af øllu lifande Hollde, Þviad þad allt er Hand⸗Verk hañs, Þo Haaleitust sie Skøpun Mañs, Er sijdast hañ vanda villde.

Dijrdar verdugur einkum ert, Af øllu Mañlegu Kyne, Eilijfur Gud, sem allt hefur giørt, Ad Adams Børnum þad þiene, Þvi Einglarner þurftu þess ei med, Til Þarfa oss skapader Fied, Og lagder oss þad i Liene.

Oss hefur þient þad eñ i Dag, A Utlegdar vorrar Veige, Sem þu vanst oss sialfur i Hag, A Siotta Skøpunar Deige, Af Kvikfiaar sednr Kiøte og Miolk, Kvølld og Morgna þitt hungrad Foolk, Daglega, Eg Daasemd seige.

Sem Konunglegur Kiallare maa, Og Kiøt⸗Bwr Drottens heita, Maalnytu Gagn sem mettunst aa, Og Millde hañs giører oss veita, Skoo og Klæde af Skiñe og Ull, Skøpnd er oss þar Næring full, Launar Gud so vorn Sveita.

Vier niootum þess ad Naaden hañs, Naakomna oss sier giørde, Pa Andanum blies i Asiaan Mañs, Og eilijft Lijf Jñfærde, J Lijknesk id af Leyre skapt. Lofum bæde hañs Giæsku og Krapt, Til Dijrdar þad Verk hañs verde.

Mañ⸗elske Gud hvørs Millde ei þver, Myskunar øllum Þiodum, A⸗i vort Edle orded er, Olijkt Skapara goodum, Þiña Verka vier þiggum Not, Eñ Þioonusta vor er ill og lioot, Skaparans Skyckun trodum.

Frelsare vor sem fyrer oss badst, A Føstu⸗Dag hañ þiñ Laanga, Og Reideñar Þressu trwlega tradst, A Trienu þa virdtest hanga, Med þiñe Hlijdne bæt vorn Brest, Blood þitt Heilagt oss aahellest, Og afmae allt hid Raanga.

Heilage Ande oss hiaalpa þu, Ad Heill þa ei af oss bricotun, Efldu med oss Ydran og Trw, So allra Guds Verka niootum, J Naadum bæde Nott og Dag: Naatturu Brest vorn fær i Lag, So Eilijfa Hvijld vier hliootum.

## Laugardags Morgun Psalmur. Ton, Myskunar Fadereñ Millde.

LAtum a Laugardeige, Lof-Saung Gude i Tie, Packlæte hañs þagne eige, Þo halle Vikuñe, Hvijldar-Miñing hiñs Hærsta, Hiet Fordum þesse Tijd, Helg ud med Heidre stærsta, HErrañs af Erfda Lijd.

Epter Skøpunar Ydiu, Almætte hvijldest hañs, Eñ ecke i Erfide midiu, Eins er Skapnadur Mañs, Sex Daga eigum ad eria, Epter þad þiggia Roo, Heilaga Hvijld ad byria, A Himnum, er Gud til bioo.

Vier eigum hætt ad hæla, Hand-Verke Almættesins, uñ Viku Heims Alldurs heila, Hag studde Mañkynsins, Gud til Gagnseme og Fridar, Giørde oss Daga Sex, J Hvijld siñe hañ erfidar, Hiælprædis Verk þvi vex.

Oss ber vilingum vera, J Verke med Herra þeim, Sem kiende oss Gott ad giøra, Giørande þeñañ Heim, Myndade Mañ og Brwde, med Mynd sijns Vijlætis, Verk þad hañs Veru ei lwde, Vert þo stoors Packlætis.

Vier med Lamech oss lijum, Leytande fallvallts Auds, Og Armæde a Jørd drygium, Aflande Daglegs Brauds, Opt verdur rijr Abate, Oller þvi Mañ-Spilling, A Andlega Ydiu later, Erum, Og Leidrietting.

Fyrer þvi fram ad Kvøllde, Frelsareñ þrælkadest, A Sæl og Heiløgu Hollde, Heill vor so fullgiørdest, uppgiefeñ af Erfide, afhente i Fødursins Hond, sofnande i sælum Fride, sijna blessada Ønd.

HErrañ fyrer Præla þolde, þessa Mædu og Swt, þa epter Piñaning hvijlde, Þvottdageñ mykla wt. Lof sie Lausnara mijnum, sem lagde a sig þad Prek, ad asmæ med Sveita sijnum, Synder vorar og Brek.

Kieñande oss ad enda, Erfide vort med Bæn, og Sæler hønum afhenda, Heimfør so verde væn. Hønum skulum so heilsa, Heim þegar kvedium vær, Fra øllu Illu oss frelsa, O Gud vor Fader kiær! AMEN.

## Laugardags Kvølld Psalmur. Ton, Fader vor sem a Himnum ert.

SJøunda Kvølld nu komed er, Kiært Lof Gude þvi sijngium vier. Ein Vika er oss eñ af þreyd, Alltjafnt smæ styttest Lijfsins Skeid, Er oss þad Glede i Eymdar-Dal, Af þo reiknest vort Daga-Tal.

Sie Gude Lof fyrer sijna Nad, Syne Guds Dijrd fyrer vort Hiælpræd, Anda DRottens sie Pøck eñ þijd, Pad hefur vered oss Fridar-Tijd, Heiløg Guds Preñing heidrud sie, Hundrad margt Gott sem oss liet skie.

Guds vors i Livose geingum vier, Guds under Pake vardveitter, Gud oss sitt Brand til Bordhallds fieck, Bruñur Guds til-liet Svala Dryck, a Felle

med

med oss Guds Fridur var, i Fadme Guds svæfnum æ Næturnar.

Belzebub sa hiñ bølvade, Babiloniskur Tyrañe, Kynt hefur eñ siñ Kvala On, kieppst vid ad giøra oss øllum Tioon, eñ DRottens Eingell Dagana Sis, Diøfulsins Vondskap hindrade.

Gud heimter Viku Verked vort, vor Hlijdne hefur mykeñ Skort, Siøtijusiñum Sis Siñum, Signadañ Gud vier stygt høfum, eñ hañ Sis Daga gaf oss Grid, Gløtudum Lijfed eñ hiellt vid.

Hvad skulum seigia hier til vier, hæda lætur ei Gud ad sier, Særheyptast hañ vid Synda Lyst, sijst vill þo nockur fortapist, Ottunst Riettlætis Reide hañs, reynum eñ Giæsku Lausnarans.

JEsus sem margar Vikur varst, i Verølld og heñar Synder barst, Sær Giølld þu leydst fyrer Sakleyse, seinast i Pijslar Vikuñe. Klæke vora þu kvitta best, klæraň giør nu vorn Reiknings Brest.

Hvør Dagur, Vika, Ar og Aulld, Endast þa best er Sijdasta Kvolld, ad settre Tølu i sama Mund, so kiemur og vor Dauda Stund. Uñ oss þa JEsu, eg þig bid, Ærlega ad skiliast Heimeñ vid, Amen.

## Trwarjatning Athanasii. med Ton, Nu kom Heideña Hiælpar Raad, etc.

Ma og lagast vid þañ Ton, HErra Gud þig heidrum vier, etc.

Hvør sem villde ad hoolpeñ sie, Helga Trw einkum vel kuñe. Heila Flecklaust sem hiellt ei þa, Hañ ferst Eflaust Eilijflega.

Eirn Gud i Preñing, Almeñt Trw, J Eining Tignar Preñingu. Personum meingar samañ sijst, Sundrun Guds Veru neitar vijst.

Føðurs, Sonar og Anda hañs, Er sijn Persona hvør til Sañs. þessar Priær eru samt eirn Gud, Eilijst Valld og Dijrd sumjøfnud.

Sem Gud Fader, Eins Sonur er, So Helgañ Anda jæta ber. Ofkøddud, Eilijf, Omælañleg, Er Guds Persona hvør um sig.

Ei eru Prijr þo Eilijfer, Eine Gud Æfeñlegur er. Oskapadañ, Omælltañ æ, Eirn so trwa, Eñ ecke Priæ.

Fødur, Son, Anda Heilagañ, Eins trwe hvøru Almættugañ. Ei hafa Prijr þo allañ Mætt, Allsvalldanda Eirn heidrum hætt.

Fader, Sonur og Ande hreirn, Er Gud og Drottceñ Hvør sem Eirn. Hallt þo ei Gude nie Herra Priæ, Helldur eirn Gud og DRotteñ Tiæ.

Sañleiks Kieñing sem jæta baud, Su Greining hvør sie HErra og Gud. Hrein Almeñt Trw so hratt oss fræ, Hallda Gude nie Drottna Priæ.

Gud Fader er af aungvum til, Ei skapadañ nie boreñ skil. Guds Son af Fødur Einum er, Ei vard

vard nie skoopst, Po Fæddest hier.

Eirn Veg Gud Ande Heilage, Af Fødurnum og hañs Syne, Ogiørdur Skøpun aungva ber, Ei fæddest, Po framgeingeñ er.

Eirn er þvi Fader, Eñ ei Prijr, Eine Guds Sonur, og Ande dijr. J Preñing verdur eingeñ Grein, Ædre, Miñe, Fyrre nie Sein.

Personur eru allar Priaar, Eilijfar jafnt i Heidre haar, So i Preñingu Einingeñ, J Eining Preñing Tignest señ.

Til Saaluhiaalpar søñ er þørf, Sie Trweñ med oss viss og diørf: JEsus vor HErra Eilijfe, Oss til Lausnar Holldgadur sie,

Pvi er hrein, riett og heiløg Trw, Hiartaūlegt Traust og Jaatning sw: Guds Son JEsus vor HErra haar, hañ sie Gud og þo Madur klaar.

Af Fødur Olst i Eilijfd Gud, i Heim barst Mañ af Meyar Kvid. Fullkomeñ Gud og fullgiør Mañ, fyrer Saal og Mañs Lijkamañ.

Miñe Fødur ad Mañdoome, med Fodur jafn i Guddoome. Eirn þoott sie Gud og Madur hreirn, ei Tveir, helldur er Christur eirn.

Eirn er þoott ei sie uūsnweñ, Art Guddoomleg i Mañdoomeñ, Helldur so, ad heil Guddoomlig, hefur Mañdoom teked a sig,

Soñ ein Persoona sw er vijst, Sam-meingast tvær Naattúrur sijst, Sem Holld og Aundu eirn Mañ sier, eins Gud og Mañ Eirn Christur er.

Sa eirn leyste af Syndum oss, Saarañ Dauda þvi leid a Kross, Og stie til Vijtis ofañ strax, uppreis fra Daudum þridia Dags.

J Haatign upp til Himna stie, hia Fødur jafn i Almætte, Aptur vill koma eins þadañ, ad Lijfs og Dauda dæme hañ,

J hvørs Tilkomu aller Meñ, i eigeñ Hollde rijsa señ. Af sijnum Verkum sierhvør þa, sañañ Reikning framlaata maa.

Good fwser til Lijfs gaanga þa, Gudlauser i Vaal eilijfa. Hrein Almeñ Trw er hier framsett. Hiaalpast eingeñ þa hiellt ei riett.

Petta Symbolum Nicænum, edur Messu Credo, epter gamallre Versione, Laatum vier hier med fylgia, hellst epter þvi þad er Alkuñugt og Tijdkanlegt vijdast i SudurStiptenu, a Haatijdis Døgum.



Vier trwum aller a eirn Gud. Fødur Almaattugañ, Skapara Himens og

Jardar/

Jardar, og allra Hluta Sijnelegra og Osijnelegra. Og a HErrañ DRottiñ vorn JEsum Christum, Eingieteñ Guds Son, og af Fødurnum fæddañ, fyrer allar Veraллder. Gud af Gude Lioos af Lioose eirn sañañ Gud, af Gude søñum, Gieteñ eñ ei giørdañ samjafn sijnum Fødur, fyrer hvørn ad allt er giørt, hvør fyrer oss Meñena og vorrar Heilsu Saker, Stie nidur af Himne. Took Holldgan af Heilags Anda Krapte, af Mariu Meyu, og Madur

svo vorden. Hañ er og fyrer oss Krossfestur, under Pontio Pilato, var hañ

pijndur og grafeñ. Og upprijsande a Pridia Deige, epter Ritningunum.

Og uppstijgande til Himna, Situr a hægra Veg Guds Fødurs. Og i Annad

Siñ er hañ komande med Dijrd til ad dæma, Lifendur og Dauda, a hvørs

Rijke verdur eingeñ Ender. Og vier Trwum a Heilagann Anda, DROtteñ

allt Lijfganda, af Fødur og Syne framfaranda, hvør med Fødur og Syne æ

til-

tilbeidest, og æ ævallt samdijrkast, Hvør ed mællte fyrer Spæmennena. Og

vier trwum Heilaga Christne, Stadfesta fyrer Postulana, Og jætande

eina Skijrn vera til Fyrergiefningar vorra Synda, og Epterbid Upprisu

allra daudra Manna, Og þa komande Eilijft Lijf, all ra Allda,

A men.

## GLORIA;

Sem sijngiast mæ stundum, bæde i Kyrkiuñe og heima i Hwsunum, þa ecke er Embættisgiørd frameñ. Ton, Alleinasta Gude i Himerijke, etc.

Heidur sie Gude Himnum a, og hædst Lof fyrer Naad sijna, ad hiedañ af oss alldrei maa, Ogu nie Kvøl nockur Pijna. A Jordu høfum nu feinged Frid, Fødurnum þocknast Mañkynid, nu hlaut øll Heipt ad dvijna.

Vier lofum, dyrkum og þøckum þier, þig tilbidium alleina. Valld þitt Gud Fader eilijft er, alldrei kañ þad ad riena. So er þijn Makt Omælañleg, algiørt er allt hvad þier er i Hug. Vel þeim er i Trw þier þiena.

O JEsu Guds Eingietenñ Son, eilijfe Gud vor HErra! þu bætter allt vort Andar Tioon, Eymd vora virdtest bera. Lamb Guds sem Daudañ leidst a Kross, Lijknsamur siert þu øllum oss, vora Bæn vilier þu heyra.

Heilage Ande Hiaalpeñ trw, Huggareñ allra beste, fra Diøfuls Svikum forda þu, Flock þeim sem JEsus leyste, med sarum Dauda og Undum sijn. wr Eymd og Neyd leys Christne þijn, sem af Hiarta a þig treyster.

## Eirn Bænar Psalmur, ad sijngia þa Børn eru skijrd, med Lag. Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

Þu varst fyrer oss eitt Ung Barn, O JEsu HErra Naadargiarn. Af hreinre Jomfrw Fæddur ert, Foolk þitt so hefur hoolped giørdt.

Ung Børn hefur þu ei forsmaad, a Funde þijnum feingu Naad. Yfer Børneñ hefur þu Hendur lagt, blessad þau, Fadmad og so sagt:

Læted Børn meiga til mijn naa, meined þeim ei miñ Fund ad faa. Himnarijke Eign þeirra er, og allra sem eru þvilijker.

Þetta Barn þier bijfalad sie, blijde JEsu vor Lausnare. J þijna Christne þad Jnnleid, Hyrm og frelsa fra allre Neyd.

Ætijd hlijf þvi med Einglum þijn, fra Olucku Slisum og Pijn. Med þiñe Ast og Milldre Naad, Mykuna þvi og blessa þad.

Veit þvi med Alldre Vøxt og Spekt, ad verde hlijded þier og þeckt. Og life hier Heilaglega, hiaa þier sijdar Æfenlega, Amen.

## Hioona Psalmur, med Ton, Kom Ande Heilage, etc.

SæEll ertu sem þiñ Gud, i Sañleik Ottast, gack fram hañs giørvøll Bod, sem gløgt nu vottast. Þu munt og þiña neyta, Pryfleiks Verka, Sæll ertu, so man þier veitast, Sæmdeñ sterka.

Þijn Hws-Frw þijna Bygd, skal þañ Veg-sedia, sem Vijntries vænust Dygd, kañ Virda gledia. Þitt Bord Umbergis þa, ad Syner sitia, sem Vidsmiørs Vidur sa, er vel maa nytia.

Siaa,

Siꜳ, þier þa Sæmder fꜳ, i siñe Veru, Guds Otta ef gyrnest ꜳ, þeir Gypter eru.
Signe þig siꜳlfur Gud, af Zions Vellde, so ad Jerusalem, med Heidre hallde.
Og þu munt eirneñ Børn, siꜳ Barna þiña, og Israels ꜳgiæt Vørn, ad Frid mun fiña.

## Same Psalmur, med ødrum Hætte.

Christens þad eitt mun Mañs, mest Audlegd vera, og Lijfe hryggvu hañs, hellst Blessan bera.
Eilijfañ ottast Gud, og hønum uña, hañs jafnañ heiløg Bod, hallda og kuña.
Handbiørg, þier Fædu fær, fullrar ad niota, sañre þu Sælu nær, Sæmd muntu hliota.
Hwssens Upphellde sie, Holl eigeñ Kviña, sem gott Vijnvidar Trie, var Kvista siña.
Allt Bord þitt um̃ i Hrijng, eins sitia Syner, Eik Vidsmiørs og um̃ krijng, Ungvider kliener.
Bwanda Blessan sw, bregdst alldrei neinum; Eirn Gud sem ottast nu, af Huga hreinum.
Veite þier Giæfu Gud, Grande vid varde, af Zion alla Tijd, og Grida Garde.
Audlegdar Elle med, uñe þier giarna, ad feinger Syne sied, sijdañ Børn Barna.
Foolk Guds wr Fꜳre leidt, Frid hallde leinge, Goodfwser aller Eitt, Amen Meñ sijnge.

## Epter Kyrkiu Jñleidslu Kveña, sijngest þetta Vers, med Ton, Gud Myskune

HErra Gud Fader Hlijfd þijn sie, ad hitte þig eingeñ Pijna, Guds Son JEsus vor Græðare, geyme hañ Sꜳlu þijna, Helgañ Anda eg um̃ þad bid, Jñgang þier þeñañ giefe, ad eignest Guds Nꜳd og Andar Frid, Utgꜳng sem Froomum hæfer, nu og um̃ alla Æfe.

## Mꜳ og sijngia þesse Vers, Ton, af Fødurs Hiarta Barn er bored, etc.

JEsu Nafne Gud miñ giæfe, þad Gagn sækte Jeg til Musteris, ad Hreinsunar Dagar sie øll mijn Æfe, a mier hrijne Løg-Boot Christs, so kuñe eg kiæra, Foorn þier færa, Fødur Himneskum, hvørium sie, Lof, Dijrd, Heidur ad eilijfu.
Ecke er til i Eigu miñe, Offur-Lambed Sakleysis, utañ þad sem af Elsku þiñe, eg medtook, Forþienan Christs. Blood hañs sꜳra, best mun klꜳra, Brot mijn øll, þvi Gude sie, Lof Dijrd Heidur ad eilijfu.
Hiartad mitt med Huga hollum, helgad sie miñ DRotteñ þier, sem lifnar fyrst af Limunum øllum, lijka seinast burtu deyr, lꜳt þad kuña, Æ þier uña, allt til Dauda, so þier sie, Lof, Dijrd Heidur ad eilijfu.
Moodur Lijffins Avørt allañ, eg fel Gud i þijna Hønd, lꜳttu Hiovꜳn Heiptar Galla, hafa rietta

Dwfu Lund, og epter Løgum, Hegde Høgum, hvør og Eirn, so Gude sie, Lof, Dijrd, Heidur ad eilijfu.

## Blessunar Psalmur fyrer Maaltijd.



Fader a Himna Hæd, hvør fyrer Jesu Naad, Elsku þijna oss vottar, Aund og Lijkama mettar.

Hvad um̃ Lopt, Vøtn og Jørd, lifer og hefur Ferd, Forsorgar og Framfærer, fiølgar, Klæder og Nærer.

Blessar øll Børnen̄ þijn, burttekur Synd og Pijn, færer þeim Fædu hreina, fyrer þin̄ Son alleina.

Til Lofs og Dijrdar þier, lijka sem Christnum ber, þiggium i Dag Packlæter, þitt Laan sem oss veiter.

Laat oss i hreinum Hug, hallda oss vid þin̄ Veg, so med Samvitsku goodre, sediunst voru Foodre.

Veit oss þad verde fyllt, sem vottar Paall oss skyllt, gleymum ei þijnu Orde, yfer voru Borde.

Laat oss ei lijkiast þeim, Lijd sem stundade heim, hvörium þu hlijfder eige, hvad Skriften̄ af þeim seiger.

Medan̄ mettudu sig, min̄tust þeir sijst a þig, giørdu sier heidna Glede, Grim̄ fiell a þa Reide.

Hialp oss nu HErra kiær, so Heidur þin̄ eflum vær, fyrer Frelsaran̄ Christum, Fader a þig treystum.

## Packlætis Psalmur epter Maaltijd.



Heidrum vier Gud af Hug og Saal, han̄s Lof vor Tunga syngia skal, ad sijna Giæsku



fynde trvost, Sadde oss vel med Dryck og Kost, Sa øllu Hollde Fædu fær, fædt hefur oss nu



DRottenñ kiær, Pad allt hañs Millde þockum vær.

Þockum hønum nu Þioonar hañs, þad er oss øllum skyllt til sañs. Jaatuum ad oss elskade hañ, af Naad siñe skapade Mañ, med Hwd og Hollde, Bloode og Bein, Bygd er vegleguſt Skiepna Ein, og siidañ giefeñ Saalen hrein.

Þa Madur Lijf i fyrstu fær, Fæda heilnæm er hønum nær, i Lijfe siñar Moodur maa, Madurinñ siña Næring þa. Þo Barnkind sw sie Ung og Aum, ei hefur Skort a Gaafum þeim, fram til þess hun fædest i Heim.

Gud hefur Verolld vel tilreidt, vanta lætur ei aa Næring neitt, Fiølleñ og Dale frioofgar hañ, Fienadeñ Gras ei vanta kañ. Vex wr Jørdañe Vijn og Braud, veiter þad hvørt Ar Milldur Gud, og hiaalpar so af Hwngurs Naud.

Fiſka veita oss Vøtn og Sioor, verdur af þessu Maaltijd vor, Eggiñ og Fugla eignunst vier, oss til Atvinnu skapad er, Naut, Geitur, Svijn og Sauda Fie, siaalfur Gud lætur oss i tie, so ad vor Næring noogleg sie.

Þockum hønum, og þiggium nu, þad hañ giefur oss sañа Trw, ad høfum slijkt i Hiarta riett, hallda Bod hañs i vorre Stiett. So jafnañ øll hañs heiløg Hiørd, heidre hañs Blessada Nafn a Jørd, þad skal vor allra Þackargiørd.

## Añar Packlætis Psalmur, epter Maaltijd, Ton, Christe vier aller þøckum þier.

GUd vor Fader þier þøckum vier, fyrer þiñ Son Christ vorn HErra; Millde þijna sem margføld er, med hvørre virdest ad næra, allar Skiepnur sem eru med Aund, oss hefur sadt þijn millda Hønd, Lof sie þier Dijrd og Æra.

HErra sem mettad hefur nu, Hølld vort sem endast þlijtur, Saal vora eirneñ sedier þu, sem alldrei deyr nie þrijtur, Ord þitt er heñar Afl og Megn, þar til þu verdur heñar Eign, Naavistar med þier nytur.

Himna Fødur a hvørre Tijd, heidrum um Christeñdoomeñ, sem oss kvittade Synder vid, sw Naad af Trw er komeñ, fyrer hañs Son JEsum HErra vorn, hvør med sier liet oss verda Børn. Ætijd lofum þig, Amen.

# IV. Nockrer Hiartnæmer Psalmar / um Daudañ / sem sijngist meiga yfer Greptran Framlideña.



Midt i Lijfe erum vier , um̃vafder med Dauda. Til þijn DRotteñ
Hvört leitum so fiñum hier, Hialp vid þessum Voda?



alleina , Jllgiørda vorra ydrunst nu , Er þvi vallda ad reidest þu , Heilage HEr-



ra Gud , Heilage Sterke Gud , Heilage Lijknsame Lausnare , Þu Æfeñlege Gud,



Laat oss eige falla , J þa grim̃u Daudañs Neyd, Kyrie eleison.

Midt

Midt i Dauda ad oss slær, Ogn af Vijtis Kvølum, hvør þeim af oss hrunded fær? Hiaalp þa oss vier følum, þad ert þu Drotteñ alleina, mæder Hiartans Myskun þijn, Mañkyns Kvøl og Synda Pijn. Heilage HErra Gud. Heilage Sterke Gud. Heilage Lijknsame Lausnare. Þu Æfenlege Gud. Laat oss ei ofbiooda, Ogn af Vijtis griñre Glood, Kyrie-eleison.

Midt i Vijtis mestu Ogn, Misgiørder oss reita. Hvar faaum vier þeim Hiaalp i giegn? Hvør kañ oss Lid ad veita? Þad ertu DRotteñ alleina. Þvi Blooded þitt vor Christe kiær, kvittad allar Synder fær. Heilage HErra Gud. Heilage Sterke Gud. Heilage Lijknsame Lausnare. Þu æfenlege Gud. Hiaalpa oss þa Heim vid skilium, ad hallda rietta Trwar Glood, Kyrie-eleison.

## Bænar Psalmur um̃ goodañ og Christelegañ Afgang af þessum Heime.







Fyrer Kvøl þijna bid eg nu, mier aumum ad hiaalper þu, nær Daudans kiemur hin strijda Stund, stoorlega griñ a alla Lund.

Nær Augun missa alla Sioon, Eyrunum kiemur Heyrnar Tioon, Twngañ ei leingur mæla maa, mitt Hiarta tekur ad þrotna þa.

Nær allur Maattur miñ eydest so, Eingeñ Madur mier hiaalpa maa, O! HErra JEsu þijn Hiaavist blijd, hugge mig þa i Daudans Tijd.

Leid mig af þessum Eymdar Dal, og siyttu niijna Daudans Kvøl, Andskotans Reide frels mig fra, fyrer þiñ Anda, og vert mier hia.

Eñ þegar skiliast Lijf og Aund, O Gud tak hana þier i Hønd, Hvijld Hollde af þier eg þiggia vil, þar til Dooms Dagur tekur til.

Glada Upprisu gief þu mier, Geym mijn þa Dagur Doomsins er, mijnar Synder miñstu ei aa, Milldar gief mier Lijf eilijft þa.

Lijka sem fyrr mier lofader þu, Legg eg a Ord þijn mijna Trw, Sañlega, Sañlega seige eg þier: Sa mijn Ord helldur og treystier mier,

Ogn Daudans reyner øngva hañ, Eilijfañ Dauda ei smacka kañ, Lijkamlegt Andlaat eitt Siñ fær, Vid Andar Dauda ei verdur var.

Vil eg med Volldugre Hønd, Vid skilia hañ vid Daudañs Bønd, Arf mijns Rijkis skal eignast faa, Æfeñlega mier sialfum hiaa,

Og lifa i Sælu og søñum Frid: Sæmd þa veit þu oss milldur Gud, Allar Synder oss forlaat þu, ad þoleñmooder vier bijdum nu.

Med hreinnre Ast og traustre Trw, til þess ad kiem ur Stundeñ sw, Og feingium þiña Orda giætt, allt þaangad til vier sofnum sætt, Amen.

## Hiartnæmur Psalmur uñ gooda Burtfør.



Pa liñer þesse Lijkams Vist, og leider þu mig fra Heime, J Skilnad Hiaastod veittu mier Herra Christ, og Hiaalp þijn alldrei mier gleyme.



mijna aumu Aund, Eg gief og fel i þijna Hønd, ad medtaker og geymer.

Mig þijna jafnañ Sekt og Synd, Samvitskuñe fast amiæla, þær eru fleire Siaafar-Sand, samt skal eg uñ Hiaalp ei vijla, þvi Dreyreñ raude og Daudeñ þiñ, DRotteñ JEsu Frelsare miñ, Er mijn Lijfgiof

og

og Sæla.

Eg er þiñ eigeñ Limur eirn, af þvi fæ eg Huggun gooda, alldrei slijtur mig af þier neirn, J Angist og Daudans Voda, Eñ þo eg deye, Er eg med þier, Eilijfañ Fögnud fañstu mier, DRotteñ med þijnum Dauda.

Eins sem af Dauda uppreist þu, J Grøf mun eg ei blijfa, Himnaför þijn er Huggun trw, Hrygd Daudañs kañ burt drijfa, Hiedañ fer eg med Fögnude, fullvijs hiaa þier miñ Lausnare, Ætijd þu lætur mig lifa.

Hiaa Christ a Fialle Helias var, J Heidre Odaudlegum, Læresveinar hañ saau þar, So Eflaust trwa meigum, Eilijft Lijf sie i ødrum Heim, Elias lifer i Fögnud þeim, Þa Dijrd vier þiggia eigum.

## Huggunar Psalmur i Daudans Tijd.

Ton, Gud Myskune nu øllum oss.

LIsande DRotteñ lijkna mier, laat mig Naad þijna fiña, af þvi mitt Traust er allt a þier, Eymdaña giættu miña, Synder giøra mier Sorgar Mood, Saaleñ er tvist af Angre, frelsa þu mig fyrer þitt Blood, Fyrna af Pijnu laangre, so liñe Strijdu straangre.

Eg berst vid Daudans bytra Maatt, braatt verd nu hiedañ hallda, Heimeñ forlaata hlijt eg braadt, Heled mig sæker kallda, Lijkameñ veikur og laseñ er, Lijfs Krapt tekur ad þriota, Saaleñ af Bwknum flya fer, finst þvi ei neirn til Boota, laat mig Naad fiña fliota.

Eins geingur mier i Eymdum mijn, og þvi Barne er fædest, Hørmulegre i Hrygd og Pijn, Hørku Þreingingu mædest, hafande hvørke Maatt nie Megn, miwka Hiaalp sier ad veita, utañ Lioos-Mooder liwf og giegn, Lund-blijd med Astsemd heita, Lidsemdar giøre ad leita.

Af þvi kom Gud miñ Elsku kiær, uppa þig nu eg væle, og hijngad þijnar Hendur hrær, Herra miñ JEsu sæle, fyrer þitt Nauda Fossad Blood, fordum sem wt af dunde, uñ Trie þijns Kross þa Tijged Flood, Tafarlaust nidur hrunde, ad mier þijn Elska grunde.

Vid miñe Saal þijn Hiaalpar Hønd, hijr sem Lioos-Mooder take, þa verdur Lijkamañ vidskild Aund, vijst so ei uppa sake, i varmre Laug þijns Lijfsins Bloods, laat hana Hreinsun faanga, so Heiptar Pijnu Heliar Moods, hun kuñe alldrei faanga, uñ alla Eilijfd laanga.

## Eirn goodur Psalmur, hvørneñ Madur skule bwa sig til Daudañs.

Vid







Andlæte kvijde eg ecke vid, a hvørre Tijd, Vil eg mig vel tilbwa, Og tilreida sem eg kañ best, J Trwñe mest, Til Guds Sonar mier snwa, Þvi hañ er miñ, Præl þecker siñ, Hañs Kvøl og Deyd, mier hiælpar wr Neyd, Huggar mig þesse Trwa.

Gud Fader Son siñ sende mier, Sa Dauda hier, Leid Søkum Synda miña, Ad yrde eg friæls vid Andar-Kvøl, og Hoolpeñ vel, Þad hlaut hañs Son ad viña: Er stijkt ei mest, Guds Giøf og Ast? Hañs Mystun stoor, og Millde var, Mier vill sijns Rijkis Arfs uña.

## Eirn Huggunar Psalmur, med sama Lag.

Gladur nu deya vil eg vijst, Vid Dauda sijst, meg-na eg mier ad hlijfa, Fordiørsun aungva eg siña mæ, þo falle fræ, mijn Saal hia Gude mun blijfa, þvi Þiòon er eg þiñ, þu HErra miñ, ætijd hia þier, Efflaust eg er, Ei kañ mig fra þier hrijfa.

Sø leinge sem hier Lijfed dreg, Læra vil eg, Gud-lega i DRottne deya, Og bwast til med bestre List, Blijdañ um Christ, fast Trwar-Fadm ad beya, mitt ædst Traust er hañ, Aund leysa vañ, Fyrer siñ Deyd, og frelsie af Neyd, Gladur þa vil eg þreya.

Af Naad hefur Gud mier veitt og skeinkt, a Kross uppheingt, JEsum Christ Son siñ kiæra, Sa fyrer

mig

mig lide saarañ Deyd, ad svipta Neyd, Sie hønum þvi Sæmd og Æra, Oh! hvilijka Náad, hefur Gud mier tiaad? þa kraunku Aund mijn, Kallade til sijn, J eilijft Lijf iñ ad færa.

Gief mier nu DRottiñ Giæsku-Ør, glada Burtfør, Fyrer JEsu dijrstañ Dauda, Ad Life og Deye eg i þier, Aund miñe og mier, Boot veit fyrer Blood hañs rauda, Miñ JEsu Christ, mig hefur leyst, J þijna Hønd, Eg fel mijna Aund, Sofna eg so aan Nanda, Amen.

## Añar Hugunar Psalmur moot Daudanum.







Skyllda eg ecke eignast Lijf, Eilijflegt og fordast Kijf, hvar være Daude helgur þiñ, og hellst Bloodrijke Bardageñ?

Hvar til var þitt helga Holld, hüled og grafed nidur i Folld? Ef þiñ Daude ecke mier, Eilijft giæfe Lijf hiaa þier.

O JEsu! vid mig vertu þvi, Viss og Trwr, Eg til þijn fly, Yfergief þu alldrei þañ, Sem Unda-Flood þitt hreinsa vañ.

J Fride laat mig sofna sætt, So vid øngvu verde hætt, Andlite blijdu og Augum þijn, Æfeñlega snu til mijn.

Frelsare miñ af Faare og Neyd, Fyrer þiñ bid eg saarañ Deyd, Laat mig Ølkum øllum naa, Og Æfeñlega Lofgiørd tiaa.

## Bænar Psalmur uñ gooda Burtfør, Ordtur af Sr. Sigurde Jonssyne.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

O JEsu, JEsu, JEsu miñ, JEsu mitt Lijf og Hertogeñ, Aundeñ mijn kvakar epter þier, Oløg Daudañs þvi fornærker, Yfergief þu mig ei vid þad, þo Aundeñ og Hollded skiliest ad.

Señ reñur Glased Ara af, Eg stend vid Daudañs rauda Haf, Vatns-Flooded beliar uñum ad, alldrei veit nær mig svelger þad, Ogna Bylgiur sem ofra sier, O JEsu! lææt ei dreckia mier.

Kom þu nu med þiñ Krossens Staf, Klappande uppaa Dauda-Haf, Læættu mig þurrañ Farveg faa, Og Fødur-Lande Klaklaust naa, Blessade Daudañs Bane þu, Burtfør gief mier Sææluga nu.

J þeñañ diwpa Daudañs Hyl, DRotteñ þig med mier taka vil, Leid þu mig Hææska øllum wr, Einka Hoop mitt og Verndar-Mwr, Sijndu mier Bygd og Bææñ þiñ, J blessud Hijbijle leid mig iñ.

Myskunar þiñar Skugge skioott, Skijle nu miñe Synda-Gnoott, Fyrer þiñ Dauda fleig þeim iñ, J Forþienustu Hyleñ þiñ, Rauda-Blooded wr Benjum þijn, Blæde wt yfer Jllverk mijn.

Allsheriar Gud eg þacka þier, þeiged Lææn allt sem veitter mier, miøg opt hefe eg þad misbrwkad, miñstu nu ecke Gud a þad, fyrer Brot øll og Breiskleik miñ, Borgun er JEsus Sonur þiñ.

Jeg vil nu feigeñ fara til þijn, og faa þier aptur Saalu mijn, leid þu hana um̃ Lioossens Hlid, i lifande Maña Bindinid. O! þaug æskeleg Um̃skipte, ad siaa þig þar i Dijrdeñe.

Skapare miñ þier skila eg nu, Skiepnu þeirre sem giørder þu, O JEsu tak þu eins ad þier, og añast þañ þu Fridkeypter, Heilage Ande haf Gææt aa, helgudum þijn i Skijrnar Saa.

Velkomeñ Daude, Velkomeñ, vijsa þu mier aa Bwstad miñ, læættu upp Dyrnar Lijssins þa, Laangar mig þar til iñ ad naa, þu goode Giesiur giørdu þad, Gud sem hefur þier befalad.

Andvarp mitt DRotteñ aalijt þu, O!DRotteñ tef ei leinge nu, Fødurlande mig fijser naa, Fordæmdum Heime leys mig fraa, Naadeñ er vijs eñ Neydeñ stillt, Nem upp miñ Anda þa þu villt:

Kom þu Lioos-Mooder Liwf til mijn, Laugadu mig i Bloode þijn, Sofna og Vakna sætt i þier, Siaalfur JEsu þad veit þu mier, Leys mig þegar þier þyker Maal, þier Befala eg mijna Saal, A M E N.

## Christeleg Um̃þeynking Daudans, Ordt af Saal. Sr. Hallgrijme Peturssyne.

Ton, Dagur i Austre øllu, etc.

ALLt eins og Bloomstred eina, uppvex a sliettre Grund, Fagurt med Frioofgun hreina, Fyrst um̃ Dags Morgun Stund, aa snøggu Auga Bragde afskored verdur skioott, Lit og Blød nidurlagde,

